Catal. of 1720. —

~~No 63.~~

No. 63. 1. Orkneyar seu historia Orcadensium. Danice autore Clerico Norv. primum conscripta. begynnes från åhr 850. och slutes vid åhr 1170.

am. 435. — Sverris saga, Hakonar Sverris sonar etc. Hakonar S. Hakonar sonar. Bokin er i folio, illa skrifut og ekki rett, vantar nockud sidast. hefir fyrrum til heyrt Skalholts kirkiu. A. M.

H^x d. 20 — Ur sogu Hakonar Eg. Hakonar sonar fengit 1728. i Febr. fra lögmanninum Oddi Sigurdssyni. A. M.

# FORNMANNA SÖGUR,

EPTIR GÖMLUM HANDRITUM

ÚTGEFNAR

AÐ TILHLUTUN HINS

KONÚNGLIGA

NORRÆNA FORNFRÆÐA FÈLAGS.

---

Urðar orði
kveðr engi maðr.

*Fjölsvinnsmál.*

---

ÁTTUNDA BINDI.

Saga Sverris konúngs.

---

Kaupmannahöfn, 1834.
Prentaðar í enni *Poppsku* prentsmiðju.

# SAGA

# SVERRIS KONUNGS.

---

EPTIR GÖMLUM SKINNBÓKUM

ÚTGEFIN

AÐ TILHLUTUN HINS

KONÚNGLIGA

NORRÆNA FORNFRÆÐA-FÈLAGS.

---

Kaupmannahöfn, 1834.

Prentuð í enni *Poppsku* prentsmiðju.

# Formáli.

Þetta áttunda bindi af Fornmanna-Sögum inniheldr sögu Sverris Noregs konúngs, er líka þóttist Magnús heita ok nefndi sig svo í sumum sínum brèfagjörðum; (sjá annars sögunnar 5[ta] kapítula, bls. 13, ok Páls biskups sögu 4 kapítula); kemr það heldr seint í ljós frá vorum höndum, en sá dráttr er einúngis prentarans eðr prentsmiðjunnar annríki eðr vandkvæðum at kenna. Þessi saga er að sönnu, nú fyri frekum tuttugu árum, ágætlega á prent útgefin í arkarformi, til framhalds af Snorra Sturlusonar Heimskrínglu eðr Noregs konúnga sögum (sem þeirra 4[di] partr, 1813), á Konúngs vors kostnað, af þeim hálærðu Prófessórum, Etatsráðunum Birgi Thorlacius ok Eiríki Christjáni Werlauff, með danskri ok latínskri útleggíngu, en ýmisligt ok margbrotið ásigkomulag þeirra fornrita, sem enn eru til af henni, leyfðu þeim er hana enn fremr vilja í ljós leiða, ýmislega aðferð við nýar útgáfur hennar, ok má þannig líka einnig hin þriðja, á sínum tíma, verða þeim tveimr nú útkomnu frábrugðin, ok þó fróðleg í þeirra augum, er vilja kynna sèr söguna til fulls, í öllum hennar elztu myndum.

Til þessarar útgáfu höfum vèr notað þær sömu fjórar fornu skinnbækr, sem brúkaðar voru til hinnar fyrri, ok eru þær þessar, merktar með sömu bókstöfum ok þar, nefnilega:

*A.* Ur Arna Magnússonar handritasafni Nr. 327 í fjögrablaðaformi. Bók þessa hafði hann fengið í Noregi; hafa lærðir menn því fyrr meint að hún sè

skrifuð þar, á síðara hluta hinnar 14du aldar. Að minnsta kosti er ritsmáti hennar frábrugðinn þeim er tíðkaðist á Islandi á sama tímabili. Samt er það mögulegt at skrifarinn hafi, snemma á nefndri, ef eigi jafnvel seint á 13du, öld fylgt frumriti sínu, fullgörðu í Islandi, eigi ólíklega skömmu eptir fráfall sjálfs Sverris konúngs, í byrjun 13du aldar. Astæður vorar fyri þessari getgátu munum ver hèr síðar útlista. Rèttritun bókarinnar sem skrifuð er með sèrlega skíru ok fallegu handarlagi, má annars optast nefnast góð ok sjálfri sèr samkvæm, að miklu leiti eptir þeim hætti, með hvörjum Islands elztu rit (t. d. *Schedæ* Ara fróða ok Reykholts kirkju brèf frá tíð Snorra Sturlusonar) enn sjást at hafa skrifuð verið. Sá ritsháttr hèlst að nokkru leiti lengr við í Noregi (þótt túngumálið spilltist þar fyrr) en á Islandi; mun því vandhæft at segja með vissu, að þessi bók sè í Noregi rituð, þótt hún sè þaðan til Hafnar komin. Aldr ok máske líka upprúnaheimili þessarar bókar má að nokkru leiti ráða af ymsum línum ok orðum, á latínu, forna norrænu, ok nýari norsku eða dönsku, sem híngað ok þángað eru í hana skrifuð, á fremstu opnu ok spáziunum, fráskilið sjálfrar hennar innihaldi. Ritanír þessar eru sumar (án efa) frá 14du, aðrar frá 15du ok 16du öld. Merkilegast hèraf álítum vèr hið eptirfylgjanda að vera:

1) (á sauropnunni): „*Hoc opus isserus fecit,*" hvörrar athugaverðu greinar meiníng vèr síðar munum reyna til að útskíra.

2) efst á skrifuðu blaði (yfir 107 kapítula), með mjög fornu, en skíru ok fallegu handarlagi: „*þessa bók á Eldridh.*"

3) Hið sama nafn hefir líklega staðið fyrst í fylgjandi afgömlu vísumind, á sauropnunni, þar eigandans nafn þar augsjáanlega er útskafið:

*(Eldríður) á mik* *loghmaðr sæm (sem) lá,*
*vel máttu sjá mik,* *oc gakk bortt í frá,*

hvörs vegna nafnið er útskafið sèst bezt af þriðju hendíngu vísunnar, sem líklega er skrifuð af einhvörjum óvin tèðrar Eldríðar.

4) A sömu spázíu ok nafnið *Eldridh* stendr, eru tvær latinu vísur ritaðar með smáu letri, en nokkuð klámfengnar, ok látum vèr því prentun þeirra hjá líða, en af þeim má annars ráða, að tèð Eldríðr hafi verið nunna *(monacha)*, en ritarinn þó eigi haft beztu þánka um hennar siðferði.

5) Nafn hins fyrrumgetna lögmanns sèst af þessari fornu áteiknan, efst á spázíu yfir 63da kapítula: *„Frá þóro sendr herra Sigurði lögmanni."* Líklegast er þetta skrifað í Islandi, hvar enginn annar lögmaðr, þessa nafns, verið hefir frá byrjun 13du aldar allt til 16du, nema Sigurðr Guðmundsson, er tók lögsögu fyri sunnan ok austan ár 1358 ok andaðist 1380. Samt er það víst, at nokkru fyrr ok um sömu mundir voru fjórir lögmenn þessa nafns í sjálfum Noregi, hvörra nöfn vèr fundið höfum í brèfligum gjörníngum 14da aldar, nefnilega: a) „Herra Sigurðr Jónsson," lögmaðr í þrándheimi, á árunum 1307, 1310, 1311, 1319, 1322, líklegt er ok at hann lifað hafi 1324, en þá eigi lengr í því embætti setið; b) „Herra Sigurðr Hafþórsson" (síðar líklega ríkisins ráðherra), lögmaðr í Osló (Víkinni eðr Borgarþíngalögum), á árinu 1348; c) „Sjugurðer Gyrðzson" lögmaðr í Skíðu 1356, d) „Sighurðr Eiríksson" lögmaðr á Upplöndum, 1370. þannig skrifaðist það nafn almennt um sömu mundir í Noregi: Sjugurðr Sighurðr, eðr á annan, þeim íslenzka ritmáta nokkuð frábrugðinn, hátt. Loks verðum vèr þess at geta, að enn einn lögmaðr var hinum sama samtíða í Noregs ríki, nefnilega Herra „Sighurder Sigwatzsun", lög-

maðr í Orkneyjum, sem útgaf skinnbréf í Björgvin 1338.

6) á spázíunni fyri neðan 110 kapítula „*Sigurðr pb*" (líkliga *presbyter* eðr prestr) „*Guðlauxson*, nem mik;" sýnist at vera frá 14$^{du}$ eðr 15$^{du}$ öld.

7) Margar ritanir finnast híngað ok þángað í bókinni, á spázíunum, á afbakaða norrænu, eðr nýari norsku (vart dönsku) með einskonar fljótaskrift, líklegast frá 16$^{da}$ öld, er vísa til innihaldsins, t. d. *Suerris kgs Etleg*; *S. Olafs kke paa Backe* (o. s. fr.)

þessi skinnbók (hèr nefnd *A*) er af oss, eins ok af Sverrissögu fyrri útgjöfurum, lögð til grundvallar við prentun hennar, þó svo, að hún nákvæmlega er samanborin við aðrar þrjár fornar skinnbækr, hvörjum síðar mun lýst verða. Innihald hennar sèst þó stundum að vera nokkuð afbakað af skrifaranum, helzt í stöku orðum, en stundum er nokkru sleppt af hans gleymsku eðr óaðgætni. Fáeinar yfirsjónir í sjálfri sögunni, er viðvíkja mönnum eðr atburðum, eru máske sjálfum höfundinum at kenna. Allt slíkt höfum vèr, hvar hið sanna var oss ljóst, leitazt við að leiðrètta eptir hinum skinnbókunum, þegar þær, hvörra ritarar síðar eðr lengr munu lifað hafa en höfundar tèxta frumrits, virðast að bera hið rèttara með sèr, eptir því sem þeirra aðalsemjendum tekizt hefir að fá skírari eðr nákvæmari frásagnir um einstaka viðburði, annaðhvört í Noregi sjálfum, elligar eptir þar sömdum ritum, eðr á annan hátt.

Ritsháttr greindrar bókar er í sumu frábrugðinn þeim, sem annars sèst á íslenzkum ritgjörðum, er skrifaðar eru seint á 14$^{du}$ öld, eðr enn síðar, en líkist í mörgu þeim elzta á Islandi, eins ok vèr fyrr höfum umgetið, til dæmis: *v* sezt opt (en eigi ætíð) fyrir *f*, svo sem *hava*, *hliva*, *horva*, *ovar* fyrir *hafa* o. s. frv.;

*ø* stundum fyrir *æ* (*böndr, grön, bön, ör, röða, kömi* f: *bændr* o. fl.); — *æ* opt fyrir *e: æk, ænn, ær, væl, ængan, flæstum, hvæ, æf, kældr, hæfði, sætli, hæyrði, hælgi, þvæginn, længi, Æysteinn, Sværrir*, fyrir *ek enn*, o. s. frv.; *c* opt fyrir *k* ok stundum fyri *g: caupa, çann, floccr, scegg, undarlict* fyri *kaupa* o. s. frv.; *h* er opt sleppt, í byrjun orða, fyri framan *l* ok *r*, t. d. í *luti, ljóð, ríð, ræzla, raustr, ryggr, ringa, lýðni, rakníngr, neysa, látr, ló, Laðir*, fyri *hluti, hljóð* o. s. frv., *g* sömuleiðis fyri framan *n*, t. d. *neistaði* fyri *gneistaði*, o. fl.; ð brúkast ei einúngis, með mestu nákvæmni, allsstaðar þar, hvar þessi bókstáfr í slíkum fornritum vanalega hittist, nefnilega eptir *r, f* ok *g*, ok eptir hljóðstafi í sama atkvæði, heldr líka opt eptir *l* ok *m*, t. d *dreymði, eymð, dvalði;* þó stendr þ í sömu tilfellum enn optar eptir síðastgreinda stafi, t. d. *dvalþis, hulþi, fjölþi, talþi, völþuz, çulþi, deilþu, grimþ* o. fl. Einnig finnst opt hèr, hvað annars er mjök sjaldgæft, ð eðr þ eptir *k* eðr *c*, svosem: *hnækði, fylcði, fylcþo, varði, vörþu, mercði;* — ennfremr eptir *p*, sem *leypði, glapði*, — ok höfum vèr optast gætt slíks ritsháttar í þessari sögunnar útgáfu; *z* brúkast hèr opt ok á margan, jafnvel annars sjaldgæfan, hátt, t. d. 1) stundum fyrir *s*, í *superlativis* eptir raddarstafi, sem: *hraustazir, síðarzt;* 2) optast sem bindíngarmerki fyrir *st*, sem: *optaz, eignaz, bráz* fyrir: *optast, eignast, brást;* 3) sömuleiðis sem bandsteikn fyrir *tst* t. d. *lèz, liz* fyrir *lètst, litzt*, hvað vèr skrifum *lèzt* o. s. frv., ok loks 4) fyrir *ds*, t. d. *sverzins, orztír, utanborz, Guðbranz, Haralls* fyrir *sverðsins, orðstír* o. s. frv.; *nn* skrifast hèr stundum í staðinn fyrir *nd* t. d. *funnu* fyrir *fundu;* *x* brúkast ok einstökum sinnum fyrir *ks* t. d. *Isaxson* fyrir *Isaksson; lld* ok *llt* finnast vanalega í orðum, sem líklega rèttar áttu að skrifast með *ld, lt*, t. d. *elldr, vællti* fyrir

*eldr* o. s. frv. — en stundum sjást þau ok rituð á síðastnefndan hátt, hvörjum vèr þess vegna hèr allsstaðar höfum fylgt, nema þar sem uppruni orðanna sýnir að hinn fyrst greindi ritsmáti sè rèttari, t. d. í *feldi, allt* o. fl.; *pt* fyrir *ft* t. d. *tylpt, þurpt* fyrir *tylft, þurft*; *e* fyrir *i* t. d. *mek, sec* fyri *mik, sik* (mig, sig) o. fl.

Aðgætnir lesarar, er með oss samanbera þessa í nýari íslenzkum ritgjörðum sjaldgæfu ritshætti, við aðra líka, er finnast í þeim allraelztu, munu einnig komast að raun þarum, að þessar síðastnefndu sjáist að vera ritaðar eptir sömu reglum ok skinnbók þessi, sem varla mun í Noregi skrifuð. Samt sýna spázíuskriftirnar að hún á 16[du] öld vissulega hafi í Noregi verið, ok án efa síðan þar geymð, uns vòr ógleymanlegi Arni Magnússon þar náði henni til síns makalausa handritasafns. Ný pappírsafskrift af þessari skinnbók er tèðs safns Nr. 79 í arkarformi; á viðfestan seðil hefir sjálfr hann skrifað: „þessi Sverris Saga er ritut eptir *Codice meo membraneo, in* 4[to], þeim góða sem ek fèkk í Noregi forðum, ok ek síðan lèði Síra Jóni í Hítardal." A öðrum seðli, er nefnir 9 fornar skinnbækr sögunnar, sem til voru á öndverðri æfi hans, nefnir hann þessa þannig fyrst ok ætlar hana þá beztu vera: „*Codex meus in* 4[to], *optimus ille in calce truncatus.*" Aungvan annan miða höfum vèr getað uppgötvað frá hans hendi, viðvíkjandi þessari skinnbók, sem án efa mun sú hèrumgetna.

þetta sèst þó eigi þaraf, að sömu hluta sögunnar vanti, bæði í frumritið ok afskriftina, því í þessari finnast nú aungvar eyður, þótt uppfylling þeirra sýnist at vera skrifuð eptir annari bók, en þrjár stórar eyður sjást samt í skinnbókinni. Hin fyrsta byrjar, þar eitt blað vantar, í 162 kapítula (hèr bls. 398) ok

endar í þeim næsta (bls. 402); sú önnur byrjar, á sama hátt, í 164 kapítula (bls. 407) ok nær framm í hinn næsta (bls. 412); hin þriðja nær frá 179 kapítula (bls. 440) til enda sjálfrar sögunnar (bls. 448), ok er það mestr skaði, þar eigi er ólíklegt, að af honum, þannig sem hann staðið hefir í optnefndri skinnbók, mætti hennar aldr ok höfund ráða. Samt efumst vèr aungvanveginn um að hún innihaldi hið elzta frumrit Sverrissögu, sem nú er til (að einu blaði eðr tveimr undanteknum), þótt ymsar slæmar skrifvillur ok gleymskubrestir finnist, er vèr meinum sèu bókarinnar skrifara, en ekki hennar eginlegu höfundum að kenna, t. d. bls. 12, 18[du] mismunargrein; bls. 20, 1[tu] mmgr.; bls. 21, 11 mmgr.; bls. 100, 5 mmgr.; bls. 106, 4 mmgr.; bls. 113, 14 mmgr.; bls. 129, 5 mmgr.; bls. 188, 2 mmgr.; bls. 193, 1 mmgr.; bls. 240, 17 mmgr.; bls. 251, 8 mmgr.; bls. 257, 13 mmgr.; bls. 323, 3 mmgr.; bls. 326, 10 mmgr.; bls. 334, 15 mmgr.; bls. 370, 17 mmgr.; bls 377, 14 mmgr.; bls. 378, 10-12 mmgr. ok í mörgum fleirum stöðum. Er það auðsèð, að skrifarinn víða ekki hefir rètt tekið eptir samanhengi eðr innihaldi sögunnar, hvörs vegna vèr, eins ok hennar fyrri útgjafarar, höfum lagt alla alúð á að uppgötva ok leiðrètta slíkar ritvillur, sem stundum umsnúa höfundsins meiníngu, eptir hinum skinnbókunum, hvar þær augsýnilega rèttari eru, þó ávalt með tilhlýðilegri ávísan um uppsprettu leiðrèttíngarinnar.

*G.* Mikil ok merkileg skinnbók í sama handritasafni, Nr. 47 í arkarformi, kölluð *Eyrspennill*. Fyrst á henni stendr síðari hluti af Heimskríngla eðr Noregs konúnga sögum Snorra Sturlusonar, er byrjar með upphafi Sveins konúngs Alfífusonar (í Kaupmannahafnar útgáfu, 2 parts bls. 383, 252 kapítula af sögu Olafs helga), ok nær til enda sögu Magnúss Erlíngssonar.

þarnæst fylgir einskonar ágrip Sverrissögu, álíka tilbúið, ok ágrip Snorra af Olafs Tryggvasonar ok Olafs helga lengri sögum, eins ok þessu er lýst í ymsum ritgjörðum hins hálærða biskups Müller: „Hann (Snorri) hafði þá eldri sögu fyri sèr, útstrikaði það, sem honum fèll ekki í geð, gjörði ágrip af því, sem honum fannst of lángt eðr margbrotið vera, leiðrètti það sem hann vissi betr eðr honum virðtist rángt, en jók einu eðr öðru við, sem honum var fremr kunnugt." Öldúngis á slíkan hátt er þettað ágæta ágrip samið, hvað mismunargreinirnar sannað geta. Sýnist Sverrissaga þessi hèr að vera augljóst framhald Heimskrínglu, ok að hún sè til þess ætluð, sèst þaraðauki berlega af sögunnar 112ta kapítula, (bls. 270, 5tu mismunargrein), hvar höfundr (eðr viðaukandi) þessa framhalds kemst svoleiðis að orði: „er Eysteinn erkibiskup hafði á komit við bændr, um sakeyri, sem fyrr er ritat." þessi fjögur síðustu orð standa ekki í hinum skinnbókunum, en miða augljóslega til sögu Magnúss Erlíngssonar, í Heimskrínglu, 16da kapítula (í fyrrgreindrar útgáfu 3 parts bls. 429-430; samanber Fornmannasögur, 7da bindi, í sögu sama konúngs, 8 kapítula, bls. 299-300). Hyggjum vèr því, ok munum síðar útlista fleiri ástæður þeirrar meiníngar, að sjálfr Snorri Sturluson sè höfundr þessa nú makalausa ágrips, ok höfum vèr því gjört oss sèrlegt ómak fyri því, að leiða lesaranum þess ásigkomulag ok nær því öll þess atriði ok orðatiltæki fyri sjónir; oss þótti hans minníng verð þeirrar mæðu, ok mun þó máske sumum virðast að hún óþörf verið hafa, en mismunargreinirnar í þessari útgáfu allt of margar; verðum vèr, ef svo til vill, að leita huggunar í þeim forna málshætti: enginn gjörir svo öllum líki! Vonum vèr ok, að allir sèu oss í því samþykkir: að betra sè að geyma þannig heldr margt af atriðum svo stakra

fornrita sjálfra (sem óvíst er hve brátt kunni undir lok að líða) en að sleppa eðr gleyma einhvörju sèrdeilis merkilegu, hvað vèr ætlum að ekki verði oss fyri þessa útgáfu á brýn borit. Vèr hugsum enn fremr, að Snorri ekki, að enduðu ágripi þessu, hafi sleppt verki sínu við Noregs konúnga sögur, — en eignum honum þar-aðauki frammhald þeirra, sem í sama Eyrspennli stendr, um Hákon konúng Sverrisson ok hans eptirmenn í ríkisstjórninni, Guthorm Sigurðsson ok Inga Bárðarson, er prentast munu í 9 bindi af þessum Fornmannasögum. Loksins inniheldr Eyrspennill sögu Hákonar konúngs Hákonarsonar, ritaða af Sturlu lögmanni Þórðarsyni, er með henni hefir frammhaldið síns ódauðlega föðurbróður mikla sagnaverki. Af Eyrspennils innihaldi eigum vèr hèr að sönnu einúngis að lýsa hans ágripi af Sverris sögu, en hljótum, til þess að komast tímabili því, á hvörju tèð bók er skrifuð, svo nærri, sem mögulegt verðr, að geta eins ok annars henni viðvíkjandi. Hèraf er merkilegast þessi áteiknun, með fornu handarlagi, sem finnst, vel rituð ok læsileg, efst á spázíu, á bókarinnar 57da blaði (104 síðu): *Iste liber est Throndonis Gardari* (eðr *Garderi*), *canonici Nidrosiensis* ɔ: „þessa bók á Þrándr Garðarsson, kórsbróðir í Niðarósi."

Þessi sami Þrándr Garðarsson nefnist, með sömu nafnbót ok heimili, í skinnbrèfi, útgefnu í Björgvin á Bartholomæi messu aptan (23 Augusti) 1363, sem þá lifandi ok þar til staðar verandi. Áteiknun nefnds Þrándar sýnist miklu nýlegri at vera, en sjálf bókin, ok mun því enginn vafi á, að þessi rituð sè á öndverðri 14du öld, ef eigi seint eðr síðast á hinni 13du. Samt er það augsjáanlegt, af ymsum atvikum, að sú Sverris Saga er skrifuð eptir eldri bók, sama innihalds. Á fremstu opnu standa þessi (líklega norsku) nöfn með

16^du^ eðr 17^du^ aldar handarlagi: *P. Laurentzsönn m. propr.* ok *Inez* (eðr *Jens*) *Jenssen.* A spáziunum eru margar stuttar ávísanir innihaldsins, er þó heyra til tveggja sèrlegra flokka; er hinn eldri, með fornu handarlagi frá 14^du^ eðr 15^du^ öld, á hreina norrænu eðr íslenzku t. d. *austrferð Einars ok Kálfs; andlát Knúts konúngs ok Sveins; frá Knytlíngom; fra Sigurþi brenni* o. s. frv. Hinn flokkrinn mun þaramót frá 16^du^ öld, án efa á nýari norsku, þótt skrifarinn hafi stælt eptir hinni fornu t. d. *Thenne Sigurd Konge, sem vegin var i Björgvin, hand war fadir Suerris konungs; her opregnir K. Suerre hvad Scade hand hafvir fengit,* o. s. frv. Loks hefir Arni Magnússon sett árstöl merkilegra viðburða á hvörri spáziu þessarar Sverrissögu, líkliga eptir sjálfs hans útreikníngi. Vèr vogum að gizka á, að þessi merkilega bók sè skrifuð eptir frumriti sjálfs Snorra Sturlusonar, eðr skrifara hans, er verið hafi eign Olafs Þórðarsonar, sem á því hafi framhaldið Noregs konúngasögum föðurbróður síns, með Sögu Hákonar Hákonarsonar. Ritsháttr Eyrspennils líkist í mörgu bókarinnar *A*, ok þarf honum því eigi með mörgum orðum at lýsa. Samt getum vèr þess, að hann opt tvöfaldar suma samhljódendur með púnkt yfir, helzt þannig, *ḋ* (dd), *ġ* (gg), *ṫ* (tt); *k̇* (kk), *ṗ* (pp). Þarámót tvöfaldar hann optast r með upphafsstaf, (R fyrir rr) ok n með striki yfir (ñ fyrir nn). Hèr sezt stundum *ó* fyrir *á* (t. d. *knjóm, kóðu* f. *knjám, kváðu*), *u* fyrir *y*, sem *skuldi* f. *skyldi*, en *yr* fyrir *ur; þí* skrifast hèr optast fyri *því*, en *þvísa* samt stundum fyri *þessa; umb* sezt stundum fyrir *um*, *h* er stundum sleppt, á ósiðvanalegan hátt, t. d. *fal ann* fyrir *fal hann, portús* fyri *porthús*. Merkilegast virðist oss samt að *a* ok *at* stöku sinnum hittast hèr, samknýtt við enda gjörníngsorða, sem neitunarmerki, í lausri ræðu, eins ok forðum opt í bundinni, t. d. *fóra* fyrir *fór*

*eigi*, *þolat* fyrir *þola eigi*. Sumstaðar er slíku breytt með gömlu, jafnvel sama, handarlagi, svo skrifarinn sýnist, nær það fyri kemr, að hafa þannig ófyrisynju fylgt eldra handriti á einstökum stöðum, en annars ok optast breytt þessari forneskju eptir sinnar aldar tals- eðr rits-hætti. Líklegast virðist oss, að bók þessi sè í Noregi rituð, einkum vegna þess orðalags með hvörju hún segir frá drápi Páls Andressonar (í 49da kapítula, bls. 123): „þetta sumar drápu Birkibeinar Pál Andresson ~~hèr~~, ok mjök mart manna með honum." Að vísu sýna þessi orð ljóslega, að þau ekki eru þannig á Islandi skrifuð, heldr í Noregi, en hvar dráp Páls eginlega skeði; segist ekki glögglega af neinni bókanna; samt ber innihaldið með sèr, að það hafi skeð í Þrándheimi. Páll Andresson nefnist ok meðal höfðíngja þrænda í Niðarósi, í sögu Magnúss konúngs Erlíngssonar (í Hkr. 26ta kapítula, 3 parts bls. 441; sbr sögu hins sama í Fornmannasögum, 17 kapítula, bls. 310, 311). Að eigandi bókarinnar, um miðbil 14du aldar, hafði embætti ok aðsetur í Niðarósi er áðr sýnt. Arni Magnússon lýsti henni þannig í fyrrgreindum latínumiða (4): „*Codex meus in folio, post partem ultimam Snorronis Sturlæi, nec ille quidem malus.*" Þettað orðstiltæki: at ritgjörð sú eigi slæm væri, virðtist fyrri útgefurum Sverrissögu nokkuð lakt vera, ok ofsparsamt á hrósi því er hún skilið ætti, í hvörju áliti vèr fullkomlega erum þeim samdóma.

Af *G* er til pappírsafskrift, Nr. 87, í arkarformi meðal Arna Magnússonar handrita.

*B. Flateyarbók*, í stærsta arkarformi, í konúngsins bókahirzlu; er Sverrissaga þarí skrifuð af Magnúsi presti Þórhallssyni, frá 583 til 659 dálks, hèrumbil ár 1390. Formáli skrifarans sýnir að þessi saga þar er rituð eptir bók, er skrifuð var af Styrmi presti hinum fróða, að nokkru leiti eptir aðalriti Karls ábóta

Jónssonar, (ok líklega fleiri höfunda) en ýmislegum smágreinum ok miklum orðafjölda, híngað ok þángað, virðist oss eigi ólíklegt að hann viðaukið hafi, ef sumt slíkt eigi er Magnúsi presti að kenna, t. d. í byrjun 20 kapítula (bls. 53, í 18 línu, eptir orðin: konúngr mælti): *Nú þó at vér megim eigi slíkum orðum til koma, þá verðr þó með orðum hverja sögu fram at flytja;* sumum slíkum ofmælum þeirrar bókar höfum vèr algjörlega sleppt í mismunargreinunum, sem annars hefðu helzt of rúmfrekar ok margbrotnar orðit, án þess at bæta sjálfa söguna í neinu, merkilegum viðburðum eðr fornri málfræði viðvíkjandi. Arni Magnússon lýsir ok tèðri afskrift þannig: (6) „*Codex Flateyensis, ubi Sveri vita habetur, verbosior aliis.*" Þessar fjórar pappírsafskriftir hafast, úr tèðri skinnbók, í Arna Magnússonar safni, allar í arkarformi: Nr. 82, 83, 84 ok 85. Orðamunr úr þeim er tilgreindr í hinni stóru Kaupmannahafnar útgáfu, (hvar þær þrjár síðast greindu eru merktar *E*, *C* ok *D*, ok virðtist oss því ekki ómaksins verðt að ítreka hann hèr, eðr bera þær, ellegar aðrar nýar pappírsbækr, saman að nýu við þau fornu frumrit, eptir hvörjum þær vitanlega skrifaðar eru. Sjá annars um Flateyarbók formála Olafssögu helga, í Fornmannasögum 4[da] bindi, bls. 6 ok eptirfylgjandi, svo ok P. E. Müller, Saga-Bibliothek III, 437 o. fl.

*F.* Hin svokallaða Skálholtsbók, í Arna Magnússonar safni, Nr. 81 *A*, er inniheldr sögur Sverris konúngs ok hans næstu eptirmanna, ásamt Hákonar Hákonarsonar sögu. Nefndr bókarinnar egandi hefir eptir sik látið þetta sitt álit: „(7) *Codex meus, olim (ut videtur) ecclesiæ Scalholtensis in Islandia, nulli priorum comparandus nec magnæ ætatis, nec bonitate præstans.*" Ritsmáti ok handarlag sýnist að benda þartil, að bókin sè skrifuð ofarlega á 15[du] öld; hann

líkist að nokkru leiti þeim, er þá ok fyrr (jafnvel á 13du ok 14du öld) tíðkaðist í Noregi ok Danmörku, en að öðru leiti þeim nýari íslenzka, t. d. *w* fyrir *ú* ok stundum fyri *v*; *h* er opt bætt við enda sumra orða eðr smeygt inn í miðju þeirra, t. d. *afh*, *ath*, *dagh*, *þeghar*, *wth*; *mik*, *sik*, *ek*, skrifast hèr *mig*, *sig*, *eg*, eðr jafnvel *egh* o. s. frv. Líka finnst margt annars rángt skrifað, af hirðuleysi ritarans, — en aungu að síðr hefir frumrit bókarinnar gott verið, ok eru því þaðan, í mismunargreinunum, ymsar leiðrèttíngar ok aukaklausur teknar. Virðist oss svo, sem verk þetta sè í öndverðu samið eptir góðri afskrift af aðalritinu, en ritarinn hafi þarí breytt einu ok öðru eptir hugþótta sínum eðr betri vitund, ok meinum vèr einnig, að Snorri Sturluson, eðr höfundr Eyrspennils, hafi haft það, ásamt fleirum, fyri sèr, þá hann ritaði tèð sögunnar ágrip. Nr. 86 í fjögra blaða formi er pappírsafskrift þessarar bókar. Síðast í greindri uppteiknan hafði Arni Magnússon skrifað: „*Variorum codicum fragmenta, penes me.*" Eptir þessari ávisun leituðum vèr hins umgetna, ok fundum þá í optnefndu hans handrita safni, í hulstrunum Nr. 325, (8, 10) í fjögrablaða formi, þessi 14 forn skinnbóka-brot af Sverrissögu, hvör vèr nú höfum við hana samanborið, ok getum þess hèr, er í þeim má merkilegt þykja, frábrugðið útgáfu vorri:

1) Eitt kálfskinnsblað, er lítr út til að vera frá byrjun 15du aldar, með áteiknun „*frá Islandi*". það nær frá vorrar útgáfu bls. 14, 8da línu, til bls. 18, 17du línu, í 5, 6 ok 7 kapitula. þetta blað sèst að vera samhljóða bókinni *A*, að því undanteknu, að stöku orðum keinr meir saman við *B*, *G* eðr *F*, en vart finnst nokkuð, sem í aungri þeirra er, nema (bls. 14 l. 11) *andyri* fyri *fordyri*, ok er þó sömu meiníngar.

2) Fornt kálfskinnsblað, af hvörju hin efsta lína

er skorin; þess seinni blaðsíða er víðast vart læsileg, þar það augsjáanlega hefir verið brúkað til bókabands, utan um kver, á seinni tíðum; virðist oss það hafa skrifað verið síðast á 14du eðr fyrst á 15du öld; það byrjar hèr bls. 72 í 17du línu, seinast í 27da kapitula, ok nær til bls. 78 í 19 línu ok 29 kapitula. Þessar mismunargreinir eru þarí aðgæzluverðar: bls. 73, í 14 l. *erchibiskupsgarði* fyri *biskupsgarði*, 22 l. *hálsa* fyri *balla*; bls. 74, í 3 l. eptir *þeir* bætist við *liðinu*; í 26 l. *Jór þiljan framm undan fæti honum;* bls. 75 í 17 l. *stæypti honum áfram* fyri *skruppu honum fæturnir.* Annars er það í öllu samkvæmt aðalbókinni *A*, eðr öðrum hinna bókanna af oss hjásettu lestrargreinum.

3) Annað kálfskinnsblað, sundrklippt ok illa meðhöndlað, líklega utan af sama kveri ok vafalaust frammhald þess næstumgetna, frá bls. 78, 20 l. til bls. 85 í 5 línu ok 33 kapitula. A því er einúngis þessi orðamunr marks verðr: bls. 80 í 13 l. *landskyldir* fyri *gjöld;* bls. 81 í 3 l. *ræðu* fyri *reið;* í 10 l. *jafngegnt* fyri *gegnt;* bls. 82 í 16 l. *undan* fyri *út*, að þessu hèr við bættu: *ok hæita á hinn heilaga Olaf konúng*; í 20 l. *Ruðinn* fyri *skip þat*; í 22 l. *hefla, ok bíða svá skipa sinna*; bls. 83 í 10 l. eptir *heflum* bætist við: *seglin*; í 14 l. *engin orráð af sjálfum honum er duga mættu*; bls. 84, í 4 l. II fyri V; í 22, l. (eptir *utan*) *at Myl* (en framvegis eins ok í *G*).

4) Tvö samföst kálfskinnsblöð úr annari bók, að nokkru leiti velkt, máð ok nú vart læsileg, með fornu handarlagi, sem líklega eru frá 14du öld. Ritsháttrinn er fornligr; *æ* brukast opt fyrir *e;* bókstafirnir tvöfaldast með upphafsstöfum: *G* (gg), *N* (nn), *R* (rr); *röru* sezt fyri *rèru*, *sedlfr* f. *sjálfr*. Hið fyrra (4) byrjar hèr bls. 155, í 14du línu, ok nær til bls. 161, í 19du línu (úr 60, 61 ok 62 kapitula). Bæði blöðin eru algjörlega samhljóða bókinni *A* (ok stundum *F*

eðr *G*), að þessum mismun undanteknum: bls. 156, 1ta línu, hefir brot þetta: *fyrir* í staðinn fyrir *af*, ok mun hið fyrra réttara (eins ok *í F*, sem hèr er þó fjölorðari, en *G* sleppir þessari klausu); l. 11, *aðra dýra höfðingja* fyri *dýrliga drengi;* bls. 157, í 19 l. *eru* fyri *skulu vera;* bls. 158, í 1 l.: *úhæyriligt* fyrir *allúkonúngligt;* 15 l. *Æyraroddann* fyrir *Eyrar;* bls. 159, 22 l. *Dýrason* fyri *dýra;* bls. 161, l. 2, *Hólm* fyrir *Hólmi*, ok mun þat rèttara; l. 13, *myntari* fyri *muntari*. Nokkur blöð vantar millum þessa, ok hins síðara blaðsins (7); sjá hèr eptir í 7du grein.

5) Kálfskinnsblað, að handarlagi ok rèttritun mjög líkt þeim fyrr umskrifuðu 2 ok 3. A viðfestum miða standa þessar línur, líklega í öndverðu ritaðar af Arna Magnússyni, þótt þær vart sèu þar nú frá hans egin hendi: „þetta sögublað fèkk eg 1706 af Arna Hannessyni, ok hafði hann það fundið í rusli á Ytra Hólmi, og var þar ekkert meira þess slags. það er *manifeste* úr sama *volumine* sem það eina blað úr Magnúss sögu lagabætis er eg fengið hefi utan af kveri Hannesar þorleifssonar." Blaðið nær frá bls. 174 í 21 l. ok öndverðum, 70 kapítula til bls. 181, í 6 línu, fyrst í 73 kapítula; finnst það í flestu að vera samhljóða *A* ok hinum skinnbókum vorum, nema hvað stöku orðum eðr klausum hefir sleppt verið, líklegast af gleymsku eðr flýti skrifarans. Af mismun orðanna mun þetta hið merkilegasta: bls. 175, í 10 l. *kallaði* fyri *bað*; bls. 177, í 16 l. o. f. *væri þar ok mart af at segja, en þó eru þeir (atburðir) hèr sagðir, er merkilegastir sýnast ok konúngarnir sjálfir hafa við verit staddir;* 20 l. *krokur* eðr *krökur* fyri *krakana;* er ok hið fyrra líklega rángt skrifað. Seinni blaðsíðan er hartnær ólæsileg, ok hefir hún án efa lengi verið yzt á bókar spjaldi.

6) Eitt lambskinnsblað, líklega frá byrjun eðr miðju

2*

fjórtándu aldar; nær það frá bls. 186, í 5tu línu, til bls. 197, 15du línu (úr 76, 77, 78, 79 ok 80 kapítula), en fáeinar línur, neðst á blaðinu eru, alls ólæsilegar ok nær afmáðar. þessar nýu mismunargreinir eru hèr merkilegar: bls. 186 í 6 l. *mèr alogat* (al'ugat, alhugat) fyrir: *með alhuga mælt;* bls. 187, *Áleyarsund,* hvar sem það sund nefnist; bls. 194, í 19 l., bætist við: *þat er sagt at* (Sygnum líkaði ekki o. s. frv.); bls. 196 í 6 l. *X sýgjur* fyri *IX sýjur.* Innihald sögunnar er hèr mjög samandregið, ok heyrir blað þetta til flokks Eyrspennils (*G*), við hvörn því að mestu leiti saman ber. Rèttritun þess er allgóð; ð brúkast þar sem vera á, o. s. frv., ok í innihaldinu sjálfu hittast vart neinar þekkjanlegar skrifvillur.

7) Er samfast við Nr. 4, eins ok þar er umgetið; það nær frá bls. 199, í 14du línu, til bls. 205, í 16 línu (úr 81, 82, 83 ok 84 kapítula). Hèr sezt bls. 200, í 3 línu, *Rústum* fyri *Ruslum*; bls. 200, í 23 línu, bætist við: *at ræna þar fee (fè) öllu því er þeir fengi*; bls. 201 í 2 l., *bæinn* fyri *kaupstaðinn*; í 21 línu aukist við (eptir *nema*) *þeir sættist*; (gætit til o. s. frv.); bls. 204, 8 l. *XVIII skipum* fyri *XXIII*; 13 l., *ágætir* fyri *lendir*; 20 l. *nætr* fyri *vikur*; 22 l. *tvö Islandsför* fyri *II skip.*

8) Lambskinnsblað, af hvörju helmíngr annars dálksins er skorinn, með smárri ok snoturri hendi, líklega frá 14du öld. það byrjar bls. 227, í 18du línu, ok nær til bls. 250, 12 línu (úr 93 til 103 kapítula). þessar merkilegu mismunargreinar eru á því enn læsilegar: bls. 228 í 16 ok 17 línu: *Andres son Guðbrands kúlu* (samanber voru prentvillu-lista); í 19 ok 20 l., *Sigurðr fluga*; bls. 230, 26 l. eptir: *komu þá til hans Sókndælir* bætist við: *ok guldu honum XV merkr gulls, sem mælt hafði verit*; bls. 232, í 1tu línu (eptir *mælti*) bætist við: *vel ætla ek nú á*

*bita*; bls. 245, í 12 ok 13 l. *Símun Kárason, Nikulás Bjarnason*; bls. 247, í 22 l. (eptir *Víkr*) bætist við: *um várit*; bls. 248, í 15 l. (eptir orðin: víndrykkju, at): *á skildi suðrmann einn ok þ. bæjarmann, ok laust hvárr annann mikit högg. Þvínæst hljópu þýþverskir menn til vápna, en bæjarmenn í öðrum stað* o. s. frv. bls. 249, l. 16 (ok annars), *Þólfr* fyri *Þórólfr*; bls. 250 l. 10 o. f. *kom þá konúngr stefnulagi á með þeim, ok sætti þá svá, at þeim hugnaði.* Brot þetta er úr einu hinu styttsta ágripi sögunnar, máske af öðru ágripi (t. d. *G*) eðr heyrir til þeirra sagna, hvörjum formáli hennar, í Flateyjarbók, ámælir. Að vísu er það hvörki snillilega samsett, nè með sèrlegum eptirþánka.

9) Eitt kálfskinnsblað, líklega úr 14[du] öld. Það nær frá 108 kapítula, nær til enda til 117 kapítula eðr frá bls. 262, 8 línu, til bls. 277, 10[du] línu, ok hefir þessar athugaverðu mismunargreinir: bls. 268, í 18 l. (eptir *hann*): *væri á hærri palla settr*; bls. 269, í 20 l. ok þeim næstfylgjandi: *yrðo þegar margar greinir með þeim Sverri konúngi, þíat Eiríkr vildi taka silfrmetinn eyri í sinn sakeyri, sem Eysteinn erkibiskup, sitz þeir Magnús ok Erlíngr gáfu honum þat upp, eptir því sem fer. r', en Sverrir konúngr vildi, at stæþi lagarèttr forn* o. s. frv.; bls. 272, l. 21 o. f. (*fóru þeir*) *um haustið til Noregs*; *höfðu þá* o. s. frv. Raunar er þetta blað, úr einskonar ágripi Sverrissögu, nokkuð áþekkt því sem í Eyrspennli stendr, ok kemr því saman við það í mörgum orðum ok atriðum; — samt líkjast sum slík *F*, ok sum jafnvel *B*. Er það því líklega yngra en frumrit tèðra skinnbóka. Þau hèr nokkuð undarlega skrifuðu ok bundnu orð sjást raunar að vera samandrag þeirra þriggja orða er í Eyrspennli standa, *fyrr er ritað*, hvað einúngis gæti heimfærzt til frammhalds Heimskrínglu, hvört þó óvíst er að þessi forna afskrift hafi átt verið hafa.

10) Eitt kálfskinnsblað, án efa utan af bókarspjaldi, líklega úr 15du öld, skrifað með daufu eðr gulleitu bleki. það byrjar hèr bls. 375 í 17du línu, 156ta kapítula ok nær til bls. 381, í 19du línu ok 158da kapítula. þessi orðamunr virðist oss þar á merkilegr: strax í upphafi: *handriðarnir* fyrir *handriðin*; bls. 376 í 10 l. eptir *voru* bætist við *síðan*; í 18 línu, *rèðu eigi til* fyrir *æðruðust*; í 22 l. *varð* fyri *var*; bls. 377 í 1 l. eptir *mart* bætist við *fólk*; í 7 l. *fyri Hlaðhamri* fyrir *um Hlaðhamra*; bls. 378 í 16 l. *endast* fyri *hlýða*; bls. 376 í 11 l. fyri *landfestirnar* stendr hèr: *strengina þá er á landi voru*; l. 17, *Hróabjörg* fyri *Róaberg*; bls. 381 í 18 l. *Hindæyrar* fyrir *Hindeyjar*; 23 l. stendr *flaknaði* (eins ok í *F*) fyri *flotnaði* í *sundr*.

11) Eitt lambskinnsblað, að nokkruleiti máð, blakkt, slitið ok götott, en skaddað að neðanverðu, hvar nokkrar línur hafa verið af því skornar. Brot þetta líkist í handarlagi ok stafagjörð þeirri ágætu fornu Jómsvíkíngasögu, hvörri lýst er í formála fyri því 11ta bindi af Fornmanna-Sögum, ok af hvörri sýnishorn þar sèst eptir grafinni eyrtöflu. Mun þetta blað vart ýngra en frá árinu 1300, ok er þó máske nokkru eldra; það nær nú hèr frá bls. 397, 6tu línu (frá orðinu *konúngr*) til bls. 401, neðst; er það því merkilegra, sem það tekr yfir mikinn hluta þess fyrsta blaðs (í 162 ok 163 kapítula) er vantar í aðalbókina *A*. Við hana kemr því ok vel saman, en það hefir þó á stöku stöðum meira, er flest finnst í *F* ok *G*. Af öðru markverðu má þessa geta: l. 12 *qvezk* fyri *lèzt*; bls. 398 í 15 línu (eptir *ok*) bætist við: *í grýjandi nú* (comit at degi) eðr *í grýjandina*, (komit o. s. frv.); er hèr að vísu óheyrt orð, sem líklega er gömul norska, skyldt þeim nýari dönsku ok svensku orðum (*at*) *grye*, *grya*, at lýsa af degi, hvaraf hið danska *Gry*, dögun, svenska *Gryning*

o. fl.; má vera að hið íslenzka *grilla* (at *grilla í*) einnig *grýla* o. fl., sè af þeirri rót upprunnið; í 17 l. *nú sem jafnan* fyri *skylliga*; bls. 399, í 4 l. *Lángamosa* (eins ok *B*); til 5 línu: lýsist bændahernum þannig (fremr en í öllum þeim heilu skinnbókum): *voru þar Skeynir, Heginir, Follúngar; þá allir or Borgarsýslu, nema or eyjunum, ok svâ af Mörkunum austan*; — bls. 400, í 7 l. *yður* fyrir *ok skiðfæri*; í 8 l. *skynit* fyri *séð*; í 15 l. *nær hálfljóst* fyri *veðr bjart.* Eptir 20ta línu bætist þessu við: *Konúngr ok allr herinn* (fóru?) *fyri norþan Nunnusetr ok svâ upp á yðra* (vðra) *bergit, ok veik svâ suðr yfir ána til Mavrtustokka, gerþi fvr því þetta, at hann vildi eigi at liþit* (færi?) *frá honum, ok hlypi í hús eða kirkjur.* (*En er konúngr kom upp á Mavrtustokka,* o. s. frv.); bls. 401, í 1 l. *vfir* (yfir) *í* fyrir *upp um.* Annars finnst margt af þeim orðamun ok smáaukum, sem *B* ok *F* hèr hafa, á þessu staka blaði, ok sýnir það þannig, at margt slíkt er eldra, en áðr hefir ætlað verið.

12) Kálfskinnsblað með skíru ok snotru handarlagi, líklega frá öndverðri 14du öld; byrjar það litlu fyrr en 11 hættir, í 163 kapítula, nefnilega á bls. 401 í 14 línu, á þennan hátt: „*Birkibeinar náðu merkinu ok flýðu síðan, runnu* o. s. frv. Bls. 402, í 4 l. *um sjá* fyrir *á sæ*; bls. 403, 17 l. eptir *berjumst* bætist við *á landi*; bls. 404, 10 l. eptir *mættú* bætist við: *ok leituðu aptr milli manna*; bls. 405, 5 l. *látum þessa* fyrir *ok munu þessir*; 12 l. *upp var á berginu* fyrir *bændr höfðu uppi í kaganum*; bls. 406 í 12 l. *bjollr* fyri *bjöllr*; 18 l. *sveitum saman* fyrir *á sveitum*; bls. 407 eptir *fylktu*, bætist við *liði.* Blaðið nær til bls. 408, 20tu línu. Innihald þess er annars sumstaðar nokkuð styttra orðað en í skinnbókinni *G*, ok þó á öðrum stöðum meir samhljóða hinum, einkum *B* ok *F*, í orðatiltækjum ok smáaukum, er mismunargreinirn-

ar ávísa. Rèttritun brots þessa er góð; þ ok ð brúkast eins ok í góðum skinnbókum; *n* ok *r* tvöfaldast með upphafsstöfum, o. s. frv.

13) Kálfskinnsblað í arkarformi, (samfast við annað úr styttri Sögu Hákonar, Guthorms ok Inga) líklega úr sömu bók sem Nr. 9; byrjar í 164 kapítula (hèr bls. 407 í 21 línu) eptir: *konúnginn*, ok nær framm undir enda hins 168da (hèr bls. 418 í 11tu línu); samt er blað þetta (eins ok 9) fáorðara í flestu en hinar skinnbækrnar, ok er þó hèr þeirra helzta inntaki í öllu verulega samhljóða, að öðru leiti en nú mun greint verða. Vísubrotið úr Sæmundar-Eddu (bls. 409) er þar heyrir til annars hluta kviðu Sigurðar Fafnisbana hinnar síðari (6tu vísu í hinni stóru Kaupmannahafnar útgáfu, 2 parts 170 bls., eðr eptir Rasks útgáfu í Stokkhólmi, til Fafnismála 6tu vísu, bls. 187), — er öldúngis samhljóða Eyrspennli, að undanteknu því seinasta orði, sem hèr skrifast *blautr*, í staðinn fyrir *blauðr*. Annars má hèr finna þessar mismunargreinir: bls. 410, í 4 ok 5 línu: „*ok vel vil ek þakka þeim sína fylgð, er sva göra*; í 7 línu *gerit* fyri *gjaldit*; í 8 l. *sigrat þá í dag* fyri *rekit þá á flóttann*; í 14 l. *er* fyri *þèr*; í 17 l. o. f.: *Snýr konúngr þá til Valkabergs, þvíat bændr höfðu þar snúit á móti þeim Hákoni konúngssyni. Bændr sneru þegar undan, er konúngr kom, ok fèll þar fjöldi af þeim*; bls. 411 í upphafi kapítulans, (*Sv. k.*) *snýr þá ofan* fyri: *lèt blása*; í 9 l. *fóru sveinar ofan í bæinn, ok bjuggu til vista*; 17 l. *raustari voru, sögðu þat eina fallit, er dáligast var, af þeirra liði*; bls. 412, 15 l. (eptir: *mælti*) *til sinna manna*; *var þá ok vistin komin or bænum, ok sumir snæddu*; bls. 413, 6 l. *var jafnan þar í frammi er mest var raunin*; 17 l. *stóðu* fyrir *höfðu fylkt*; 18 l. *gaddit* (eins ok *G*); 22 l. *sik* fyri *veg*; bls. 414, 5 l. *eptirlaupinu* fyri *ferðinni eptir*; 17 l. *heimtust nú sam-*

*an hvârir í sveitir* fyri *drógust þá saman sveitirnar hvârartveggju*; bls. 415, 5 l. (eptir *tannsárir*) bætist við: *fyri Birkibeinum, þegar þeir stóðu jafnhátt*; l. 8, 9, *Konúngr hafði grið gefit Þorvinni blinda*; 17 l. (eptir *þakkaði*) *öllum jafnsaman, þeim er honum höfðu lið veitt*; bls. 416, 6 l. *fjögra* fyri *IIII*; 10 l. *bændr ok kaupmenn ok svá konúngsmenn*, ok bætist við: *var skipt til sveitum*; 14 l. *ok lètti eigi fyrr* fyri *fór síðan leið sína norðr í Víkina*; bls. 417, 4 l. *konúngsskipinu* (eins ok *G*) fyri *k. skipum*; 6 l. *reyru* fyri *rendu*; 24 l. eptir *skip* (*Bagla*) bætist við: *nær öll*; bls. 419, 5 l. bætist við *A* (viðlíkt ok í *G*): *Sigurðr jarlsson var þá þar með bændum, við miklar sveitir Bagla*; bls. 420, 2 l. o. f. *hesta or þeim eyjum er þar voru í nánd, því at þeim var grunr á, at þo mundi hafðir, þótt eigi væri lènir. Sverrir konúngr hèlt þá inn af leið, er hann kom fyri Sótanes, ok lagði þar at landi sem heitir* (hèr er eyða fyri staðarnafninu *þarfar*, hvörju *A* ein bætir við, ok sèst það hèraf, at brot þettað er skrifað eptir eldra, sumstaðar vart læsilegu frumriti); bls. 421, 2 l. *teknir* fyrir *hafðir*; 6 l. o.f. er eigi neitt getið um að konúngr byði eðr vildi láta brenna bygðina; 10 l. *eptir dölunum* fyrir *ofan um dalina*; 17 l. bætist við (eins ok í *G*) *köstuðu þeir kaussunum*; bls. 422; 1 l. *ríð* fyri *viðrtaka*, ok bætist við (þótt innihaldit hèr annars styttist): *fèll þar flest sveit Sigurðar*. Brot þetta nær framm undir enda 168[da] kapítula, ok endar hèr bls. 422, í 11[tu] línu. Annars ber þessu merkilega broti meir saman við *G*, *F* ok jafnvel *B*, en við *A*. Það sýnist að vera skrifað á öndverðri 14[du] öld, máske í Noregi, með sæmilegri réttritun; ð brúkast opt eins ok vera á, en stundum þ í þess stað; *ö* sezt opt fyrir *æ*; *t* ok *d* tvöfaldast stundum ósiðvanalega (t. d. í *fylkttu, erttu, funddu*); *g*, *n*, *r* ok *s* tvöfaldast með upphafsstöfum; *au* skrifast optast

fyrir *ö*, nær það dregst af *a*, t. d. *aullum, álaug, kaulluðu, daulunum* o. s. frv. Hið áðrumgetna samfasta blað af næstu Noregs konúnga sögu er skrifað með sömu hendi, ok mun þess framar getið verða í formála hins næsta bindis af þessum söguflokki.

14) Eitt mjög merkilegt, en að miklu leiti máð, slitið, nú kolsvart ok þessvegna ólæsilegt kálfskinnsblað líklega frá 14du öld, er sèst að hafa innihaldið enda Sverrissögu. Það byrjar hèr bls. 447 í 6tu línu ok 181ta kapítula. Af því litla, er með mestu þraut varð uppgötvað af þess orðamun, má helzt þessa geta: í 9 l. *búníngi* fyri *búnaði*; í 10 l. *sætinu* fyri *sètunni* (eins ok í Flateyarbók, hvað oss fyrr eigi þótti vert að rita); í 12 l. *át* fyri *mataðist*. Tvær síðustu línur kapítulans, í *G*, vantar hèr, en þessi orðamunr finnst hèr við viðbætirinn (í 3du mismunargrein) úr Flateyarbók: í 22 l. stendr hèr *opt kann verða* fyrir *opt reynist*; — *manns* fyri *manna*; í 24 l. *skapsmunum* fyri *skapshöfnum*; bls. 448 í 6tu línu, fyri *vers nokkur*, stendr hèr: *þau vers*, *er þvílíkan skilníng halda*: *þar er tign konúnga* (o. s. frv. viðlíkt ok í Flateyarbók); í 9 l., eptir *andaðist* stendr hèr án efa *seaunda* (sjöunda), þareptir sýnist að fylgja *dag* (ekki *idus*) Martii; þá er fullkomlega læsilegt: *þá var liðit frá holdgan vors herra J. Chr. þúsund tvö hundruð*; — sýnist oss sem þar eptir komi: *ok tveir vetr* (hvað rètt mundi) þótt vèr þorum eigi að fullyrða það, þar orð þessi hèr eru afslitin, en kannske hálflæsileg, að blaðinu höldnu mót birtunni. A fyrri síðu blaðs þessa fylgir byrjun Sögu Hákonar konúngs Sverrissonar ok hans eptirmanna, (þeirrar lengri ok híngað til í frumriti sínu alls ókunnu) þótt hún þar vart sjást eðr lesast kunni, en seinni blaðsíðan sýnir víðast ljóslega frammhald hennar. Ekkert sèst að marka fyrir adskilnaði eðr upphafsstaf síðargreindrar sögu (sem máske af

Snorra Sturlusyni er knýtt til hinnar lengri Sverrissögu) fyrr en á næstu blaðsíðu, rètt áðr en Hákon sonr Sverris var til konúngs tekinn.

Sèrlegt ágrip Sverrissögu, nú á pappírsbókum, er nefnist *H* í formála ok mismunargreinum þeirrar fyrri útgáfu, ok eins hèr, geymist í Arna Magnússonar handritum Nr. 47 ok 80 í arkarformi. Vèr ætlum það raunar vera brot greindrar sögu, þar það einúngis nær framm í hennar 16 kapítula, hvar hinn fyrsti afskrifari hefir sleppt iðju sinni, með þessum orðum (eptir: *til Þrándheims*, hèr bls. 41, í 15du línu): „*byrjaði þeim þá tómliga; hendu þeir þá menn ok fè þar sem þeir máttu. Nú þótt þat sè eigi svá greint görsamliga, sem þar urðu jafnan stórir atburðir, því at eigi komum vèr öllum lutum á eina bók, þeim er frá jafnmiklum höfðíngja er sagt, sem Sverrir konúngr var, þvíat nóg fèkk hann efni til.*" Þá teljast hèr enn þessi fáu orð sögunnar (með stöku orðum breyttum): „*Ok er þeir komu til bæjarins, þá gerðu þèir sem sómdi við konúng, hríngðu um allan staðinn, ok gengu með processione á mót honum.*" Loks bætist þessum ályktunarorðum við: „*Ekki höfðu Birkibeinar þetta fyrr reynt.*" Hin fyrri þessara tveggja bóka (42) er skrifuð eptir annari, hvörja Torfæus nefndi *Gullinskinnu*, ok líklega hefir skinnbók verið (eins ok *Fagrskinna*, *Jöfraskinna*, *Hrokkinskinna* ok *Morkinskinna*). Á undan téðri byrjun Sverrissögu gánga annars í henni Noregs konúnga sögur Snorra Sturlusonar frá upphafi sögu Olafs kyrra til enda sögu Magnúss Erlíngssonar; hefst þar þá strax Sverris Saga án nokkurs formála; — eptir optnefnt brot af henni fylgir saga Hákonar konúngs Hákonarsonar, í hvörja þó endirinn vantar. Önnur bókanna, sem eins ok hin, er skrifuð með hendi hins nafnkenda ritara Asgeirs Jónssonar (er lengst af var í Noregi hjá þess

ríkis hálærða sagnameistara, Þormóði Torfasyni), inniheldr einasta þetta frumbrot Sverrissögu ok samhljóða afskrift nýnefndrar Hákonarsögu.

Fimm brot af ymsum pappírsbókum Sverrissögu, sem brúkuð hafa verið við fyrri útgáfuna, geymast enn á sívala Turni, í optnefndu safni; þeim fáu sèrlegu mismunargreinum er þau innihalda, ok sem vart í neinu upplýsa eðr auka sögunnar verulega innihald, höfum vèr ekki, í þessari handútgáfu, viljað slengja saman við þær úr fornum skinnbókum teknu, en vísum þeim, er vilja kynna sèr hinar, til stóru útgáfunnar bls. 43, 46, 49, 56, 57, 58, 78, 96, 106, 125, 276, 281 (o. f.).

Sorglegt er vísinda vinum til þess að vita, að Arni Magnússon, nú fyri frekum 100 árum, þekkti 5 góðar, að nokkru leiti ypparlegar, skinnbækr Sverrissögu, sem þegar á hans dögum liðu undir lok: fjórar í Kaupmannahafnar miklu brennu 1728, en ein á líkan hátt, 1702, í Stokkhólmi. Af hinni síðast nefndu er sú svenská útlegging tekin, hvörja Jón Rúgmann, Islendíngr, samdi ok sem prentuð er í öðrum parti gömlu Stokkhólms útgáfunnar af Heimskrínglu (er nefnist *Norrlands Chronica*, út kominn ár 1697). Af henni (merktri *D*) eru nokkrar mismunargreinir teknar í hinni miklu Hafnarútgáfu, ok líka fáeinar af prestsins Peturs Claussonar Undals nafnkendu dönsku útleggíngu (eðr mjög stutta ágripi) af Sverris sögu, merktri *C*. Hvörugar þessara virðast oss í téðu tilliti sèrdeilis merkilegar að vera, einkum þar staða ok manna nöfnum er breytt í útleggíngunum, sèrílagi hinni svensku. Ein viss grein hinnar dönsku innfærist hèr síðar.

Hvör fyrsti höfundr Sverrissögu verið hefir, er alls vafalaust, nefnilega Karl Jónsson, lengi ábóti í Þíngeyra klaustri, frá árinu 1169; hann fór útan, til Noregs 1185. Þá var Sverrir konúngr í sínum mesta

blóma, hafði árinu áðr fellt Magnús konúng Erlingsson frá lífi ok ríki, en giftist það ár dóttur Eiríks hins helga, Svía konúngs. An efa hefir ábótinn strax heimsókt Sverri, ok tekizt það starf á hendr að rita sögu hans, er þá mátti virðast að hvíla sig á heiðurs ok gæfu hærsta tindi. Styttri formáli þessarar sögu segir svo (bls. 5) að upphaf hennar sè í öndverðu ritað af Karli ábota, á þann hátt, at konúngr sjálfr sat hjá honum ok rèð fyrir hvað rita skyldi. Yngri formálinn getr þar á mót (bls. 1) annara manna „er þessa bók hafa í fyrstu saman sett, ok eptir þeirri bók ritaði Karl ábóti Jónsson, með fullu vitorði Sverris konúngs, ok hann fyrisagði, hve rita skyldi, eðr hverneg setja skyldi." Má hèr af ráða, at Sverrir konúngr, er sjálfr var klerkr ok meinast ymsar bækr ritað hafa, annaðhvört hafi uppskrifað suma atburði æfi sinnar, eðr (ok kannske með framm) látið aðra, smám saman, færa slíkt í rit, af hvörjum sundurlausu greinum hann þá vildi láta semja snotra sögu, af lærðum Islendíngi, á líkan hátt ok aðrir landar hans (Ari fróði, Sæmundr fróði o. fl.) þá þegar höfðu samið sögur eldri Noregs konúnga. Er þetta því líklegra, sem ráða má af sögu Sigurðar, Inga ok Eysteins (í Heimskrínglu 32 kapítula, III, 377, - ok Fornmanna - Sögum, 29 kap., VII, 351) að Sverrir konúngr hafi látið rita sögu nefnds síns föðurbróður (ok þá máske líka Hákonar konúngs bróður síns; sbr, Hkr. III, 420, Fornm. S. VII, 291). Samt segir eldri formáli Sverris sögu, at Karls frásögn væri eigi lángt framm komin; hún gat eigi heldr, á slíkan hátt, náð lengra framm en til vorsins 1187, þá tèðr ábóti að vísu hefir heim aptr til Islands vikið, ok þannig, í lengsta lagi, til byrjunar 106^ta kapítula (bls. 255) eðr síðustu æfidaga Eysteins erkibiskups. Fyrri útgjafarar sögunnar meina, að verk Karls ábóta af henni muni ná til falls ok graftrar

Magnûss konúngs Erlíngssonar, 1184, (framm í 97 kapítula, bls. 237) eðr ok jafnvel til fullkomnaðs einvalds Sverris yfir Noregi ok giftíngar hans, hvörs getið er í 100 kapítula (hèr bls. 245). þar nefnast ok börn Sverris konúngs er fyrr voru fædd, en eigi Kristín, dóttir hans ok Margrètar drottníngar. Vissulega er innihald þessa kapítula alls ekki því ólíkt, að sagan sjálf hafi þar um sinn stöðvuð verið, en upphaf hins 101ta kapitula svo lagað, sem framhald eðr annar partr sögunnar þar byrja eigi. Herra Biskup P. E. Müller er samt þeirrar meiníngar, að ábótans verk við þessa ritgjörð einúngis hafi náð yfir sögunnar fyrstu 43 kapítula (hèr til bls. 113) eðr Sverris miklu styrjaldar fyrstu tvö ár, til þess tíma að vald hans grundvallaðist til fulls í þrándheimi.

Hvör annar eðr næsti höfundr Sverrissögu verið hafi, hefir híngað til, á seinni öldum dulið verið, en vèr ætlum að hin fyrstgreinda áteiknun aðalbókarinnar *A* gefi merkilega bendíng þarum. Orðinn: *Hoc opus Isserus fecit*, þýða vafalaust: *Issur* eðr *Isser samdi þetta verk;* tèð nafn finnst ekki í norrænu máli, en vèr ætlum fyrsta bókstaf nafnsins, nefnilega *G*, hèr annaðhvört gleymdan eðr afmáðan vera, nema svo sè, sem fullt eins líklegt er, að þessi orð sèu skrifuð eptir bókarinnar eldra frumriti, hvar tèðr stafr virdtist þeim, er eptir skrifaði, ólæsilegr eðr alls afmáðr; hefir honum máske eigi heldr í hug komið hvörnig nafnið lesast ætti, nefnilega *Gisserus*, sem þá vafalaust er það á Islandi alkunna, en í Noregi, á 12tu, 13du ok 14du öldum sjaldan eðr aldrei brúkaða nafn *Gisser* eðr *Gissur*. Annars er það víst, að norðrlandamenn, eptir útlendra dæmum, á þeim dögum mjög breyttu mannanöfnum seinni tíða, þegar þau voru á latínu skrifuð, með að taka stafi frá, bæta þeim við, eðr ok breyta þeim á annann hátt, til dæmis: *Allo* fyrir *Halli*, *Acon* fyrir

*Hákon*, *Juta* fyri *Gyða*, *Homerus*, *Omerus* fyrir *Ormr* *Osculdus* fyrir *Höskuldr*, *Guiljelmus* fyri *Vilhjálmr* o. s. frv. Einnig munu gömul nöfn þýðskra ok Frakka: *Gisbert* ok *Isbert*, *Gisfrid* ok *Isfrid* o. fl. raunar hin sömu verið hafa. Ekki er þessi *Isserus* eðr Gissur sá maðr, sem sjálfa skinnbókina *A* hefir skrifað, þar hönd þessarar áteiknunnar er alls ólík þeirri sem á bókinni sèst; mun hèr því vissulega höfundr, ok máske líka ritari frumritsins þannig nefndr. Hvör sá Gissur verið hafi, verðr þá að líkindum vafalaust, nefnilega sá halærði Islendíngr 12^tu aldar, Gissur Hallsson, er verið hafði stallari Sigurðar konúngs munns, föður Sverris konúngs, en lifði þó nokkur ár lengr en hinn síðastnefndi. Þar hann hafði verið föðurnum svo handgenginn, var það eigi undarlegt, að hann, sem annars var hinn fróðasti um fornar sögur Noregs konúnga, legði allar árar fyri borð til að ná ok framhalda Karls ábóta riti um Sverri konúng Sigurðarson. Er þetta því líklegra, sem hinn nafnkendi sagnaskrifari, Gunnlaugr Leifsson, var múnkr í Þíngeyra klaustri, á sömu tíð ok Karl var þar ábóti, en hann leitaði þó undir eins leiðrèttíngar á sinni sögu Olafs Tryggvasonar, í öndverðu rituðri á latínu, hjá Gissuri Hallssyni; — útleggjari téðrar sögu (líklega Styrmir fróði) getr þessa þannig: „*Segist Gunnlaugr sýnt hafa sögu Olafs konúngs Gissuri Hallssyni, ok hafði sagðr Gissur hjá sèr þá bók um tvö ár, en síðan sem hann kom aptr til bróður Gunnlaugs, emenderaði hann hana sjálfr, þar sem Gissuri þótti þess þurfa.*" (Sjá *Fornmanna-Sögur* III, 173 ok *Sögu Olafs konúngs Tryggvasonar*, Skálholts útgafu II, 329). Þegar Gissur Hallsson kom til Þíngeyra, mun hann hafa verið gestr Karls ábóta, en annars vinr hans ok meðbróðir í klerkastètt ok lærdóms iðkunum; má ok vera, að hann hafi tekizt þá ferð á hendr til að fræðast af ábótanum um hátta ok

líferni Sverris konúngs, sannarlegs eðr þá alkallaðs sonar síns fyrrverandi herra, en undir eins til að ná afskrift af því sem ritað var framan af sögu hans, hvörju vèr meinum, eptir fyrrgreindum vitnisburði ok öllum líkindum, að Gissur síðan framm haldið hafi. Vart gat heldr nokkur annar Islendíngr, en Sigurðar konúngs munns fyrrverandi stallari, Gissur Hallsson, svo nákvæmlega lýst hans háttum ok geðslagi sem niðrlag Sverris-sögu í Flateyarbók ok 14du broti voru með sèr bera (sjá hèr bls. XXVI ok 447) ok mun það líka staðið hafa í skinnbókinni *A* ok hennar frumriti, er vèr ætlum hans verk verið hafa.

Þess er annars getið í Islands fornritum um Gissur Hallsson: að hann var sonr hins nafnkenda prests ok biskupsefnis, Halls Teitssonar í Haukadal, (fóstbróður ok ástvinar Ara fróða) en fóstraðr ok uppfræddr af Þorláki biskupi Runólfssyni í Skálaholti, er spáði honum það (sem Húngrvaka segir) „at slíkr merkismaðr mundi trautt finnast á Islandi, ok varð á sú raun síðan." A úngdóms árum sínum ferðaðist hann, til að framast í lærdóms efnum ok snotru siðferði, til Suðrlanda Norðrálfunnar, ok kom heim frá Róm 1152. Opt fór hann af landi brott ok samsetti bók þá (nú fyri laungu undir lok liðna) er hann nefndi: *flos peregrinationis* (eðr utanferða blómstr); — minnir nafn það að vísu á hið latínska, er síðari hluti Sverrissögu fyrrum bar: *perfecta fortitudo* (eðr algjörr styrkleikr; sjá bls. 3) ok er eigi ólíklegt að þessi sè frá sömu hendi, því annars báru vart neinar íslenzkar bækr á þeim dögum látínskar fyrisagnir. Þess er fyrr getið, að hann á yngri árum æfi sinnar var stallari Sigurðar konúngs munns. Síðan var hann lögsögumaðr Islendínga heil 20 ár, frá 1181 til 1201, þá sonr hans Hallr (er síðan varð abóti) tók við því embætti. Annars var Gissur, eptir Sturlúngu vitnis-

burði, hinn bezti klerkr þeirra er þá höfðu á Islandi verið; vísar það orð eigi svo mjög til prestskapar, sem bóklegra lista ok menta, en einkum þó til rits ok ritgjörða. I sagnafræðum var hann lærðari þorláki biskupi helga, sem þó var þeirra iðkari ok vinr. þegar Páll biskup, sonr Jóns Loptssonar (er þá mun átt hafa eitt hið mesta bóka- ok sagnasafn á Islandi) var kjörinn til Skálholts biskups, 1194, bauð hann Gissuri lögmanni til heimilisvistar á staðnum (eins ok hann fyrr haft hafði á dögum þorláks biskups) hvörju boði hann með þökkum tók. þá gizkum vèr á að Páll biskup, sem ætlaði til Noregs, í vissan máta hafi viljað fylgja dæmi Karls ábóta til að ná hylli Sverris konúngs, ok því fengið verk hans hjá Gissuri, ásamt þess af þessum samda frammhaldi, til að færa konúngi söguna, hvað hann einnig gjört hafi, ok ætlum vèr að nokkuð slíkt ávísist í sögu biskupsins (4 kapítula) með þessum orðum: „Páll fór á fund konúngs með sínu föruneyti, — — en konúngr tók svâ vel við honum sem sonr hans eðr bróðir væri til handa honum kominn, ok gjörði svâ mikla virðíng hans ok tign, sem hann mundi sjálfr kjósa eðr hans vinir. En bæði var at hann kunni betr en flestir menn aðrir, ok hafði betri færi á, ok sló öllu við því er til gæða var, er þeir mætti báðir göfgastir af verða. — — — Var Páll með konúngi uns hann fór til Danmerkr, ok fèkk konúngr honum alla hluti þá, er hann þóttist hafa þörf á úr landi. Konúngr lèt ok alla biskupa fá honum brèf sín með innsiglum, þá er í landi voru." þegar Páll hafði tekið biskupsvígslu í Lundi, veik hann aptr „til Noregs, fann Sverri konung í Vík austr, ok fór með honum til Björgvinar, ok var með honum uns hann fór til Islands, — ok tignaði konúngr hann því meir í öllum hlutum, sem hann hafði lengr með honum verið ok hann kunni hann gjörr." Samanber hèrvið sjálfrar Sverris-

sögu 124 kapítula, hvar þess ok er getið, að Páll biskup var á sættarstefnu þeirri, er haldin var (1195) milli Sverris konúngs ok Haralds jarls úr Orkneyum. Með þessum ok fleirum atriðum gat hann vel aukið Sverrissögu, eðr hjálpað til þess vin sínum Gissuri Hallssyni, er hið sama sumar tók á mót honum í Skálholti; hefir þá sá síðarstnefndi (eðr jafnvel báðir þeir) síðar frammhaldið Sverrissögu, eptir brèflegum ok munnlegum fréttum ok frásögnum frá Noregi. Urðu ok stundum til þess góðir hentugleikar, t. d. af veru Jóns Grænlendínga biskups á Islandi, 1202 ok 1203 (einnig áðr 1188 ok 1189); hann mun hafa verit uppalinn af Sverri konúngi (hvörsvegna hann var kallaðr Sverrisfóstri) ok hafði lært af honum at gjöra vín af krækiberjum. „Höfðu nefndir biskupar margar tölur trúligar ok spakligar ræður sín á millum." Því heldr hlaut Páli biskupi að vera annt um fregnir frá Sverri konúngi ok viðhald minníngar hans, sem þeir voru (frá Magnúsi berbein) óskukkir þrímenníngar að frændsemi. Páll biskup ok Gissur lögmaðr lifðu báðir (ásamt fyrsta höfundi sögunnar) nokkru lengr en Sverrir konúngr (er dó 1202), því Gissur Hallsson andaðist eigi fyrr en 1206, Páll biskup 1211 ok Karl ábóti, þeirra síðarst, 1212 eðr 1213. Hallr, sonr Gissurar, tók við lögmannsdæmi af föður sínum, ok hèlt því til 1210, þá Styrmir prestr fróði varð þarí hans eptirmaðr. Um þær mundir hefir líklega Styrmir fengið Sverrissögu til uppskriftar, máske hjá Halli sjálfum, við þá góðu hentugleika. Hvört eðr hvörju Styrmir fróði hafi við hana aukið, er oss nú óljóst, en víst er það, að hann var mjög handgenginn Snorra Sturlusyni ok jafnvel síðar bæði skrifari hans ok umboðsmaðr; hægt var þá Snorra að fá söguna hjá honum, eðr hjá fornvin sínum Páli biskupi (er báðir voru uppalnir hjá Jóni Loptssyni í Odda), ef eigi ok síðar hjá syni bisk-

upsins en lengi vin sínum, Lopti Pálssyni (er nokkra hríð var heimilismaðr Snorra) eðr jafnvel hjá Halli Gissurssyni sjálfum, er síðar varð ábóti á Helgafelli. Að Snorri annars, líklega eptir ymsum bókum sögunnar, hafi samið það hennar ágrip sem enn stendr í Eyrspennli, þykjumst vèr hèr að framan sannað hafa. Um þær mundir mun saga sú hafa alkunn verið á Islandi; má það, meðal annars, ráða þaraf, að sonarsonr Gissurar Hallssonar, en tengðasonr Snorra, Gissur jarl Þorvaldsson, mest eggjaði menn sína, fyrir Örlygstaða bardaga (1238), til at breyta að dæmum þeirra vaskra manna, er vel fylgðu Sverri konúngi.

Margar hendr hafa þannig fengizt við Sverrissögu, á 12tu, 13du ok 14du öld, ok hafa bækr hennar þegar á tveimr þeim fyrrnefndu eigi allstaðar samhljóða verið; er það ok eigi raunar ólíklegt, að þau sögunnar aðalrit, er Sverrir konúngr lèt semja eðr sjálfr yfirskoðaði, jók eðr breytti, eðr ok þau, sem til hans flytjast áttu, hafi í einu ok öðru eigi verið samhljóða sumum þeim uppskriftum, er annars gjörðar voru á Islandi, ok ekki ætlaðar til utanferðar um hans æfidaga. Vort 7da skinnbókarbrot sýnist ok at votta það, að sú bók hafi innihaldið meira en þær aðrar, sem enn eru til, ok hvörra skrifarar líka á ymsum stöðum kvarta yfir því, að svo margt ok merkilegt sè frá Sverri konúngi sagt, „at þat fær eigi allt ritað á einni bók" (sjá t. d. 149 kap., bls. 359; 163 kap. bls. 406, ok hèr að framan bls. XXVII). Vera má, að það hafi í henni, eðr einhvörju öðru fornriti staðið, hvað nú einúngis finnst í tveimr gömlum dönskum útleggíngum eðr ágripum af Noregs konúnga sögum (prestanna Jens Marteinssonar Slangerups 1594 ok Peturs Claussonar Undals 1599), en tekið er úr hinni síðarnefndu, í þeim mjög fróðlegu skíríngargreinum er fyrri útgjafarar sögunnar hafa henni fylgja látið, bls. 428.

Téðs atriðis innihald hljóðar þannig á Islenzku: „þegar er móðir Sverris frètti, at Erlíngr skakki ok Magnús konúngr leituðust við at eyða allri konúnga-ætt hèr í landi" (Noregi), „fór hún til Færeya með manni sínum, ok þar var Sverrir uppalinn, ok haldinn í skóla hjá biskupinum í Færeyum, sem hèt Róar, uns hann átti prestsvígslu at taka. þegar Gunnhildr móðir hans varð þess vís, tók hún at gráta. þá sagði Sverrir: hví grætr þú, móðir, eg hugði þú mundir fagna þeirri virðíngu, er nú mun hlotnast mèr. Hún svaraði: lítil er sú mót þeirri, er þú ættir með rèttu at fá, því þú ert sonr Sigurðar Noregs konúngs, en ekki sonr þess manns, er þú ætlar þig vera, ok hefi ek dulit þetta fyrir öllum, svo enginn fengi það at vita, fyrr enn þú værir til manns kominn." Er ok þess fremr getið, að Færeyíngar enn (á vorum dögum) sýni helli þann, í fjallinu milli þórshafnar ok Kirkjubæar, er enn nefnist Sverris hellir, vegna þess að téð samtal Sverris konúngs við móður hans þar hafi haldið verið. Fyrrgreindri frásögn kemr þó eigi vel saman við þá sögu, er vèr nú höfum, hvað ok þormóðr Torfason fyrr athugað hefir, en eigi væri samt ólíklegt, ef Gunnhildr var móðir sonar Sigurðar konúngs, að hún hefði flúið úr Noregi undan ofsóknum hans banamanna, árinu eptir fall hans (1156), ok verðr þá missögnin einúngis sú, að ekki ótti fyrir Erlíngi, heldr fyri Gregoríus Dagssyni ok hans flokki, knúði hana til þeirrar ferðar; stendst svo annars allt saman vel heima.

Enn fremr getum vèr þess, að ljóslega má sjá af sögu þessari, að hún hefir verið til þess ætluð að lesast í samkvæmum, til skemtunar áheyrendum; svo stendr t. d. í 15 kap. (bls. 38): *„en þat gafst með þeim hætti, sem nú megu þèr heyra"* (hvað vel geta verið orð Sverris sjálfs, þá hann fyrst sagði fyri þessari sögu); ok í 92 kap. (bls. 225): *„Nú mun svá þikkja þeim er*

*tilhlýða þessar frásagnar, sem eigi sè líkligt, er sagt er frá lyktum orrostu*" o. s. frv. Að vísu var það, að minnsta kosti frá tíð Olafs Tryggvasonar, hirðsiðr Noregs konúnga að láta fróða menn segja sögur, til skemtunar þeim ok öðrum, jafnvel um þá viðburði, í hvörjum sjálfir þeir höfðu hlut átt, t. d. Haralds Sigurðssonar, þá hann lèt Þorstein fróða segja útfararsögu sína. Að Sverrir konúngr hafði líkan sið, má sjá af Sturlúngu (1 parts 13 kapítula), er segir svo, að saga Hrómundar Greipssonar ok aðrar fleiri hefðu honum skemtar verið, ok hefði hann þá sagt: að slíkar lygasögur væri skemtilegar. Aungu að síðr mun hann meir hafa haldið af sönnum sögum innlendra manna, ok jafnvel mest af þeim, er honum sjálfum við viku. Sonarsonr hans, Hákon konúngr gamli, lèt (1263), í Orkneyum) lesa fyri sèr sjúkum sögur Noregs konúnga ok meðal þeirra Sverrissögu um nætr ok daga, jafnan er hann vakti. — Vèr leyfum oss at láta hèr þá gátu vora í ljósi, að árstal það fyri dauða Sverris konúngs, er nú sèst í Flateyarbók, nefnilega MCCXV hafi at skrifara hennar rángt verið lesið úr MCC *ok* II (þusund tvö hundruð ok tvö) þar bundið *ok* líkist X, en settaskriftar V í ritum þeirra tíma er mjög áþekkt II; sjá bls. 448 ok hèr að framan, bls. XXVI. Einnig munu textans 5 síðustu línur, er viðkoma útlenzkum þjóðum, vera teknar úr annálum, ok knýttar við enda sögunnar, laungu síðar en hún sjálf var til lykta leidd; af þeim er ekkert sjáanlegt í hennar fyrrgreinda 14da broti.

Sjálfr texti þessa bindis er útskrifaðr, eptir aðalritinu *(A)*, af Prófessóri C. C. Rafn er einnig hefir hann aptr við það samanlesið, en Prófessor ok leyndarskjalavörðr konúngsins, Finnr Magnússon, hefir borið hann saman við hinar skinnbækurnar ok viðbætt mismunargreinunum; líka hefir hann útskrifað þau blöð, er vantaði í aðalritið, eptir Eyrspennli *(G)*; báðir hafa

þeir lesið prófarkirnar, svo ok yfirvegað ok ákvarðað hvör orð eðr atriði raung virdtist í *A*, ok hvör aptr ætti, í þeirra stað, úr hinum bókunum at setja.

Þó vèr höfum gjört oss ómak fyrir að prentvillur yrðu sem fæstar, hefir þeim samt eigi orðið með öllu afstýrt, ok leiðrèttum vèr hèr þær, er oss hafa fyri sjónir borið: á 11 blaðsíðu í 32 línu, *G* les *B*; 14 bls. 31 l. *F* l. *A* (í fyrra stað); 96 bls. 28 l. *Hjarrandif* les *Hjarrandi*; 100 bls. 33 l. *lamum* l. *málum*; 104 bls. 26 l. *óttum* l. *öttum*; 113 bls. 31 l. *F* l. *B*; 196 bls. 31 l. *fyla* l. *fylgja*; 225 bls. 28 l. (hið fyrra) *G* l. *B*; 228 bls. 16 l. á at lesast (eptir *A*): *Andres son Guðbrands kúlu* (hvörn hinar skinnbækurnar, þótt hèr sumpart oljósar sèu, nefna *Andres, son Eiríks, sonar Guðbrands kúlu*); 237 bls. 31 l. eptir *hèlzt* er gleymt *lengi*; 343 bls. 32 l. *hrèfit* l. *brèfit*; 369 bls. hið fyrsta orð *menn* er ofaukit; 380 bls. 30 l. (hið fyrra) *G* l. *F*; 408 bls. 21 l. eptir *fengu* bætist við *enga*; 409 bls. 28 l. *Særmundar* l. *Sæmundar*; 438 bls. 27 l. eptir *b.* viðbætist *B.* I formála þessum bls. IX, l. 20 les *vacði*, *vöcðu*; bls. XII, 29 l. *hafa* l. *hafi*; bls. XIV, 18 l. *Olafs* l. *Sturlu.*

Skinnbókin *A* (af hvörri eyrgrafið sýnishorn hèrmeð fylgir), hefir mjög sjaldan neina fyrisögn eðr yfirskrift við kapítula skipti; slíkt hefir þar, eins ok í mörgum öðrum fornritum, verið, ásamt upphafsstöfum kapítulanna, ætlað öðrum eðr sama skrifara síðar að lýsa (rita eðr mála með ymsum fögrum litum), en samt hefir síðan ekki af því orðið. I hinum bókum Sverrissögu eru tèðar fyrisagnir nær því aldreigi samhljóða, hvörsvegna þær hèr eru teknar úr þeirri, er bezt sýndist henta ok rèttust að vera, jafnvel opt úr hinni fyrri prentuðu útgafu, sem hèr merkist *P*; eru þær stundum í hana komnar úr pappírsbókum nýari tíða, en auðsèð er, að flestir skrifarar, frá alda öldi, hafa leyft sèr að

breyta eðr viðbæta slíkum kapítula fyrisögnum, ok jafnvel opt að skipta kapítulunum sjálfum eptir egin hugþótta, svo að mjög fá fornrit sömu sögu í þessu tilliti finnast að vera fullkomlega samhljóða.

Þar margir sömu menn, frá hvörjum sagt er í Sverrissögu, einnig nefnast í næstu sögum, geymist registur yfir öll mannanöfn, er í þeim standa, til viðbætis sögu Hákonar konúngs Hákonarsonar, sonarsonar Sverris konúngs. Saga Hákonar, sonar hins síðarstnefnda, ok hans næstu eptirfylgjara, á samt að byrja hið næsta bindi, ok höfum vèr svo heppnir orðið, að finna eitt gamalt ok híngaðtil ónotað brot af henni, en þaraðauki fjögr brot af þremr fornum skinnbókum, sem hafa innihaldið lengri Sögu sömu konúnga (Hákonar, Guttorms ok Inga Barðarsonar), hvaraf það er augljóst, að Clausens danska saga af þessum konúngum er sannarleg útleggíng af íslenzku eðr norrænu frumriti. Munu því þau síðarnefndu híngaðtil ókunnu, sögubrot prentast í tèðu bindi, ásamt allri hinni gömlu dönsku útleggíngu sömu sögu, nákvæmlega skrifaðri eptir hennar elztu útgáfu (af 1633), með viðbættri annari nýari íslenzkri, yfir þann hennar hluta, af hvörjum frumrit sögunnar nú algjörlega vantar.

Kaupmannahöfn, þann 28 Janúarí, 1834.

# Saga Sverris konúngs.

## Formáli

### úr Flateyjarbók.

*Prologus.*

Hèr hefr upp at segja frá þeim tíðindum, er gjörzt hafa í þeirra manna minnum sjálfra, er þessa bók hafa í fyrstu samansett, ok eptir þeirri bók ritaði Karl ábóti Jónsson með fullu vitorði sjálfs Sverris konúngs, ok hann fyrirsagði hve rita skyldi eðr hverneg setja skyldi; en eptir þeirri bók skrifaði Styrmir prestr hinn fróði. En þessa Sverris sögu ritaði þar eptir þeirri bók Magnús prestr Þórhallsson; má því eigi þetta mál í munni gengizt hafa. Er ok eigi líkt, hvårt sannligri er þessi saga, er svå er tilkomin röksamliga, eðr hinar aðrar, er ýmisligir menn hafa fyrirsagt, ok haft þó ekki til nema sögusögn eina, ok mega þó sannar vera. Gengr þessi saga, er nú ætlum vèr at segja, mest af Sverri konúngi, syni Sigurðar konúngs munns, Haralds sunar gilla, Magnúss sunar berbeins, Ólafs sunar kyrra, Haralds sunar, Sigurðar sun-

ar sýrs, Hálfdánar sunar, Sigurðar sunar hrísa, Haralds sunar hins hárfagra, Hálfdánar sunar hins svarta, Guðröðar sunar hins göfugláta, Hálfdánar sunar hins milda ok hins matarilla, Eysteins sunar, Hálfdánar sunar hvítbeins, Ólafs sunar trètelgju, Íngjalds sunar hins illráða, Braut-Önundar sunar, Yngvars sunar, Eysteins sunar, Adils sunar, Óttars sunar vendilkráku, Egils sunar, Ána sunar hins gamla, Jörundar sunar, Yngva sunar, Alreks sunar, Agna sunar, Dags sunar, Dyggva sunar, Dómars sunar, Dómalda sunar, Visburs sunar, Vandlanda[1] sunar, Sveigdis[2] sunar, Fjölnis sunar, Yngvifreys sunar, Njarðar sunar af Nóatúnum. En móðir Haralds konúngs hins hárfagra var Ragnhildr, dóttir Sigurðar hjartar, Áslaugar sunar, Sigurðar dóttur orms-í-auga, Áslaugar sunar, Sigurðar dóttur Fâfnisbana, Sigmundar sunar, Völsúngs sunar, Siga sunar, Rera sunar, Óðins sunar, Frjálafs sunar, Finns sunar, Goðólfs sunar, Bjars sunar, Skjalda sunar, Hermóðs sunar, Trinams sunar, Attrás sunar, Bedvigs sunar, Seseps sunar, Magna sunar, Móda sunar, Vinginers sunar, Vingiþórs sunar, Eredeirs sunar, Jóreks sunar, Þórs sunar; hans móðir var Tróana, dóttir Príami höfuðkonúngs í Trójo, Lamidons sunar, Ilus sunar, Ereas sunar, Erichoniis sunar, Dardans sunar, Júpiters sunar, Saturnis sunar, Cheliis[3] sunar, Chretis

[1]) *mundi rèttara:* Vaulanda. [2]) *m. r.* Svegdis [3]) *eðr:* Chelus.

sunar, Chipris sunar, Zethims sunar, Japhans sunar, Japhets sunar, Nóa sunar, Lamechs sunar, Matúsalems sunar, Enoks sunar, Pharets sunar, Malaleels sunar, Kainans sunar, Enos sunar, Seths sunar, Adams sunar hins fyrsta manns.) Þat er upphaf sögu Sverris konúngs, at segir nokkut af hans orrostum; en svâ sem álíðr bókina, vex styrkr hans, ok má svâ kalla, at þat væri fyrirboðan hinna meiri hluta, er síðar komu fram um hans hagi eptir guðs forsjó; kölluðu menn því enn fyrra hlut bókarinnar Grýlu,) at margir menn töluðu, at þá efnaðist nokkur ótti eðr hræslà, sakir mikils stríðs ok bardaga, en mundi skjótt niðrfalla, ok at alls eingu verða, sem öll líkindi þóttu tilstanda, sakir styrks ok ofreflis þess er í móti var, sem var Erlíngr jarl ok Magnús son hans, er nóga höfðu vini ok frændastyrk; en Sverri studdi hvârtki fè nè frændr, eigi heldr vinir, sem vita mátti, þó hann kæmi úngr ok einmana ok öllum úkunnigr inn í landit; mundi svâ ok farit hafa sem margir ætluðu, nema sjálfr guð í himinríki hefði hann viljat styrkja ok hefja til þess ríkis, er hann unti honum at stýra til dauðadags, ok hans afkvæmi hverjum eptir annan. En hinn síðara hlut bókarinnar kalla menn *perfectam fortitudinem*, hvat er reikna má algjörvan styrkleik; sem vita mátti, at guð hafði honum svâ mikinn styrk gefit, at hann

eyddi ok niðrbraut hvern úaldarflokk, þann er honum reis á móti, hvârt er hann var settr með meira styrk eða minna. Nú þóat hèr verði ekki svâ greiniliga sagt frá öllum bardögum eðr framferðum Sverris konúngs, eðr þeir hlutir liggi eptir er frásagnar sè verðir, megu þeir láta viðrita er betr kunnu ok gjörr vita. Ok þóat sumir hlutir sè hèr annan veg sagðir, en mest líkindi mundi á þikkja, hversu orrostur hafa gengit, sakir fjölmennis ok liðsmunar, þá vitu þó allir at þetta eru full sanníndi ok alls ekki aukit. Þikkir oss ok líkligra, at þær sögur muni sannar, er á bókum eru sagðar frá ágætum mönnum, þeim er í fornesk-ju hafa verit, þótt þeir hafi mikit unnit. Nú mun þetta mál mörgum nógù lángt þikkja, ok leiti þeir sèr þá annarar skemtanar, er þat þikkir ljúfara, en hinir heyri hèr til, er þat vilja heldr; væntir mik at verða mani hvârirtveggju; ok hygg ek at hyggnum mönnum ok háttaprúðum þikki sögur betri skemtan, en önnur sú gálauslig gleði, er margir verða einum at skemta; en með sögum má einn mörgum gamna. Hafi nú hverr þat til gamans ok gleði sem skapfeldast er, en forlýti engi fyri öðrum sína atferð, þá er vel stendr at gera; þvíat sinni náttúru er hverr fúsastr at fylgja.

---

# Sögunnar eldri ok styttri formáli.

## *Prologus*[1].

Hèr hefr upp ok segir frá þeim tíðindum, er nú hafa verit um hríð, ok í þeirra manna minnum, er fyrir þessi bók[2] hafa sagt; en þat er at segja frá Sverri konúngi, syni Sigurðar konúngs Haralds sunar; ok er þat upphaf bókarinnar, er ritat er eptir þeirri bók, er fyrst ritaði Karl ábóti Jónsson, en yfirsat sjálfr Sverrir konúngr, ok [rèð fyrir hvat rita skyldi[3]; er sú frásögn eigi lángt framkomin. Þar er sagt frá nokkorum hans orrostum, ok svâ sem álíðr bókina[4], vex hans styrkr; ok segir sá [hinn sami[5] styrkr fyrir hina meiri hluti; kölluðu þeir þann hlut bókar fyrir því Grýlu. Hinn[6] síðarri hlutr bókar er ritaðr eptir [þeirra manna frásögn[7], er minni höfðu til, svâ at þeir sjálfir höfðu sèt ok heyrt þessi tíðindi, [ok þeir menn sumir höfðu verit í orrostum með Sverri konúngi[8]. Sum þessi tíðindi voru svâ í minni fest[9], at menn rituðu þegar eptir er nýorðin[10] voru, [ok hafa þau ekki breyzt síðan[11]. En vera kann þat, ef þeir menn sjá [þessa bók[12], er allkunnigt[13] er um[14], at þeim þikki skyndi-

1) firi Sverris savgu: *G*, *bætir við.* 2) sögu, *F.* 3) *v. G.* 4) *v. G.* 5) *v. G, F.* 6) en, *G, F.* 7) þeim mönnum, *G, F.* 8) en sumir þeir er verit höfðu í orrostunum, *G, F.* 9) lögð, *F.* 10) nú vorðin, *G.* 11) *v. G.* 12) bókina, *G.* 13) alkunnigt, *G.* 14) til, *F.*

liga yfirfarit í mörgum[1] stöðum, ok mart þat eptirliggja, er frásagnar myndi vert þikkja, ok megu þeir þat enn vel[2] [láta rita[3], ef þeir vilja. En þóat sumir hlutir sè hèr annan veg sagðir, en mest líkindi myndi[4] á þikkja í orrostum fyrir fjölmennis sakir[5], þá vitu þó allir sannindi til, at þetta er[6] ekki aukit; ok þikkir oss at líkara[7], at þær sagnir[8] muni [vera við[9] sannindum[10], er á bókum eru sagðar frá ágætismönnum þeim, er verit hafa [í forneskju[11].

---

[1]) sumum, F. [2]) v. G. [3]) auka láta, F. [4]) muni, G. [5]) sökum, G, F. [6]) eru sannyrði ok, F. [7]) líkligra, G. [8]) sögur, F, G. [9]) með, G. [10]) *í stað þess frá* [ sannar vera, F. [11]) forðum, F.

---

# Hèr hefr upp sögu[1] Sverris konúngs[2].

[*Fæddr Sverrir konúngr*[3].

HRÓI biskup var í þann tíma í Færeyjum, [er kallaðr var bróðir Unas kambara[4]. Unas fèkk konu norrænnar[5], er Gunnhildr er nefnd. [Þat var ofarliga á dögum þeirra bræðra, sona Haralds gilla, Inga, Sigurðar ok[6] Eysteins[7]. Gunnhildr gat skjótliga[8] son þann er nefndr var[9] Sverrir, ok [var kallaðr[10] son Unass. Fyrir þessum sveini birtust stórir draumar[11], sem jafnan kann verða[12] fyrir stórtíðindum[13]. Gunnhildr, móðir hans, sagði einn draum, at henni hefði sýnzt[14] fyrir burð hans: henni þótti sem hon væri í einu ágætligu lopthúsi, ok [þóttist hon lèttari verða barns þess[15] er hon gekk með. En þjónustukona hennar sat fyrir knjóm henni, ok skyldi taka við barn-

[1]) Upphaf savgu, *G.* [2]) Sigurðarsonar, *b. B.* [3]) *þannig P.* [4]) bróðir hans var Unás kambari, *B*; bróðir hans var kallaðr Unas kambari, *G.* [5]) þeirrar, *G.* [6]) *v. G.* [7]) í þann tíma er stýrðu Noregi S., I. ok E., synir Har., *G, B.* [8]) *b. B.* [9]) er *G.* [10]) sagði hann vera, *B.* [11]) ok merkilegir, *b. B.* [12]) atberast, *B.* [13]) þeim sem síðan verða mjök voldugir ok mikils ráðandi, *B.* [14]) birzt, *G.* [15]) hugðist hún lèttari skyldu verða at barni því, *B.*

inu, þegar [er fætt væri[1]. Ok er henni þótti sem barnit væri fætt, sló mikilli hræzlu á konu þá er yfir henni sat, ok kallaði á hana ákafliga ok mælti: [Gunnhildr mín[2], þú [hefir fæddan undarligan burð ok ógurligan sýnum[3]. [III sinnum[4] kallaði hon með hinum sömum orðum. En er hon heyrði konuna kalla svâ opt hit sama með skjálfandi röddu, þá [forvitnast hon[5], hvat[6] burði þat væri, er hon hafði fætt; henni sýndist sem þat væri einn steinn vel mikill ok snjóhvítr at lit: en hann glóaði svâ mjök, at allavega gneistaði af honum, sem af glóanda[7] járni því, er [ákafliga er blásit í[8] afli. [En hon mælti svâ[9] við þjónustukonu sína: gætum við vandliga þessa burðar, ok látum engan mann verða varan við; þvíat flestum man undarligt[10] þikkja er[11] sjá. Síðan þótti henni sem þær tæki steininn ok legði í einn[12] stól ok hulðu með klæði fögru. En þá er þær höfðu [varðveitt þessum steini sem þær vildu[13], þá flugu þó gneistarnir allavega[14] ígegnum klæðin, ok um allt lopthúsit innan. Þær gerðust mjök hræddar af þessi ógn er [þar stóð af[15]; ok síðan vaknaði hon [or þeim draumi[16]. Unas ok Gunnhildr áttu

1) fæddist, *B*: 2) Gunnhildr mín, *b. G.* 3) fæðir úskapligan burð, *F.* 4) þrysvar, *G.* 5) þóttist hon forvitnast, *G.* 6) hvaða, *G.* 7) *v. G.* 8) rennr fyrir, *G.* 9) þá mælti hon, *G.* 10) undarligr, *G.* 11) ef, *G.* 12) mikinn, *b. B, G.* 13) hann huldan, *B*; umbúit steininn, *G*; hirðan steininn, *F.* 14) *v. G.* 15) þar var af, *G*; af steininum stóð, *B.* 16) *v. G.*

son er Híði[1] hèt, ok dóttur, er[2] átti Svína-Stefán: þeirra son var Petr steypir. Enn[3] áttu þau Unas[4] fleiri dætr[5]. Sverrir var V vetra, er hann fór af Noregi ok vestr til Færeyja, ok var hann þar[6] með Hróa biskupi at fóstri [ok uppfæzlu[7]. Setti biskup hann til bókar[8], ok gaf honum vígslur, svâ at hann var vígðr til prests. Ok er hann var [fullkominn maðr at aldri[9], þá samdi hann sik lítt við kennimannsskap, ok[10] var heldr[11] úeirinn. Hann varð úsáttr við Brynjólf, son Kálfs sendimanns, er þá hafði konúngs[12] sýslu[13] þar í eyjunum; hafði Sverrir lostit[14] mann, en þeir Brynjólfr veittu honum atferð[15] [margir saman[16], en hann fór einn undan, ok var[17] svâ nær farit með þeim, at hann hljóp inn í stofu [nokkora undan, ok fal sik; kona nokkur fal hann[18] í ofni, ok setti hellu fyrir ofnsmunnann; síðan gerði hon eld fyrir utan[19]. Þeir leituðu hans um stofuna, ok fúnnu hann eigi. Mart þóttust menn nú síðan, [er vissu at hverjum manni hann varð, hafa at merkjum[20] at hann þótti mikillar náttúru vera.

---

1) Hýði, *B.* 2) hèt *b. G, ok hefir eyðu fyri nafninu.* 3) *v. G.* 4) Unás, *B.* 5) börn, *F.* 6) þá, *G.* 7) *v. G.* 8) bækr, *B.* 9) roskinn maðr, *G.* 10) *b. G.* 11) *b. G.* 12) *v. B.* 13) *þannig G, B*; sýslur, *A.* 14) lostinn, *G.* 15) *þ. B*; atför, *G*; heimferð, *A.* 16) *b. B.* 17) varð, *G.* 18) eina undan; kona ein falánn (ɔ: fal hann) *G.* 19) *b. G.* 20) *þannig G; A, B skipta röð orðanna óhentugar:* h. at m., er v. at h. m. h. v.

[*Frá draumum Sverris*[1].

2. Sverri[2] dreymdi stóra drauma, ok tóku sumir menn þat fyrir hègóma ok höfðu at spotti. Hann sagði[3] þann draum einn, at hann þóttist vera í Noregi, ok verða at fugli svâ miklum, at nef hans tók austr til landsenda, en vèlifjaðrar hans tóku norðr í Finnabú[4], en með vængjunum hulði hann landit allt. Hann bar þann draum fyrir vitran mann, þann er Einarr hèt, ok spurði hvat [hann ætlaði þann draum mundu merkja[5]. Einarr lèt sèr þat blint vera, ok þótti líkligt at sá draumr myndi boða fyrir ríki nokkurt[6]; ok [enn mælti hann: vera kann[7] at þú verðir erkibiskup. Sverrir svarar: [úlíkligt þikki mèr þat[8], at ek verða erkibiskup, þvíat[9] ek em [eigi vel[10] til færr at vera prestr. Sverrir hafði [IIII vetr ok XX[11], áðr en[12] hann yrði hins sanna víss um sitt faðerni. Einn vetr var hann síðan í Færeyjum, [áðr hann fór til Noregs[13].

[*Um Magnús Erlingsson*[14].

3. Magnús[15] ok Erlíngr[16] höfðu í þenna[17] tíma mikinn styrk af ríkismönnum[18] ok af allri alþýðu; var konúngr vinsæll ok [ástsæll[19],

---

1) *þannig P*; *v. A*; Draumr Sverris, *G*, *B*. 2) *þannig G*; hann, *A*. 3) dreymdi, *B*. 4) *þ. B*, *F*; Finnbúin, *A*, *G*. 5) þýða mundi, *G*. 6) *þannig G*; nockur, *A*. 7) ok þannig kann verða, sagði Einarr *G*. 8) þat þikki mèr allúlikligt, *G*. 9) at, *G*. 10) allilla, *G*. 11) XXIIII, *G*. 12) *v. G*. 13) *v. G*, *B*. 14) *þannig P*; frá Magnúsi konúngi ok E., *G*. 15) konúngr, *b. G*. 16) jarl, *b. G*. 17) þann, *G*. 18) lendum mönnum, *G*. 19) ársæll, *B*.

en[1] jarl var ríkr ok vitr, harðráðr ok sigrsæll; voru þar öll landráðin er hann var. Öfundarmenn átti hann marga bæði ríka ok óríka, ok var mest [at því norðr í land í þrændalögum[2]. En Eysteinn erkibiskup, [er norðr þar stýrði öllu fólki[3], var hinn mesti ástvin Magnúss konúngs, ok hèlt þar öllum styrk undir hann[4]. Magnús konúngr hafði með sèr alla hina stærstu menn er í voru landinu, suma [í hirð[5], en sumir sátu í veizlum hans; [ok þarmeð var samþykki allrar alþýðu at hefja hann ok halda[6] til ríkis; naut at því mest [hans forellris[7], at allt landsfólk[8] [elskaði hann, ok[9] vildi þjóna afkvæmi Sigurðar Jórsalafara, heldr en Haralds gilla [ok hans ættmönnum[10].

*[Sverrir varð víss um faðerni sitt[11].*

4. Þat varð til nýlundu[12], at Gunnhildr, móðir Sverris, fór[13] or landi brot, ok suðr til Rúmaborgar[14]. En er hon var fyri þeim manni[15], er henni veitti skriptir, þá sagði hon, at son hennar var sá, [er annat faðerni var at[16], en hon hafði [áðr til[17] sagt, ok var[18]

---

1) *v. G.* 2) um þrændr, *G.* 3) *v. G*; er öllu rèði norðr þar, *B, F.* 4) norðr í land, *b. A.* 5) með hirðinni, *G.* 6) vildu allir hefja hann, *G.* 7) *v. G*; hinna fyrri foreldra sinna, *F.* 8) fólk, *G.* 9) *v. G, B.* 10) *v. G, B, F.* 11) *þannig B*; Draumar Sverris, *A*; Um faðerni Sverris, *G.* 12) nýnæma, *G*; tiðinda einn tíma, *B.* 13) *þannig G, B*; gerði ferð sína, *A.* 14) Rómaborgar, *G*; Róms, *B.* 15) kennimanni, *F.* 16) *b. G*; at annarr var faðir at, *G.* 17) *b. B.* 18) Noregs, *b. B.*

konúngr faðir hans, en hann var sjálfr því leyndr. En þetta mál var borit fyrir pávann; var henni þat boðit í skript sína[1], at hon skyldi láta vita son sinn rètt[2] faðerni sitt, þegar er hon fyndi hann. Hon gerði [ferð sína eigi miklu síðarr en hon kom heim, ok fór[3] til Færeyja, ok sagði Sverri, at hann var son Sigurðar[4] konúngs munns[5]. Honum fèkk þessi saga mikillar áhyggju, ok reikaði hans hugr mjök; þótti torsóttligt[6] at deila til ríkis [móti þeim Magnúsi konúngi ok Erlíngi jarli; en honum sýndist[7] lítilmannligt, at hafast ekki at, heldr en einn búandason[8] óbreittr[9], [ef hann væri konúngsson[10], ok er hann minntist[11], hversu [þeir draumar[12] höfðu þýddir verit af vitrum mönnum, [er hann hafði dreymt[13]; [ok þessir sömu draumar kveykðu huginn[14] hans[15] til hefndar eptir sína frændr.

[*Draumr Sverris*[16].

5. [Með þeim hætti[17] hefir Sverrir sagðan þenna draum, at hann þóttist vera kominn til Noregs [vestan um haf, ok þar með[18] til nokkorrar tignar[19], ok þat helzt, at hann væri [kosinn til biskups[20]. En honum þótti vera

---

1) *v. G.* 2) *þannig G; v. A;* rètlligt, *B.* 3) svâ för þegar út, *G, B.* 4) Noregs, *b. B.* 5) *b. B.* 6) torbreytiligt, *G;* erfitt, *F.* 7) í hendr þeim feðgum; þótti ok, *G.* 8) bóndason, *G.* 9) einnhverr, *F.* 10) *v. G.* 11) á, *b. G.* 12) draumar hans, *G.* 13) *v. G.* 14) þá herði þat heldr hug, *G;* þá herti hann nokkut huginn, *F;* blíðkaði þat heldr hug hans, *B.* 15) ok styrkti, *b. B.* 16) *þannig A, B.* 17) Svâ, *G.* 18) *v. G.* 19) *þannig G; gleymt í A.* 20) kjörinn til erkibiskups, *F.*

mikill[1] úfriðr í landinu [af konúnga deild[2], ok þótti honum sem hinn helgi Olafr konúngr[3] ætti deildina móti Magnúsi konúngi [ok Erlíngi jarli[4], ok þóttist hann ætla í hug sèr, á hvârra fund hann skyldi sækja. Honum sýndist at kjósa heldr at fara [á fund[5] Ólafs konúngs; ok er hann kom þar, var honum vel fagnað ok við mikilli blíðu. En er hann hafði þar eigi lengi verit, þá verðr sá atburðr einnhvern morgin, at honum sýndist[6], sem þar væri fátt manna hjá konúngi, [eigi meirr en[7] XV menn eða XVI; ok þósk konúngrinn við trapizu í einni loptstofu; ok er hann var þveginn, þá vildi annarr maðr [gánga at trapizunni, ok[8] þvâ sèr í því sama vatni er konúngr þó sèr í, en konúngrinn skaut við honum hendi sinni, [ok bað hann hætta[9]. Síðan nefndi hann[10] Sverri Magnús, ok bað hann þvâ sèr í því sama vatni. Hann þóttist svâ gera, sem konúngr[11] bauð, ok er hann var þveginn, þá kom maðr inn hlaupandi með bráðum tíðindum, ok bað menn til vâpna taka sem skjótast, sagði at úvinir konúngs voru fyrir durum. Konúngr [segir, kvað ekki saka myndu[12], ok bað menn taka höggvâpn[13] sín, ok gánga svâ út, ok sagðist hafa myndu skjöld sinn, [ok

---

1) *v. G.* 2) *v. G.* 3) Haraldsson, *b. B.* 4) *v. G.* 5) til, *G.* 6) þótti, *G.* 7) *v. G.* 8) *v. G.* 9) *v. G.* 10) til, *b. G.* 11) *þannig G*; hann, *A.* 12) konúngr kvað ekki myndu til saka, *G.* 13) bogvapn, *G*; vopn, *B.*

hlífa þeim þar öllum með[1]. Þeir gerðu sem konúngr mælti. Síðan tók hann sverð sitt, ok seldi þessum únga manni Sverri, [ok fèkk[2] hann honum merki sitt í hönd, ok mælti: [tak nú við merkinu[3], herra, [ok ætla þat með sjálfum þèr, at þetta merki skaltu jafnan bera heðanífrá[4]. Hann þóttist viðtaka merkinu, ok þó [með nokkurri hræzlu[5]. Nú tók konúngr skjöldinn, ok gengu þeir út allir samt heldr skyndiliga. Honum þótti sem fordyri væri svâ lángt, þar sem þeir gengu út, at eigi var skemra[6] en sextogt, ok þótti honum eigi allhátt mega bera merkit, meðan þeir voru inni í húsinu; ok er þeir voru at durum komnir, [þar sem þeir skyldu útgânga[7], komu atmóti[8] þeim VII menn við vâpnum, ok vildu högga merkismanninn; en konúngr gekk fram [fyrir hann[9] með skjöld sinn, ok hlífði[10] honum ok öllum þeim, [svâ at ekki sakaði til[11]; komu síðan á rúmlendi ok á fagran völl. Eptir þat þóttist hann uppreisa merkit, ok bera í fylkíng Magnúss konúngs [ok Erlíngs jarls[12], ok [sýndist þegar sú fylkíng hrökkva fyrir[13], [er at sótti fram[14]. Síðan vaknaði hann, ok hugleiddi[15]

1) lífa þeim öllum, *G.* 2) *þ. G*; síðan seldi, *A.* 3) takttu nú merki mitt, *G.* 4) ok vit þat, at þú átt jafnan mitt merki bera hèðan af, *G*; ok vit fyri víst *o. s. f. B.* 5) hræddr, *G.* 6) *þannig G*; sæmra, *A.* 7) *v. G.* 8) á móti, *G.* 9) *þannig, G, F*; fram fyrir merkit, *B, F.* 10) *þ. G*; lífði, *A, H.* 11) *v. G.* 12) *v. G.* 13) þyntist þegar sú fylkíng, *B.* 14) *v. G.* 15) íhugaði, *G.*

draum sinn; þótti betra dreymdr en eigi, [ok 1176
sýndist þó kynligr vera[1]. Sagði síðan vinum sínum, [ok þó fám[2], ok var því nær ráðinn sem síðan gafst[3]. En er honum komu slíkir hlutir í hug, þá styrktist hann[4] [við þat[5].

*[Vestanferð Sverris[6] til Noregs.*

6. Sverrir bjó nú ferð sína til Noregs, [at sjá hvat í vill gerast[7]; ok er hann kom þángat, hafði sá maðr látit gefa sèr konúngsnafn, er Eysteinn hèt; þeir voru bræðrasynir[8]. En er Sverrir spurði þat, gróf hann vandliga eptir þess manns atferð[9], ok fannst honum þat eina í, sem únglig myndu vera mörg ráð hans [ok tiltæki, ok hnekði þat, þvíat honum þótti sèr eigi þar hent til at ráðast[10]. Síðan gerði hann ferð sína norðr í land, þvíat Hrói biskup, fóstri hans, hafði þat ráðit honum, at sækja erkibiskups fund, ok birta[11] fyrir honum sinn vanda. En er hann var á leið kominn, gerðist hann spurall[12] við þá menn, er norðan komu. Hann dvalðist um hríð í Selju, þvíat þar voru hans kunnmenn[13] fyrir. Þar [var einn prestr, sá[14] er honum sagði inniliga þat er hann vildi vita; ok þaðanaf sèr Sverrir, hversu mikill mótstöðumaðr erkibiskup hafði[15] verit hans bræðr-

1) *v. G.* 2) *v. G.* 3) gekk, *B*; raun á, *b. F.* 4) mjök, *b. G.* 5) *v. B.* 6) Sverrir hóf ferð sína, *G.* Sv. kom fyrst, *B.* 7) *v. G.* 8) ok Sverrir, *b. A.* 9) atferði, *F.* 10) *v. G.* 11) tjá, *B, F.* 12) frèttinn, *F.* 13) kunnir menn, *G*; kunniglr vinir, *B.* 14) hitti hann prest einn þann, *G, B.* 15) hefir, *G.*

1176 um; þótti sèr lítil vân þaðan uppreistar, er aðrir bræðr hans fengu steypíng; vendir síðan aptr suðr, ok gerir ferð sína or landi. Fór síðan með byrðíngsmönnum til Túnsbergs, ok þaðan austr til Konúngahellu. Jafnan var hann [í þeirri ferð[1] á ræðu[2] við sjálfan jarlinn, ok fèkk hann svâ dulzt[3] fyrir honum, at eigi vissi jarl, hvat Sverri bjó í skapi, eða hverr hann var. Hann var optliga[4] [með hirðmönnum [eða öðrum konúngsmönnum[5] ok var svâ glaðr við þá, at þeim þótti [hverrar stundar[6] gaman [ok skemtan[7] at hans tali[8]; ok [af sinni ræðu ok vitrleik[9] gróf hann svâ undir þeim, at hann varð margra hluta þeirra víss af þeim, er þeir vildu[10] eigi hafa í ljós látit, ef þeir vissi hverr þar hefði verit, eða við hvern þeir höfðu rædt. Hann hugsaði vandliga, ef alþýðan væri nokkut tvískipt[11] í sínu orðalagi; þvíát[12] engi grunaði [hans orð, ok engi vissi hvat honum bjó í skapi. Fannst honum þat eitt í, at öll alþýðan væri Magnúsi konúngi holl[13]. Or Konúngahellu fór hann til Ljóðhúsa, ok fèkk mikit vâs ok erviði[14]. Hann kom í Eystra-Gautland [við mikilli mæði[15]; III

1) *v. G, F.* 2) tali, *G.* 3) læynzt, *G, B.* 4) jafnan, *G.* 5) *v. G. B; frá fyrra* [á tali við konúng sjálfan ok menn hans, *B.* 6) hvers dags, *F.* 7) *v. G.* 8) málsendum, *G; frá* [at honum ok hans ræðum, *F.* 9) *v. G, B.* 10) gjarna, *b. G.* 11) umskiptilig, *F.* 12) *þ. F*; at, *A.* 13) hann ok virðist honum svâ sem alþýðan mundi velviljuð M. konúngi, *G*; höll undir Magnús konúng, *F, B.* 14) *þ. B*, ervaðe, *optar A, G*; erfiði, *F.* 15) *v. G.*

nóttum fyrir jól kom hann til Birgis jarls brosu, mágs síns, er átti Brigit[1] föðursystur[2] hans. [þar bar hann upp sinn vanda fyrir mág sinn ok frændkonu. þau tóku lítit[3] af hans máli til greiða: báru til þess II hlutir; sá var annarr, at Eysteinn frændi hans hóf þaðan flokk sinn, ok vildu þau eigi annan efla, meðan hann var á lífi. Annarr hlutr var sá, at þat var borit [til eyrna Birgi[4], at Erlíngr jarl hefði gört hann til gabbs þángat[5]. Sverrir var þar um jólin, ok flutti[6] jafnan fyrir jarli sinn vanda; [bað hann tilleggja nokkur heilræði, hvat til ráða skal taka[7]. En þat [bar þar til[8], sem jafnan kann henda, at þar voru viðstaddir þeir menn, er meirr voru öfundar fullir en gæzku, ok þetta sama hagaði honum til mikils háska; þvíat margir skamsýnir[9] menn hugðu þessi tíðindi sönn vera, ok vildu drepa hann; en jarl vildi þat eigi vera láta, nema nokkorar sakir berar[10] væri til: vildi eptir því láta leita[11] heldr, hvat títt væri [um hans hag[12]. Honum var gefit [bæði vín ok mjöðr at[13] drekka, at[14] hann yrði drukkinn, ok mætti nokkut þat orð finnast í hans munni, at [hann þætti sakbitinn vera[15], eða [fyrir þat dráps[16] verðr:

---

[1]) Birgit, *G*; Brigid, *B*; Birgittu, *P.* [2]) systur, *G.* [3]) hann bar upp fyri þau sinn vanda ok tóku þau lítin, *G.* [4]) í eyru þeim, *G.* [5]) austr þannin, *G.* [6]) tjáði, *hin.* [7]) *v. G.* [8]) var enn, *G.* [9]) skynsamir, *G.* [10]) brýnar, *G.* [11]) meðr list, *b. F.* [12]) *b. F.* [13]) *þ. B*; b. v. ok, *A*; vín at, *G.* [14]) *þannig G*; ef, *A.* [15]) honum mætti sakir á gefa, *F*; nokkrar væri brýnar sakir, *B.* [16]) dauða, *G.*

En með því at Sverrir var á hverri stundu mjök hugsjúkr[1] um sitt mál, þá gaf hann lítinn gaum miði eða víni, þóat honum væri þess yfrin gnótt; heldr veitti hann því meiri viðsjá, [er hann fann, at undan våru dregin andsvörin fyrir honum um þau málin öll, er honum vörðuðu; höfðu þeir ekki vætta at sök, er hann vildu drukkinn gera[2].

*[Ferð Sverris til Vermalands*[3].

7. Ok at [liðinni jólatíðinni[4] sneri hann [ferð sinni[5] til Vermalands, þvíat hann þóttist eigi þau andsvör fá síns máls af jarli, er honum líkaði[6]; ok eigi kom mikill flokkr[7] í hans föruneyti, þvíat hann fór þaðan við annan mann; ok í þeirri ferð fèkk hann mikit vâs [ok erviði[8]. Var því líkast, sem í fornum sögum er sagt at verit hefði, þá er konúngabörn urðu fyrir [stjúpmæðra sköpum[9]; þvíat þat var [VI daga eða VII[10] ísamt, er hann fór villr um stórar merkr[11] [ok ókunnar[12]; [þolði þá[13] [í þessu vâlki[14] bæði húngr ok kulða. En er hann kom á Vermaland, þá mætti hann þar þeim mönnum, er komnir voru af Noregi. [Hann spurði þessa menn inniliga tíðinda, ok[15] þeir kunnu honum ný tíðindi at segja: at Eysteinn

---

1) hugsi, *F.* 2) *frá* [sem hann fann umsát annara, *G.* 3) *þannig P; v. A, G, F, B.* 4) liðnum jólum, *G.* 5) *v. G.* 6) þætti sèr til uppreistar í því sinni, *G;* þótti orlausn vera, *B.* 7) vöxtr, *G, B.* 8) *v. G, B.* 9) stjúpmóður álögum, *F*; stórum á., *B.* 10) VII daga, *G.*; XII dægr, *H.* 11) eyðimerkr, *F.* 12) *v. G, F.* 13) ok þolði, *G.* 14) *v. G.* 15) *v. G.*

konúngr hafði farit norðan, ok austr í Vík, ok þeir Magnús konúngr höfðu barizt [á Ree[1], ok Eysteinn konúngr hafði þar fallit, ok mikill hlutr liðs hans; en þat flýit á Vermaland [eða þelamörk[2], eða suðr til Danmarkar, er undan komst. Þetta þótti Sverri mikit auka sína harma ok vandkvæði, ok ferr þá fyrst til systur sinnar Cecilíe, er þegar[3] hafði búit veizlu ámót [bróður sínum, er hon hafði spurt til hans ferða[4]. Ok er þau funnust, varð hon fegin, ok fagnaði honum [við mikilli blíðu[5]. Síðan [gerðu þau ráð sín[6], hvat hann skyldi aftaka, [þvíat honum var þá eigi vel aptrkvæmt í Noreg[7]; var þá komin frètt[8] um hans [hag ok ferðir[9], ok þótti þat líkast[10], at hann man verða sækja á ókunn lönd [nokkora hríð[11], ok bíða þar þeirra tíðinda, er guð vildi [láta nokkorn veg hægjast um hans mál[12].

[*Málaleitan Birkibeina við Sverri*[13].

8. Nú spyrr[14] þetta sá hinn fátæki flokkr, er þá hafði mist síns höfðíngja, at sonr Sigurðar konúngs munns[15] var kominn á Vermaland; en hverr er þat spurði, fór á fund hans, ok báðu hann bindast fyrir sitt mál ok gerast fyrir þeim höfðíngi. Lið þetta var við mikilli

1) *b. B,F.* 2) *v. G.* 3) þá, *G.* 4) honum, *G.* 5) sem bezt kunni hon, *G.* 6) töluðu þau systkyn, *G*; velktu þ. s. fyri sèr, *B.* 7) *v. G.* 8) til Noregs, *b. G.* 9) mál, *G.* 10) vænligast, *B*; vænst, *F.* 11) *v. G.* 12) honum senda, *G*; til handa senda, *B.* 13) *þannig P*; Tala Sverris konúngs, *A*; Frá Sverri ok Birkibeinum, *G.* 14) fregnar, *P.* 15) *b. B.*

hneysu[1]: sumir voru mjök sárir, en sumir klæðlausir, [ok allir náliga[2] vâpnlausir. Allir voru ok svâ miklir æskumenn, at ekki sýndust honum þeir líkligir til [mikillar ráðagerðar[3]. Hann svarar á þá leið: [eigi sýnist mèr vârt ráð líkligt til mikillar framkvæmðar ok stórræða; þèr eruð menn snauðir[4], en ek em fèlítill ok yðr ókunnr: megu þèr ok sjá, ef yðr mislíkar [mín ráðagerð[5], at þèr vitit eigi görla[6], hverjum þèr þjónit. Em ek ok þar fæddr, er menn eru lítt[7] vânir slíkum storræðum [eða starfi[8], ok sýnist mèr sem vèr hafim fátt til fèlags[9], hvârir við aðra, nema fèleysi ok mikinn vanða; verð ek þess eigi búinn, at [binda yður vandkvæði á mína áhyggju[10]. Nú með því at þèr hafit [til vâr stundat[11], þá vil ek ráð gefa til með yðr, [þat er mèr sýnist[12] [duga muni[13]: Birgir mágr minn [ok þau Brigit eigu[14] III sonu, ok eru þeir jafnbornir[15] til lands, sem Magnús konúngr[16] Erlíngsson. Farit þángat ok biðit hann gefa yðr nokkurn[17] af þeim yðr til fyrirmanns[18].

---

1) *þ. G*; neiso, *A*; rædslu, *B*. 2) en nær allir, *G*. 3) ráðagerða, *G*. 4) þetta sýnist mèr hvarigum allfýsiligt, *G*; Hverigum sýnist mèr fýsiligt þetta ráð upp at taka, þvíat ek sè eymd yðra mikla, svâ snauðir menn sem þèr erut, *B*. 5) ráð mín, *G*. 6) *v. G*. 7) ekki, *G*. 8) *v. G*. 9) fèlagsskapar, *G*; saman at legg-a, *b. F*. 10) kimbla yðrum vandræðum á mínar áhyggjur, *G*; auka yðr vanda ok mèr áhyggju, *B*. 11) minn fund sótt, *G*. 12) *v. G*. 13) *b. B*. 14) á sèr, *G*. 15) jafnkomnir, *G*. 16) *v. G*. 17) einnhvern, *G*. 18) forstjóra, *G*, *B*; forystu, *H*; konúngs, *F*.

Hefi ek ok [vandliga athugat yðru liði[1], ok finnst mèr þat eina í, sem lítil myni vera manngrein með yðr, [ok er mèr mjök afhent við þessum flokki at taka[2]; ok sè ek stór vandkvæði[3] á voru máli, ok mest fyrir sakir þess hlutarins, er oss gegndi sízt hvârumtveggjum at missa, en meiri vân at engi sè faung á í yðru föruneyti til svâ [mikilla landráða[4] sem þarf í móti [Erlíngi jarli[5]. [Em ek ok til engrar ráðagerðar færr, sá maðr er í einu útskeri er fæddr ok fjarri öðrum löndum[6]; hefi ek ok lítt sèt annarra manna siðu fyrri en nú, er ek kom í [yðart land[7]; [en miklu síðr kann ek þó við her[8] at[9] fara, eða landráðum at skipa; em ek til enskis færr, úkunnigr öllum mönnum[10], [veit ok eingi ætt mína[11], ok gánga þess allir dulðir[12], nema þat eina er ek segi frá einn saman. Nú kann vera at þèr mælit slíkt við mik, sem við hinn fyrra höfðíngja yðarn, at þèr vissut eigi, hvat manna hann var, [sá er yður þjónusta hneig til[13]; ok verðr yðr [þat sama[14] at brígslum haft jafnan, hvar sem þèr kunnut mæta yðrum úvinum. Vitu ok allir menn vân sona Birgis, en mín engi[15].

*[Birkibeinar fara á fund Birgis jarls brosu*[16].

9. Þessir menn fóru [á fund Birgis brosu

1) til hugsat vandliga um lið yðvart, *G.* 2) *v. G.* 3) forfavll, *G, B.* 4) mikils landráðs, *G.* 5) þeim feðgum, *G.* 6) *frá* [ *v. G.* 7) þessi lönd, *G.* 8) herskap, *F.* 9) *b. F.* 10) *frá* [ *v. G.* 11) *þ. B, F*; veit ek ok eigi um ætt mína, *A.* 12) *frá* [ gánga hèr ok allir duldir um ætt mína, *G.* 13) *v. G.* 14) yðarr höfðíngi, *G.* 15) maðr, *b. B.* 16) *þ. P*; Draumr, *A.*

1177 við þessi sömu[1] málaleitan. Hann harmaði mjök skaða þeirra, ok sagði svâ: synir mínir eru börn at aldri, ok kunnu hvârki gera ráð fyrir sjálfum sèr nè öðrum mönnum[2]; eru þeir ekki til slíks færir, [ok þó mest fyrir æsku sakir; sýnist mèr ok lítil völ í yðrum flokki þeirra manna, er ráð megi gera fyrir sonum mínum; ok má ek engum her hèðan lypta, þvíat ekki þola Noregsmenn[3], at gautskr herr ríði á land þeirra. En [þar sem þèr erut komnir á minn fund, man ek gefa yðr eitt ráð, en guð ræðr hversu gefst[4]. Son Sigurðar konúngs var með[5] oss um jól, en nú man hann vera á Vermalandi; takit hann til höfðíngja; hann [hefir aldr til, ok er líkligr[6] til vits[7]: biðit hann beitast[8] fyrir yðart mál. Þeir sögðu: vèr fundum[9] þann mann, ok vísaði hann oss af hendi sèr. Jarlinn [eggjar því meirr, ok mælti[10]: svâ segir mèr hugr um, at enga uppreist finni[11] þèr yðars máls, ef eigi kemr þaðan: enda skulu þèr á hans fund sækja, ef þèr vilit mín ráð hafa. Ok þau megu þèr bera honum mín orð, at ek heit honum[12] allri minni vingan[13] slíkri, sem ek má við koma; skal hann ok hèr hafa hēr sinn ok frið-

1) til Birgis j. með þessa, *G.* 2) *v. G.* 3) *frá* [ munu Noregsmenn ekki þola, *G.* 4) en þat ráð legg ek til með yðr, er mèr sýnist vænst; gefst sem guð vill, *G.* 5) við, *G.* 6) vænn, *F.* 7) hefir bæði til aldr ok vit at stýra slíkum mönnum, *B.* 8) bindast, *B.* 9) hittum, *G.* 10) svarar, *G.* 11) fái, *G.* 12) *b. G.* 13) vináttu, *G.*

land, hvar sem hann keinr í Svíaveldi[1]. Gerit honum þann kost, at hann skipist við yðra nauðsyn allra saman, eða [þèr munuð hann af-taka lífinu[2]. Þeir höfðu sett [menn til[3] at gæta hans, meðan þeir fóru til Birgis jarls; því at Sverrir hafði ætlat ferð sína út til Jórsala[4]; þóttist eigi vita þá menn í Noregi, er hann ætti traustś[5] af von. Svâ höfðu þeir Magnús konúngr ok Erlíngr jarl grimliga leikit alla þá hálfu, [at engi maðr þorði Sigurð nè Hákon konúngsnafni (at) nefna eða (þeirra) geta[6]. Nú komu [þessir menn í annat sinn[7] aptr til Sverris[8] við[9] brèfum Knúts konúngs ok Birgis jarls, ok mæltu svâ: sú er vâr bæn, at þèr skipizt við at hjálpa þessum fátæka flokki, [til þess at þèr vanvirðit eigi vâr orð, ok[10] [svâ lítit sem vèr tókum[11] fyrri af yðru máli, þá skulum vèr nú styðja ok styrkja yðart ríki, allt þar er vèr megum við komast. En þóat þeir lokkaði hann [við þessu fagrmæli[12], þá sá hann eigi at síðr sín vanefni til svâ mikils ráðs[13], ok [neitaði hann þeirra bæn[14]. Þá minntust þeir ályktarorða Birgis jarls, ok báðu hann þá um II kosti kjósa: hvârt hann vildi

[1]) nær sem hann þarf þess meðr, *b. F.* [2]) ella munu þèr hann af lífi taka, *G.* [3]) *þannig G*; til gísla, *hin.* [4]) því at hann, *b. A.* [5]) nokkurs styrks, *B.* [6]) *v. G, F.* [7]) þeir, *G.* [8]) ok þángat voru menn sendir, *b. G.* [9]) með, *G.* [10]) nú með því at þèr virðit orð vâr þá heldr en áðr, *F, B*; til þess at þèr ríkit (*sic*) orð vâr, *G.* [11]) þótt vèr tækim lítinn fyrr, *G.* [12]) með þvílíkum gælíngarorðum, *G, F*; góligum orðum, *B, G.* [13]) stórræðis, *B, G.* [14]) ok kvað nei við, *G.*

1177 heldr þeirra máli miskunna, eðr eiga af þeim vân skjótra[1] vandræða, ok segja á þá leið: vèr höfum lengi[2] þjónat yðrum frændum, látit feðr vâra ok [bræðr ok náliga alla[3] frændr, ok friðlöndin[4] fyrir sakir föður þíns; ok nú bjóðumst vèr allir enn í vandann fyrir sjálfan[5] þik; en þú vill fyrirlíta [bæði oss ok sæmð þína sjálfs[6]. Nú skaltu víst vita, at vèr munum drepa yðr frændr[7], ok kaupa oss svâ í frið við Magnús konúng, ok vera yðr grimmastir, er áðr voru vèr hollastir. Mikit sýndist honum nú enn sitt mál vandast af nýju, [ok hugði hann at með sjálfum sèr[8]; sá at þá myndi [bráðast yfirlúka hans ætt ok þeirra frænda[9], ef hann hætti til þessa afarkosta[10]. [Tók hann þann af, at[11] drottinsdaginn at VII vikna föstu bundu þeir [ráð sín ok fèlag[12]; en mánadaginn eptir gengu LXX[13] manna til handa Sverri, ok gerðust sumir hirðmenn hans[14], [en sumir gestir, sumir húskarlar[15].

*[Draumr Sverris[16].*

10. Ok um nóttina eptir[17] dreymði Sverri, at hann þóttist vera austr [í Borg[18], þar sem Raumelfr fellr í sjá, ok þótti honum þar vera Magnús konúngr ok Erlíngr jarl í bænum [ok

---

1) bráðra, *B*, *F*. 2) *v. G.* 3) *v. G.* 4) svâ friðlandit, *G*. 5) *v. G.* 6) oss, *G*. 7) *v. B.* 8) *v. G.* 9) skjótast verða aldauða þeirra kyn, *G*, *B*. 10) etjukosta, *G*; hörðu kosta, *B*; er þá voru honum görvir, *b. G.* 11) *b. G.* 12) lag sitt saman, *G*; sitt fèlag, *B*. 13) LXXX, *H*. 14) *b. B.* 15) *v. G.* 16) *v. G.* 17) næstu, *G*. 18) á bergi, *G*; í bergi *B*; í Túnsbergi, *F*.

lið þeirra[1]. Honum þótti vera[2] nokkurr kurr 1177
um þat, at þar myndi vera nokkurr konúngsson í bænum, [ok sýndist honum allt fólk vera í eptirleitan, hvar hann mun vera; en hann þóttist vita, at þessi kurr var um hann sjálfan[3]. Hann þóttist fara leyniliga or bænum, ok sýndist honum vera[4] fyrir sèr Maríekirkja; [hann sótti þángat tíðir, ok[5] er hann þóttist biðjast[6] fyrir í kirkjunni, sýndist honum maðr gánga at sèr ok taka í höndina, ok leiddi hann í eina stúku norðr ífrá sönghúsdurum, ok mælti við hann: gakk með mèr, bróðir, ek hefi leynt mál við þik. Hann þóttist gánga með honum, ok hyggja vandliga at hans yfirlitum. Honum sýnðist þessi maðr afargamall, ok snjóhvítr fyrir[7] hærum; hann hafði skegg mikit ok klæði afar síð; rjóðr í andliti ok stutt hár umhverfis[8], ok heldr ógurligr. Hann þóttist vera íhugafullr, hvat er þessi maðr myndi vilja. Sá hinn gamli maðr fann þat á honum ok mælti: hræzt eigi þú, bróðir, þvíat guð hefir mik sendan. Þá þóttist hann hníga til jarðar fyrir honum, ok spyrja: hvat manna ertu, herra, at ek mega víst vita, at guð hefir sendan þik. Hinn gamli maðr svarar í annat sinn, ok bað Sverri eigi óttast; sagði guð sik sendan hafa til hans. Þá þóttist hann verða

1) *v. G.* 2) *b̄. G.* 3) *B frá* [ ok þótti honum allt folk í eptirleitan, hvat hann mundi vera. 4) verða, *G.* 5) en, *G.* 6) leitast, *B.* 7) af, *G.* 8) *v. G*; umbergis, *F.*

1177 slíkt eða hræddari. Þá [tók sá hinn gamli maðr í hönd hans, ok reisti hann upp, ok mælti[1] hit þriðja sinn: hræzt eigi þú, bróðir, [friðr verði með þèr[2]; þvíat ek em Samúel, guðs[3] spámaðr, hefi ek ok guðs erindi þèr til handa [at flytja[4]. Eptir þat tók þessi gamli maðr horn or skreppu[5], er hann hafði á hálsi sèr, ok sýndist honum sem krismi væri í horninu. Þá mælti sá hinn gamli maðr við Sverri: lát mik sjá hendr þínar, segir hann. Eptir þat þóttist hann rètta fram báðar hendr sínar til hans. Sá maðr smurði hendr hans, ok mælti svâ: [helgist ok styrkist[6] þessar hendr til hatrs við úvini [ok mótstöðumenn[7] þína[8] at stjórna mörgum lýðum[9]! Síðan [kysti hann[10] Sverri, ok tók í hönd hans hina hægri, ok mælti við hann: leitaðu nú [austr or þröng þinna óvina[11], þvíat þú skalt konúngr vera. Ok enn [kysti hann[12] Sverri í annat sinn ok mælti: [ver þú hraustr ok sterkr[13], þvíat guð mun fulltíngja þèr. Eptir þetta vaknaði hann, ok sagði þegar þenna draum þeim XII mönnum, er þar sváfu í [því herbergi sem hann sjálfr[14]. Öllum þótti draumrinn mikill ok merkiligr, ok urðu allir hans menn þessum draumi[15] nokk-

1) mælti hinn gamli maðr, *G.* 2) *v. G.* 3) *v. B.* 4) *v. G.* 5) skikkju sinni, *F.* 6) smyrist ok helgist, *B.* 7) *v. G.* 8) *þ. G*; sína, *A.* 9) lýð, *G.* 10) mynntist hann við, *B.* 11) or þraung þessari austr, *G.* 12) mynntist hann við, *B.* 13) styrkstu ok ver hraustr, *G.* 14) herbergi hjá honum, *G*; þat voru prestar II ok X menn aðrir, *b. B.* 15) *þannig G*; draumum, *A.*

ut[1] svâ fegnir. Ok er hann leitaði eptir, at þeir[2] myndi ráða drauminn, þá bar engi traust á, [en öllum þótti betr dreymðr en eigi[3]. Ok er hann fann at draumr þessi myndi eigi ráðinn verða, [bað hann þá ekki umskepta[4], þóat þetta hefði fyrir hann[5] borit. Allir þóttust [þeir finna, er við voru staddir[6], at stórum skiptist hans lunderni eptir þenna draum. Var þat mikil raun allt saman, er hann var í úkunnu landi ok við alla[7] úkunna þjóð. Þat var ok allt senn er hann hafði við föruneyti[8] tekit, [ok hann varð[9] at bera vanda fyrir [þeim er honum þjónuðu, með[10] því at engi var sá annarr, er ráð kunni gera, nema[11] hann sjálfr, í þessu liði, [er hann hafði viðtekit ok sitt ráð viðbundit[12].

*Frá Sverri konúngi*[13].

11. Miðvikudaginn [í VII viknaföstu[14] [tók hann við þessum flokki, ok[15] hóf[16] för sína af Hamri í Vermalandi, ok hafði eigi meira lið en LXX[17] manna. Hann fór í Víkina, en á því meli dreif til hans lið, svâ at hann hafði hálft fjórða C[18] manna[19], þá er hann kom þar

---

1) *v. G;* mjők. *F.* 2) nokkurr, *G.* 3) *v. G.* 4) *þannig líka G;* mart umtala, *B; frá* [lèt hann kyrt vera, *F.* 5) *v. G.* 6) finna, *F.* 7) *v.* G. 8) forræði, G. 9) varð hann þegar, *G.* 10) öllum sínum mönnum, *G.* 11) utan, *G.* 12) *v. G, B.* 13) Sverrir bjóst af Vermalandi, *B. Hèðan frá til* 21 *Kapítula vantar þá alla yfirskriftir í G.* 14) eptir, er vèr köllum öskudag, *G, B.* 15) *v. G.* 16) hann, *b. G, B.* 17) LXXX, *H.* 18) hundrað, *G, B.* 19) *b. G.*

1177 er [Saurbæir heita[1] í Víkinni. Þar lèt hann þíngs kveðja, ok vildu hans menn láta[2] gefa honum konúngsnafn. Hann talðist undan, ok kvað[3] betr sama[4], at hans mál væri áðr birt við[5] nokkorum sannindum. En þeir sögðust þat eigi vilja heyra, [ok tölðust eigi vilja honum þjóna til þess[6], at hann [væri eigi hærri en aðrir þeir er honum fylgðu[7]. Þat var drottinsdag hinn fyrsta í föstu[8] [at þeir gáfu honum konúngsnafn[9]; [gengu menn þá til handa honum[10], ok tóku við sverði hans. Eigi hafði hann lengi þeim flokki stýrt, áðr en hann sá þat, er fyrr hafði hann grunat, at eigi mundi hann mjök mega styðjast við þeirra ráðagerð[11]; ok meðan hann var í Víkinni ok þeir, þá hugði hann vandliga at þeirra[12] háttum ok athæfi[13]. Sýndist honum þat fólk misjafnt mjök, sumir góðir drengir ok spakir menn, en sumir úspakir[14]. [Þá kom honum í hug at freista, ef þetta fólk vildi honum til nokkurs annars fylgja, en til rána ok úspektar einnar[15]. Þá fór hann aptr til Vermalands, þvíat hann vildi eigi ræna í Víkinni, ok vildi hann heldr berjast til lands, sem hann átti burði til. Þaðan gerir hann för sína, ok ætlaði norðr í

1) Saurbær heitir, *B.* 2) *v. B.* 3) lèt, *B*, *G.* 4) hæfa, *G*; fallit, *B.* 5) með, *G.* 6) at þjóna honum svâ, *G.* 7) bæri eigi hærra nafn en þeir, *G*; eigi hefði meiri nafnbót, *B.* 8) í lángaföstu, *F.* 9) *b. G.* 10) *v. G.* 11) tók hann þá alla áhyggju sèr á hendr at leggja, *b. B.* 12) sinna manna, *G.* 13 er þá voru komnir í föruneyti hans, *b. B.* 14) með rán ok úsiðu, *B.* 15) *v. G.*

 1177

land. Hann fór þar til er hann kom [til Eiðaskógs[1], ok kannaði þá lið sitt; ok reyndist svâ, at með litlum drengskap[2] höfðu margir til handa gengit, ok meirr [af því, at þeir[3] hugðust ránsmenn at vera[4] heldr[5] en [konúngi sínum til sæmðar [at berjast[6]. [Þessu máli lauk svâ, þá er til vâr kannat, at[7] hann hafði eigi meirr en LXXX[8] manna þeirra CCCC[9]. Þá sá hann eigi efni sín til þess, sem hann hafði ætlat, við svâ lítit lið ígegn slíku ofrefli sem fyrir var vân. Sá hann, at ekki var at stunda á þat lið[10], er eigi vildi fylgja honum norðr ok[11] norðan. Þóttu þeir heldr vilja[12] eggja alþýðu í höfuð sèr af ránum ok mikilli úspekt, en fylgja honum[13] í mannraunum; ok var honum þá mjök ángrsamt[14], þvíat hann var náliga [frá öndverðu[15] nauðigr til konúngs tekinn, en veitt honum[16] síðan[17] eigi[18] góða fylgð. Nú hugleiddi[19] hann sitt ráð, ok þóttist eigi faung[20] á sjá, at hann gæti við [þetta lið[21] skilizt, af[22] því at þeir, er helzt vildu honum fylgja, gættu hans vandliga[23]. [Snýr hann nú aptr á Vermaland, ok[24] hafði

[1]) at Eiðaskóg, *G.* [2]) dyggleik, *G.* [3]) *v. G.* [4]) gerast, *G.* [5]) *v. G.* [6]) *v. G*; *frá fyrra* [ berjast með sæmd meðr konúngi sínum, *b. F.* [7]) *v. G.* [8]) eina LXX, *B*; lXtígi manna, *H.* [9]) *þannig hin*; CCC, *A.* [10]) fólk, *G.* [11]) *þannig G*; eða, *A.* [12]) etja ok, *b. F.* [13]) sèr, *G, B.* [14]) annsamt, *B.* [15]) *þ. B, F*; í öndverðu, *A*; *v, G.* [16]) sèr, *B.* [17]) af þessum mönnum, *b. B.* [18]) enga, *B.* [19]) hugaði, *G*; íhugaði, *B.* [20]) efni sitt, *G.* [21]) þá, *G.* [22]) fyri, *G.* [23]) síðan hann hafði við konúngsnafni tekit ok görzt öllum kunnr í landinu, *b. B, G.* [24]) *þ. B, G*; Sverrir, *A.*

1177 páskavist með einum presti, þeim er vegliga veizlu gerði[1] ímóti honum. Eptir þat sendi hann brèf sín í Noreg á þelamörk, þvíat þeir voru rángsáttir[2] við Magnús konúng ok Erlíng jarl; ok hèt hann þeim [nokkurum rèttarbótum[3], ef þeir snerist til hans, ok [stefndi hann þeim[4] norðr í land til móts við sik[5], [ef þeir vildi hann nokkut þýðast[6] eða honum lið veita.

### *Af ferð Sverris konúngs*[7].

12. At liðinni páskavikunni sá hann at hann myndi eigi komast norðr í land, nema hann tæki nokkura úkunna stiga með erviði, af[8] því at stór viðrbúnaðr var um allt landit, síðan [er þeir[9] spurðu at flokkrinn [tók at hefjast[10] austr í landit[11], at þeir áttu hvergi kost at[12] komast þar í landit, er nokkurar voru stórbygðir fyrir; ok [þá sá hann þat at ráði at snúa[13] at Eystrasalti; ok síðan ferr hann yfir þann skóg hinn fyrsta, er XII[14] rasta var lángr, áðr [en hann kom í Ækisherað[15]. En er þeir fóru þaðan, [áttu þeir þann skóg fyrir[16], er [enn var svâ[17] lángr[18], [áðr hann kom þar[19], er heitir Molúngr[20]. þaðan fór hann enn XV[21]

---

1) bjó, *G*. 2) missáttir, *G*; í úsætt, *B*. 3) nokkurri rèttarbót, *G*. 4) vildi þeir koma, *G*. 5) hann, G. 6) *v*. *G*. 7) *þannig A*, *B*. 8) fyri, *G*. 9) menn, *G*. 10) hófst, *G*. 11) Vík, *F*. 12) máttu þeir hvergi, *G*. 13) snerú þeir ferð sinni; *G*. 14) *þannig hin*; XIII, *A*. 15) Ríkisherað, *F*, *G*; [áðr Ríkisheraðit tók til, *B*. 16) á þann skóg, *G*. 17) *þannig B*; einkar var, *A*. 18) *frá* [ var miklu lengri, *F*. 19) ok til þess, *B*. 20) Mástúngr, *F*. 21) XII, *G*, *B*.

rasta skóg til Járnberalands. Á þessum skógum öllum var engi fæzla nema fuglahold [ok elgja[1]. Í þessari ferð gerðust margir hlutir erfiðligir ok þúngligir, þvíat þeir fóru um óbygðir mjök lengi, ok þoldu bæði húngr ok kulða [ok mikla mæði[2]; mátti þar ok ekki hesta við njóta eðr annarra fararskjóta, þvíat í þann tíma voru verstar ferðir[3], er snjó leysti af skógum, en ísa af vötnum. Þeir fara stundum um[4] mosa, eða stórar myrar ok þröngar merkr, eða brota stóra. Járnberaland er undir Svíakonúngi, ok var þá enn heiðit; höfðu þeir aldri sèt konúng koma fyrr í sitt land, ok voru þeir óvanir konúnga yfirför; mátti svâ atkveða, at [þann mann fyndi eigi[5], er skyn kynni á konúngsmönnum[6], eða vissi hvârt þeir[7] voru menn eða dýr; var þat mikil nauð at flytjast milli svâ heimskra[8] þjóða. En svâ mikla miskunn [sýndi allzvaldandi guð[9] við Sverri konúng, at hann fèkk af því fólki mikinn farnað[10] ok leyfi til yfirferðar, [þann tíma er[11] þeir heyrðu orð hans[12]. Af Járnberalandi fór hann um[13] þann skóg, er XVIII rasta var yfir, til [þess hèraðs[14], er [Herdalir

1) *v. B.* 2) *v. G.* 3) færðir, *F, B.* 4) móa, *b. B.* 5) at þann mann fyndi trautt, *G.* 6) konúngsnafni, *F*; konúngi, eða vissi hvârt þat var maðr eða dýr, *B.* 7) *þ. G*; þat, *A.* 8) fávísra, *G.* 9) gerði guð almáttigr ok heilug María, *G, B.* 10) fagnað, *hin.* 11) þegar, *G.* 12) en optast var at fara um auðnir, merkr ok mosa, mýrar stórar ok stór stöðuvötn, *G*; eyðimerkr, stórar ár, heldr en um mannabygðir, *b. B.* 13) yfir, *G.* 14) (*einúngis*) hèraðs *G.*

heita[1], þat var hans land. þaðan fór hann þann skóg, er var átta rasta hins fjórða tigar yfir[2]. Á þeim skógi var svâ hörð [reiðan þeirra[3], at ekki var at eta nema börkr [af viði ok safi[4], ok þau ber er undir snjó höfðu legit [um vetrinn[5].

[*Gerr jartein Sverri konúngi*[6].

13. Sá atburðr gerðist, at Sverrir konúngr skyldi fara yfir eitt mikit vatn í[7] einni mörk[8], [ok voru þar engir farskostir[9] í nánd, nema menn gerðu sèr flota af[10] viði[11], [III eða IIII[12] saman[13], svâ sem[14] þá mátti verða; ok sá floti er konúngr var á, var eigi mikill, ok voru [þeir þar IIII á[15]. þessi floti seig, þegar er þeir komu skamt frá landi, svâ at þeim tók vatnit[16] í mitt bein á flotanum, en vatnit var hálfrar viku breitt. Ok í því bili kom einn maðr hlaupandi á vazströndina[17]; hann var mjök þreyttr af göngu, þvíat þá voru þeir á inni mestu mörkinni, ok áðr hafði verit allt liðit II daga matlaust. þessi maðr kallaði á þá, er á voru flotanum, ok bað þá [hjálpa sèr, talðist farinn vera af mikilli[18] mæði; en annat liðit var þá mjök komit yfir vatnit. Ok þá

1) Dalir heita *F*; Herdalr heitir, *A*, *H*. 2) yfirferðar, *B*; átján rasta ok XX, *F*; átta rasta yfir ens XI tigar, *H*. 3) reisan, *F*. 4) *v. G*; ok sáfi, *B*. 5) *v. B*. 6) *þannig B*. 7) á, *G*. 8) eyðimörk, *F*. 9) en skip voru engi, *F*. 10) hrám, *b. F*, *B*, *H*. 11) viðum, *G*. 12) IV eða VI, *F*, *H*. 13) eða, *b. G*. 14) *b. G*. 15) þar á III menn með honum, *G*. 16) *b. G*. 17) vatzbakkan, *G*; at vatninu, *F*. 18) hjálpar, ok kveðst náliga vera farinn, *G*.

1177

er konúngr heyrði kall hans, sá hann at þess manns bani[1] lá við, ef þeir tæki hann eigi; en í annan stað sýndist honum flotinn eigi[2] bera [mega alla þá menn, er áðr voru á[3]. Hann lèt þó flotann at landi, ok tók manninn, þóat eigi væri færiligt. Ok er sá maðr kom á flotann til þeirra, þá tók vatnit yfir knè þeim; ok fóru svâ yfir vatnit, ok lendu við eina lág; gengu síðan af flotanum. Konúngr fór síðarst af, ok þegar er hann steig af, sökk flotinn sem steinn; ok sýndist þá þegar öllum mönnum þessi atburðr merkiligr [ok undarligr[4]. En nú er þat öllum auðsýnt, at sá floti bar þann farm, er ætlaðr var til þeirra stórvirkja, er þá voru eigi framkomin, ok hærri tignar, en þá hafði hann, er flotinn[5] flaut undir mannfarminum, en sökk [þann tíma[6] er menn voru af honum. Tvær nætr síðan voru þeir í auðn, ok höfðu engi mat, nema þeir átu safa[7] ok sugu birkjuvið[8]; en hinn III daginn var allt liðit [at úfæru komit[9]. Þeir sóttu þá svâ hart[10] þessa eyðimörk, at skammar voru þá XIII[11] rastir eptir. [Nú veik svâ við, at liðit fór[12] yfir eina á mikla; liðit lagðist niðr á árbakkanum, sem yfir kom, ok nenntu eigi at gánga lengra fyrir

1) líf, *F*, *B*, *G*. 2) varla, *G*; trautt, *G*. 3) þá, *G*. 4) *v*. *B*. 5) *þannig G*.; hann, *A*. 6) þegar, *G*. 7) sáfa, *B*; þellisafa, *G*, *H*; þellusafa, *F*. 8) birkju, *B*. 9) komit at þrotum, *G*. 10) mjök, *G*. 11) XIV, *G*, *F*, *H*; XII, *B*. 12) þá fór liðit, *G*.

1177 þeirri[1] mæði, [er þeir höfðu[2]. [Konúngr fór með þeim, er síðarst fóru, ok[3] voru þeir III saman, ok rak þá lángt ofan eptir ánni, ok sveif at landi umsíðir; tóku hvíld eptir þat. Þá bað konúngr menn vel viðherðast, ok kvað skamt [í bygðina vera[4]; talði enn myndu nokkot[5] rautt fyrirbrenna, ef þeir kæmi til kristinna manna[6] umsíðir.

*Frá ferðum Sverris konúngs[7].*

14. Nú [kom konúngr[8] til Jamtalands, ok vildu þeir honum ímót standa. Hann sendi þá fyrir Sigurð af Saltnesi, ok [ætlaði sem reyndist[9], at þeir myndu minnr[10] varast vitrlig ráð, meðan eigi var kominn sjálfr höfðíngin. [En í þeirri för[11] fèkk Sigurðr öll skip þeirra, er þeir höfðu ætlat sèr til landvarnar. Ok er konúngr kom sjálfr, missa bændr[12]-skipanna; var sá þá hinn bezti[13], at gánga [til handa[14] [Sverri konúngi[15]. Þar voru margir lendir menn Magnúss konúngs, ok gengu allir til sættar[16]. Þar voru þá veizlur búnar ok allr greiði [við konúng[17]; þeir fengu honum XL[18] manna. [Eptir þetta[19] byrjar hann ferð sína þaðan ábrot, ok fóru enn við svâ miklu erfiði,

1) *v. G, B.* 2) *v. G, B,* 3) *v. G.* 4) skayþ (skeið) mundu vera íbygðina, *G.* 5) marght, *F.* 6) landa, *F.* 7) *þannig B*; Frá Sverri konúngi, *A.* 8) *þ. B*; k. hann, *A*; komu þeir, *G.* 9) hugði sem var, *F.* 10) miðr, *G.* 11) *v. G.* 12) *þ. B*; þeir, *A.* 13) líkasti, *F.* 14) á hönd, *G.* 15) *b. B.* 16) handa, *G.* 17) *v. B.* 18) *þannig hin*; LX, *A, B.* 19) þá, *G, B.*

at V daga bergði[1] engi maðr mat, ok eigi[2] svāfu þeir; þvíat konúngr vildi eigi [láta fara boð fyrir (sèr)[3]. Hann kom frjánótt[4] fyrir hvítsunnudag[5] í nánd við bæinn. Þeir kaupángsmenn spurðu þetta, ok fóru[6] yfir ána Nið ímót þeim með [XVI hundruð[7] manna; [var fyrir þeim[8] Sigurðr Nicolásson[9], Eiríkr Árnason, Ívarr horti, Ívarr selki[10] ok Ívarr Gjafvallsson. En er konúngr varð varr við þetta, fór hann sjálfr [á njósn[11] við annan[12] mann [er Jón hèt[13], [ok kom í lið þeirra sjálfra; urðu þá sannliga vísir, hverr liðsmunr var, ok sá hann sik eigi tilfæran[14] at berjast við C manna ímóti XVI hundruðum[15], ok hurfu þá aptr at sinni. Þá [voru Selbúar[16] enn í samnaði fyrir þeim (með)[17] DCC[18] manna, en [lið Sverris konúngs var svâ mótt[19] af lángri[20] vöku[21] [ok erfiði[22], at þeir urðu þá hvíld at taka. Síðan sendi hann [menn til Vígleiks[23] á Digrini, at hann [skyldi fæða[24] lið hans, ok varð hann vel 1177

1) hafði, B. 2) heldr, *bl* G. 3) at njósn kæmi fyri þeim, *F.* 4) frjádaginn, *F*; frjámyrgin, *H*; frjádagsnótt, *B.* 5) hvítadaga, *G*, *H.* 6) ofan, *b. B.* 7) *þannig líka hin*; XII. C, *B.* 8) þar voru þeir, *B.* 9) *þannig F*; s. Nicolás, *G*; Niculags *eða* Sticulags, *A.* 10) *þannig G*; snerkr, *A* (*síðan*: silki) silki, *F*, *B*, *H.* 11) *þannig G*; í mót þeim, *A.* 12) I (einn), *B.* 13) *þannig G*; Jón hæin, *A.* 14) ok er konúngr varð vís ins sanna um liðsmuninn, ok þótti honum eigi færi, *G.* 15) XII. C, *B.* 16) Sældælir, *H.* 17) höfðu Selbúar safnað fyrir honum, *G.* 18) CCC, *B.* 19) Birkibeinar voru þá svâ móðir, *F*, *H.* 20) *v. G.* 21) föstu, *B.* 22) *v. G.* 23) orð Vígleiki, *F.* 24) fæddi, *G*; mundi fæða, *B.*

1177 við [þessa orðsendíng[1]. Ok er þeir fóru þaðan íbrot, greiddi guð svâ konúngs mál, at hann ok lið hans komust ímilli samnaðarins ok [skipa þeirra[2]; tóku þá hvert skip þeirra Selbúanna, fóru síðan í bygðina [þeirra manna, er gjarna vildu sitja um líf þeirra[3]; bjöggu [nú í búm[4] þeirra, hversu sem [líkaði þeim er eignirnar áttu[5]. Komu þeir svâ heim, at engi var annarr til, en játa[6] því öllu, er konúngr beiddi[7]; hann lagði á þá [gjald, hálfsmánaðar vist[8]. Konúngr var þá í hólmi einum [í Selasjó[9], er Konúngshólmr er kallaðr síðan[10]; fóru þaðan um nótt, svâ at engi maðr vissi, nema þeir sjálfir; [vendu þá á þat fjall er kallat er Vazfell[11], ok [voru þar svâ, at[12] engi maðr varð varr við þá, en þeir sá vandliga[13] öll tíðindi til bæjarins, ok heyrðu þat mart er [mælt var til þeirra sjálfra[14]. Gauldælir höfðu ok mikinn samnað; [þat sá þeir görla[15], ok er[16] nokkura daga varð eigi vart við þá, slitu[17] þeir þá samnaðinum[18]. Þat sá þeir þegar Birkibeinar, ok slást eptir á hæla þeim, ok koma [á óvart öllum mönnum[19] í

1) *v. G, B.* 2) skipanna, *B.* 3) *v. G.* 4) búin, *G.* 5) þeim þótti, *G;* hversu hagliga er þ. þ. sem áttu, *B.* 6) já, *G.* 7) vildi at væri, *G.* 8) hálfs mánaðar vista gjald, *G.* 9) *v. G;* Selabúi, *B.;* Seljasjó, *H.* 10) *frá* [ er Konúngahólmr hèt, *F.* 11) *þannig G;* Vazafell, *A;* Vaðafell, *F, H; frá* [ *v. B.* 12) *v. B.* 13) *v. G.* 14) um þá var talat, *B.* 15) *v. G.* 16) *þannig G; v. A.* 17) rufu, *F.* 18) safnaðinn, *G.* 19) at óvörum öllum, *G;* ok þeim úvörum, *B.*

bygðina; urðu þeir þá undir þat allt glaðliga[1] at gánga, sem Sverrir konúngr krafði[2]. Þetta spurðist brátt til bæjarins[3], ok gerðu þeir enn lið úr bænum[4] [eptir honum[5]. [Þeir Sverrir konúngr[6] lètu þá enn undan [at sinni[7], ok fóru upp í Sóknadal; [ok er hann kom þar, spurði hann at Rútr[8] ok LXXX manna voru komnir af Þelamörk, [ok vel vâpnaðir; voru nú komnir at þeirri orðsendíngu ok brèfum, er fyrr var nokkut afsagt, at hann hafði sent á Þelamörk[9]. Þessum tíðindum varð hann feginn; fór síðan ímót þeim upp í Rennabú[10].

[*Sigr Sverris konúngs*[11].

15. Eptir þat [vendi hann[12] aptr, ok hafði hann þá LXXX manna ok C. Þeir fóru þar til er þeir komu til Gaularóss[13], ok fluttust þar yfir á eikjum[14], ok þá XX menn, er fyrstir fóru [yfir ána[15], gerði konúngr í njósn, var þar Jón Gunnarsson[16] fyrir því liði. Bæjarmenn höfðu ok [senda njósn af sinni hendi; þeir voru VII[17]. [Þessir njósnarmenn fundust[18], ok urðu bæjarmenn drepnir V[19], en I

1) *v.* *G.* 2) þá, *b.* *G*, *B.* 3) býjarins, *F.* 4) býnum, *F.* 5) *v.* *G*; í móti Sverri, *F.* 6) Birkibeinar, *G.* 7) *v.* *G.* 8) *þannig hin*; Knútr, *A*; *frá* [ þar kom í mót þeim Hrútr *o. s. frv.* *F.* 9) eptir ritum þeim er fyrri var frá sagt, *G*; er Sverrir konúngr hafði sent þángat, *B.* 10) Rennabý, *H.* 11) *þannig B.* 12) sneri konúngr, *G.* 13) *þ. líka F*; Gaulardals, *G*; Gaularáss, *B*; í Gaularás, *H.* 14) ekjum, *F*, *B.* 15) *v.* *G.* 16) Jón Guðrúnarson af Sannesi (Sandnesi), *G*; Guðr. s. af Sandi, *F*, *B*; *Guðroðarson* af Sandi, *H.* 17) sent á njósn sinna vegna VII menn, *G.* 18) þeir hittust á njósninni, *G*, *B*, *F.* 19) IIII, *B.*

handtekinn, [einn[1] komst ibrot[2], [ok bar njósn[3] til bæjarins. Eptir þetta [fóru bæjarmenn út með fylktu liði[4], ok höfðu XII C manna; þá mælti Ívarr horti: nú skulum vèr beita þá brögðum, ok munum vèr fela lið vârt sumt; þvíat eigi þora þeir til at ráða, ef þeir sjá allt liðit. Síðan settu þeir DCC manna undir [garð einn[5], ok ætluðu at þeir skyldu koma í opna skjöldu, þá er saman lysti liðinu. Þeir tókust[6] ok þá dirfð [á hendr[7], at þeir tóku merki hins helga Ólafs konúngs, ok lètu bera ímóti Sverri konúngi, þar sem þeir voru lendir menn ok bændr; [en þat gafst með þeim hætti[8], sem nú megu þèr heyra. Sá maðr var settr á hestbak[9], [sem merkit bar[10], ok hleypdi eptir liðinu, ok fèkk eigi stöðvat hestinn, ok hleypir þá á[11] II menn; fèkk annarr þegar bana af, en annarr örkuml[12], svâ at aldregi varð heill síðan; en hann sjálfr fèll af baki, ok [felldi þá merkit niðr[13]. Konúngr fylkði liði sínu ímóti þessum [V hundruðum[14] manna, [er í fylkíngu vóru[15], ok skipaði saman bogmönnum sínum; neytti þá hverr [maðr vel[16] sinna vâpna. En þeir [er stóðu[17] undir garðinum[18] urðu

1) annar, *F.* 2) undan, *G.* 3) *frá fyrra* [ II komust at bera boð, *B.* 4) *þannig G*; fór bæjarliðit út við liði sínu fylkðu, *A.* 5) *þannig G, B*; garðinn, *A.* 6) tóku, *G.* 7) til, *G.* 8) gafst þat svâ, *G.* 9) *þannig G*; bak, *A.* 10) *b. F.* 11) uppá, *G, B.* 12) meiðsl, *H.* 13) fèll niðr merkit, *G*; misti þá merkit, *B.* 14) VI. C., *G.* 15) *b. B.* 16) *v. G, B.* 17) *þ. B*; krustu, *G, F*; lágu, *A.* 18) *þ. B*; *frá* [ lágu undir garðinum meðan, ok, *A.*

eigi fyrr varir við, en örvarnar flugu hvínandi yfir höfuð þeim. Komu þeir allir[1] fyrstir á flótta, er Ívarr þóttist sigrinn[2] undir eiga, [ok rann hverr at öðrum. Áttu þeir sigri at fagna[3], er úlíkligra mátti þykkja [fyrir liðsfjölða sakir[4]. [Felldi Sverrir konúngr[5] þar Ívar silki[6] ok Ívar Gjafvallsson, ok með þeim meirr en C manna. Tóku þeir þá merki [hins helga[7] Ólafs konúngs, ok báru í bæinn við[8] fögrum sigri, en höfðíngjar, þeir sem eptir voru, [hljópu híngat ok þíngat, sem mýs í holur[9]. Eiríkr Árnason [var þá[10] handtekinn. [Eptir þat tóku menn sèr grið til handa[11]; gengu þá margir með mjúklæti til Sverris[12], þeir er áðr höfðu [við miklum ofmetnaði blásit ímót honum. Sverrir konúngr þakkaði nú allsvaldanda guði ok heilagri[13] guðsmóður Maríu ok [hinum helga[14] Ólafi konúngi þenna fagra sigr, er guð gaf honum, ok [sýndi hann þat með því, at hann[15] gaf hverjum grið[16], er þess beiddi[17]. Hann þóttist þat sjá[18], svâ mart stórmenni, sem undan flýði[19], at þeir myndu svikum

1) *v. G.* 2) allt traust, *G.* 3) þá rann hverr at öðrum, ok höfðu þeir sigr, *G.* 4) *v. G.* 5) fèll, *G.* 6) selki, *G.* 7) *b. G.* 8) með, *G.* 9) flýðu undan víðs vegar, *G.* 10) varð, *G.* 11) tóku menn þá grið af Sverri konúngi, *G.* 12) *þ. B*; hans, *A.* 13) á mót honum gengit, en hann kunni þökk fyri guði almáttkum ok sælli, *G*; . . . . . e. k. kunni guði a. aufusu sigri þess er hann hafði þá fengit, *B*, en hann gaf . . . . aufusu (*o. s. f.*) *F.* 14) *b. G.* 15) *v. G.* 16) ok frið, *b. G*; er til hans kom ok, *b. G.* 17) krafði, *G, B.* 18) vita, *G, B.* 19) hafði komizt, *G.*

1177 vilja at honum koma, ef hann sæi eigi við. [Eptir þenna bardaga sendir konúngr[1] njósnarmenn út ok inn frá bænum; voru þeir ibrot[2] III nætr, ok komu aptr með þeim tíðindum, at Innþrændir höfðu samandregit [XX hundruð manna[3], ok voru þá á för komnir; en Ívarr hafði [L skipa[4] út við Rauðabjörg. [Ok er þessi tíðindi komu öll senn fyrir konúng, sá hann at eigi var[5] setu efni, [ok hljópu til skipa, ok fengu XI skútur[6]. Ok er þeir höfðu skamt róit út ífrá Hólmi, sá þeir flota Innþrænda, [er innan fór, ok komu síðan í skotmál við þá; en[7] L[8] byrðínga lágu við Rauðabjörg. [Konúngr vildi ekki við þá eiga, þvíat þat voru allt kaupmenn, [ok komnir or Vâgum[9]; en Sverrir konúngr[10] vildi aldri kaupmönnum mein gera, ef þeir kynni[11] meta sik. Þar lágu ok XII[12] skútur ok I[13] lángskip, er Ívarr hafði samandregit. Þeir flýðu þegar, [ok þorðu ekki við Birkibeina at eiga[14], en konúngr fór út til Agðaness, ok fundu[15] þar skútur IX[16], ok þegar lagði Sverrir konúngr at þeim. Þeir fengu þesskonar kaupferð,

---

1) þá sendi hann, *G.* 2) á brautu, *G.* 3) XX. C. m., *G*; tvær þúsundir, *F*; lið mikit, *B.* 4) lángskip, *H.* 5) Konúngr sá at nú var eigi, *G.* 6) fengu þeir skútur XI, ok hljópu þar á, *G.* 7) *v. G.* 8) XL, *G, F*; IX, *B.* 9) meðr Vogaflota, *F*; norðan or Vogum, *B.* 10) *frá fyrra* [ ok voru þat ekki nema kaupmenn; vildi konúngr ekki við þá eiga, þvíat hann, *G.* 11) kunnu sjálfir, *G.* 12) XI, *G, B.* 13) *v. G.* 14) er þeir sá Birkibeina, *G.* 15) hittu þeir, *G.* 16) XI, *F, H.*

at þeir seldu klæði sín ok vâpn[1] ímót knúskan ok svívirðíng[2]; lètu ok allt laust, þat er þeir höfðu fèmætt; [konúngr lèt þessa menn eigi drepa[3]. Þaðan fóru þeir út til Fólsknar[4], ok fundu þar byrðíng, er Ívarr átti, ok [var á til VI marka[5] gulls, [ok tóku[6] þeir þetta fè. [Eptir þat[7] fóru þeir suðr á Mæri, ok fundu[8] þar [XII skútur eða XIII[9]; [var þeim mönnum settr hinn sami markaðr sem hinum fyrrum[10], þvíat hvârirtveggju [ætlaðu til Ívars at fara[11], ef eigi kæmi tröll ímilli húss ok heima.

*Gefit Sverri konúngs nafn á Eyraþíngi*[12].

16. Eptir þetta snýr konúngr norðr aptr til Þrándheims[13], ok er þeir komu til bæjarins, gerðu bæjarmenn sem samði[14] við konúng, hríngðu um allan bæinn[15], ok gengu með processíu[16] ímóti honum. Síðan lèt konúngr kveðja Eyraþíngs[17], ok nefndi til XII menn or hverju fylki þeirra VIII[18], er fyrir innan Agðanes eru; ok er þeir komu, þá var Sverri[19] gefit konúngsnafn á þessu[20] átta fylkna þíngi, ok dæmt með vâpnataki, ok svarit honum land ok

---

1) en fengu, *b. G.* 2) illleikni, *hin.* 3) *v. G.* 4) Fólksnar, *B.* 5) *þannig G, F*; þar voru á VI merkr, *A*; á fjárlutr til VI m. g., *B.* 6) *þannig G, B, H*; síðan taka, *A.* 7) þaðan, *G.* 8) hittu, *G.* 9) XIII skútur, *G, F*; XIIII, *B.* 10) höfðu þeir ina sömu kaupför ok inir fyrri, *G.* 11) vildu til Ivars, *G.* 12) *þ. B.* 13) kaupángs, *B.* 14) sæmði, *G.* 15) staðinn, *B, H.* 16) processionem, *G, F, B.* 17) móts, *F*, stefna Eyrar þíng, *B.* 18) *v. G.* 19) *þ. B*; konúngi, *A.* 20) ð, *B.*

1177 þegnar eptir landslögum fornum. [þessi tíðindi[1] fóru brátt, ok komu [fyrir Magnús konúng ok Erlíng jarl[2]; sömnuðu þeir þegar liði, ok hèldu[3] norðr með landi. Sverrir konúngr spyrr þetta, ok vildi eigi bíða, tók skip sín ok menn, ok fóru út í Orkadal; settu þar upp skipin, ok lögðu eld í, ok brendu upp öll. Síðan sneru þeir [til Upplanda[4]; ok er þeir komu [yfir Dofrafjall[5] í[6] Guðbrandsdali[7], áttu þeir þíng, ok [af þínginu[8] fóru þeir þar til[9] er þeir komu til þess vatz, er Mjörs[10] heitir; en í Mjörs var samnaðr lendra manna, ok höfðu þeir XVIII skip. þar voru III lendir menn, Hallvarðr[11] af Sástöðum, Sæbjörn[12] Sindrason ok Ívarr gæslíngr[13]. þeir höfðu annan samnað á landi, þat voru XII hundruð manna; en Sverrir konúngr hafði CC manna. Hann [leitaði ráða við[14] lið sitt, hversu hátta skyldi; [en allir vildu[15] berjast. Konúngr svarar svâ: eigi sýnist mèr [sem yðr muni þetta vel hæfa, þvíat þetta er mikit ofrefli við at eiga[16]; ætla ek öðruvís vænna minna harma at [reka, heldr en gánga í slíka snöru; þvíat eigi er míns föð-

---

1) þau nýmæli, *G*, *B*. 2) til eyrna Magnúsi k. ok Erl. jarli, *G*. 3) fóru, *G*. 4) á Upplönd, *B*. 5) *þ. F*, *B*; upp í Dofrafjall, *A*; *v. G*. 6) *þannig G*; upp í, *A*. 7) þar, *b. A*. 8) *þannig G*; at þíngum, *A*. 9) *frá* [ þaðan af fóru þeir þíngum, til þess, *F*. 10) Mjórs, *G* (*hèr ok síðan*). 11) Ivarr, *B*. 12) Snæbjörn, *B*. 13) gæslíngr, *B*. 14) spurði þá eptir, *b. G*. 15) ok vildu allir brjóta bág við ok, *G*. 16) þetta þannin sem yðr, *G*, *B*.

ur eða bræðra at hefndra, ok margs forellris, at ek sè[1] við jörðu lagiðr eða rekinn[2] á flótta[3]. Síðan fóru þeir þaðan at[4] konúngs ráði [II dagleiðir[5]. Konúngr [gerði LX manna[6] fyrir á Haðáland til [vatz þess er Rönd heitir[7], ok tóku þau skip öll sem þar voru. En er konúngr kom þar, þá voru fyrir III samnaðir, CCC[8] í [tveim stöðum[9], en D[10] í einum stað. Þá skipti konúngr liði sínu í helmínga, ok hafði hann sjálfr C manna, en annat C sendi hann til bús Özurar balla[11], ok [ræntu þeir þar[12] til XX marka gulls; ok meðan þeir voru íbrot, vildi konúngr eigi ekki athafast, ok rèð hann þá til [atgöngu við því liði, er þá var eptir, ímóti þessum samnaði, er CCC voru í. Eptir þat bjöggust hvârirtveggju við með slíkum föngum er til voru, ok gengust síðan ímóti. En[13] þegar er Birkibeinar ofruðu vâpnum sínum, þá [laust hræzlu í hug[14] búandkörlum; tóku þeir betra ráð, báðu sèr griða, [ok köstuðu vâpnum, ok sýndu svâ hræzlu[15]. Konúngr gerði[16] sem fyrr[17], gaf hverjum manni

1) *þannig B*; sjá, *A*. 2) *þ. B*; koma, *A*. 3) *frá* [ hefna, en brjótast við þetta ofrefli, *G*, 4) úvilja sínum en, *b. G, F, B*. 5) dagleið, *B*. 6) sendi á njósn XL manna fram, *G ok hin*. 7) vatzins Ravnd, *G*. 8) manna, *b. B*. 9) í hverjum safnaði tveggja, *F*. 10) *þannig G*; V, *A*; V C, *B*. 11) *þannig P*; hisla, *A*; brisla, *F*; hilsa, *B*; *v. G*. 12) tóku þeir þar vel, *G, B*. 13) orrostu við þá er fyri voru, CCC, ok, *G*. 14) skaut þeim þegar skelk í bríngu, *G, B*. 15) *v. G*. 16) nú, *b. G*. 17) hann var vanr, *B*.

1177 grið er [bað. Ok er aðrir, þeir sem í samnaði höfðu verit, sá, hversu þeirra [félagum hafði tekizt[1], þá sættust þeir ok við konúng; var þá þeirri hlýðni játat[2], sem aldri var fyrr á Haðalandi, ok var þar þíng stefnt, [skyldi konúngr eiga sáttarfund[3]. [Þessi sáttarfundr[4] var eigi ætlaðr prettalaus af búondum, þvíat þeir [sá, at konúngr hafði lítið lið[5], ok ætluðu þeir konúngi atgöngu at veita á þínginu. En þann dag er þíng skyldi vera, komu þeir þar, er [farit höfðu at taka[6] bú Özurar; var þá meira konúngs lið en búanda[7]; þorðu[8] þeir þá [ekki vætta annan veg at gera, en[9] konúngr vildi. [Lagði konúngr slíkt allt á hendr þeim, sem honum sýndist[10], [játuðu þeir því öllu[11], [er konúngr mælti til[12]; var þá kallat sem þeir væri sáttir; en þó reyndist sem fyrr, at nokkur[13] skollr var í skapi búandkarla[14]. Tóku þeir þat ráð, at senda Ormi konúngsbróður orð, at hann [skyldi fara[15] utan or Víkinni at konúngi, [ef hann mætti[16], þvíat hann hafðist þá á skipum við; [þeir lètust myndu sækja ámóti, ef hann vildi undan[17]. Síðan lèt Ormr [miklu

1) fóstbræðr höfðu farit, *B.* 2) *frá fyrra* [ þess beiddist, þeir sættust ok við konúng, er í öðrum voru safnaðinum, ok jáðu þeir þá lýðni, *G.* 3) ok laginn sættarfundr, *F*, *B.* 4) en sá fundr, *G.* 5) vissu at konúngr var fáliðr, *F.* 6) tekit höfðu, *G.* 7) bændr ætluðu, *F*, *B.* 8) urðu, *G.* 9) öllu því at já sem, *G*; ekki orð í aðra skál at leggja en, *F*, *B.* 10) at væri, *b.* *G.* 11) ok luku allt slíkt er hann kvað á, *b.* *F.* 12) *b.* *B*; *v.* *A*, *F.* 13) *v.* *G.* 14) bönda, *G.* 15) færi, *G.* 16) *b.* *F.* 17) *v.* *G.*

liði samna, ok lèt[1] stór skip draga or því vatni, er heitir Tyrvi[2]; ætlaði síðan uppí Rönd at Sverri konúngi; konúngr var þar fyrir á skipum. [Þá var svâ gíslum skipat fyrir[3], at á Heiðmörk voru XVIII[4] skip í Mjörs[5]. Þetta spurði Sverrir konúngr, hann [gerði þá ráð sitt: hann[6] lèt sem hann myndi fara[7] ámót Ormi, ok gerði[8] þángat alla njósn sína. Síðan fór hann í skóg, ok XL[9] manna hans með honum ok felldu viðu. Engi maðr vissi, hvat þat skyldi; en hann hafði þat boðit sínum mönnum, at þeir skyldu [eptir honum[10] koma[11], ok svâ gerðu þeir, [at þeir komu þar sem hann var, ok voru þar[12] um nóttina. En í dagan um morgininn kváðu við lúðrar, stóð þá upp[13] allt liðit, engi vissi þó, hvat er konúngr vildi starfa[14]. [Ok er menn voru klæddir, skipaði hann liði sínu, bað þá draga skip þau, er voru í Rönd V rastir[15], þar sem aldri var fyrr farit með skip. Nú þurfti eigi at spyrja, hvat þessi viðr skyldi, er konúngr lèt fella[16] í skóginum, ok voru þat hlunnar þá. Þeir lèttu eigi [þessi ferð[17] fyrr en þeir komu í Mjörs; ok er þeir

---

1) *v. G.* 2) Tyrfi, *B.* 3) var þá svâ til sett, *F.* 4) XIIII, *hin.* 5) allt, *b. G.* 6) *v. G.* 7) út, *b. G.* 8) sendi, *G.* 9) LX, *B.* 10) allir til hans, *G.* 11) *frá* [ koma eptir sèr um kveldit, *F*; e. h. breyta, *B.* 12) allir samt, *G.* 13) ok klæddist, *b. G.* 14) at hafast, *G, B.* 15) Konúngr segir þá, at skip þau sem í Ravnd voru skyldi draga eið mikit, *G*; skipti hann liðinu til þess starfs, er á úvara kom alla, at draga (*o. s. frv.*) . . V mílur, *F.* 16) fyrra dag, *b. G.* 17) *v. G.*

komu þar, veittu þeir atróðr vânu bráðara þeim lendum mönnum er þar voru fyrir. Þeirra viðrskipti lauk [á þann veg[1], at sá fèkk gagn er guð vildi. Sverrir konúngr rak íbrot alla[2] sína fjandmenn. [En er þar var hreinsat[3], fór konúngr til Hamar-kaupángs, ok átti þar þíng[4]; mælti þar engi maðr ímóti hans vilja[5], lendir menn flýðu[6] [fyrir konúngi[7] suðr í vatnit[8], var þá lángt ímillum þeirra, [þvíat Mjörs er svâ mikit vatn, at þat er líkara sjó[9].

*Viðreign Sverris konúngs ok lendra manna*[10].

17. Hallvarðr á Sástöðum [ok aðrir lendir menn höfðu[11] mikla veizlu á Sástöðum, ok bauð [hann öllum til, er þiggja vildu, at þeirra flokkr yrði sem mestr. Var þar þann tíma[12] kirkjumessa; þar voru CCC manna at því boði, en þó komu fleiri en boðit væri[13]. Birkibeinar sóttu ok til kirkjumessu[14], ok bjöggust þá [til orrostu: fylktu hvârirtveggju liði sínu[15], gengust ímóti [síðan ok skutust á; ok skjótt lögðu lendir menn á flótta ok lið þeirra; voru drepnir VII menn, en V handteknir. Nú taka þeir veizlu[16], er óboðit komu; en hinir voru

1) svâ, *G, B.* 2) *v. G.* 3) *v. G.* 4) við bændr, *b. F.* 5) en þó at, *b. A.* 6) flýði, *A.* 7) *v. G*; þá flýðu þeir, *b. A. ofaukið.* 8) en konúngr var norðr, *b. B.* 9) *v. G.* 10) *þannig P*; Veizla á Sástöðum, *A*; Ferð Sverris konúngs, *B.* 11) hafði, *G.* 12) mörgum til; var þar þá, *G.* 13) var, *G.* 14) veizlunnar, *G*; kirkjudags, *B.* 15) hvârirtveggju til bardaga, *G.* 16) ok lauk svâ, at lendir menn flýðu, ok fèllu af þeim VI menn, en V voru handteknir; tóku þeir veizluna, *G.*

brott elltir, er búa lètu. [þeir runnu til[1] Orms konúngs bróður, ok sögðu [sínar farar lítt vegligar. Síðan lèt Sverrir konúngr [eptirleita við[2] þá menn, er handteknir voru, hvar skip þeirra væri fólgin; ok þat sögðu þeir. Eptir þat [tók konúngr[3] skip þau öll, sem voru í Mjörs, bæði smá ok stór. þar fèkk konúngr fjárhlut allra lendra manna, ok þeirra er undan flýðu, svâ ok allar landsskyldir, þær er Magnús konúngr ok Erlíngr jarl ætluðu sèr[4]. Nú hafði Sverrir konúngr eignazt öll[5] Upplönd ok Eystridala; varð jafnan[6] þeirra hlutr betri er til hans hnigu, en hinna er frá beittu[7]. Ok svâ sem menn sá [þat, at hans afli tók vaxa[8], ok meirr af vitrligum ráðum en af fjölmenni, þá þótti æ[9] því fýsiligra til hans at stunda. [Samnast nú lið til hans, svâ at hann hafði[10] CCC manna. Eptir þetta komu þeir Magnús konúngr ok Erlíngr jarl í Víkina, ok heyrðu þessi tíðindi frá Birkibeinum [er nú voru sögð[11]; samna sèr[12] nú liði [af nýju um alla Víkina, ok fengu svâ mikit lið at þat var [úgrynni herliðs[13]. Ok er Sverrir konúngr [sá þat, at honum var þetta

---

1) fóru þeir er flýðu á fund, *G.* 2) at grafa við, *F; spyrja*, *B.* 3) tóku konúngsmenn, *F.* 4) *frá þriðja* [ honum sínar úfarar. Konúngr náði þá öllum skipum þeirra, er í voru Mjórs. Konúngr fèkk þar ok stórfè, er þeir höfðu leift honum, inir lenðu menn, *G.* 5) *v. G.* 6) æ, *F.* 7) honum viku, *G*; í móti stóðu, *F.* 8) at afli hans vóx, *G.* 9) ok, *G.* 10) dróst honum þá svâ liðit, at hann hafði aukin, *G.* 11) *v. G.* 12) þeir, *G.* 13) úvígr herr ok ofrefli, *B, G; frá fyrra* [ miklu, ok ætluðu at stefna at Birkibeinum, *G.*

1177 eigi ráð at bíða or stað þessa háska ok hins mikla ofreflis[1], gerir (hann) nú sitt ráð, hversu með skal fara.

*Af Sverri konúngi ok Sygnum*[2].

18. Nú býr Sverrir konúngr sína ferð ofan í Sogn, ok ætlar til Björgynjar. Ok með[3] því at almáttigr guð ok hin helga mær[4] María hafa margan fagran sigr gefit Sverri konúngi, þá kann vera, at öfundarmenn [ok úvitrir[5] vili eigi trúa vârri sögu[6], ok kalli at vèr munim vera[7] eigi sannfróðir, ef vèr segjum hann jafnan[8] hafa sigr haft. Nú skulum vèr hnekkja þeirri tortrygð, ok sýna einurð[9] vârrar frásagnar, [ok segja bæði ljúft ok leitt[10], þvíat margan vílstig[11] varð hann at gánga[12], ok hans menn [at troða[13], áðr [bæði væri rekit svâ margra ok stórra harma, sem hann átti þeim feðgum at gjalda[14], [ok hann fengi sína föðurleifð sótta af slíku stórmenni sem ímót var, en eigi meira liði en hann hafði[15]. Ok þóat hann hefði jafnan mikil [vankvæði ok vâs fyrir erviðis sakir, þá kom hann þó aldri í slíka raun bæði af mæði ok illviðri, svefnleysi ok matleysi[16], sem í þeirri

1) ógrynnis liðs, *B*; *frá* [ spyrr þetta, sá hann at eigi var setuefni, *G*. 2) *þannig P*; Frá ferð Sverris konúngs af Vors, *A*. 3) af, *G*. 4) *b. G*. 5) eða fávísir, *G*.; *v. F*. 6) frásögn, *G*. 7) *v. G*. 8) ávalt, *G*. 9) *þannig G*, *B*; einarð, *A*; einorð, *F*. 10) *b. G*. 11) villistíg, *G*, *F*. 12) troða, *F*. 13) *b. G*. 14) hann hefði rekit sinna harma á þeim feðgum, *G*; 15) *frá* [ áðr hann gæti með sverði sótt sína föðurleifð mót M. k. ok Erl. ok rekit sinna harma, *F*. 16) *frá* [ vandræði, þá kom þó aldri svâ mikill ákafi allskonar úhæginda á hönd Sverri konúngi, *B*.

ferð. Nú lyptir hann ferð sinni[1], ok ætlar til Björgynjar; en er hann kom í Sogn, þá höfðu skjótara farit njósnir hans fjandmanna, ok mætti hann þar miklum samnaði. [Varð þat hit fyrsta, er hann kom ofan við lið sitt í Sogn, at[2] leið hans lá um nokkut einstígi, þat sem á var á aðra hönd svâ ströng, at hún fèll öll við[3] forsum, [svâ at ekki kvikt mátti yfir komast nema fljúgandi fugl[4]; [á aðra hönd voru flugabjörg[5], þau er þar mátti ok engan veg komast. þetta einstígi var svâ þröngt, at [eigi mátti framgánga meirr en einn senn[6]. þar sátu bændr yfir uppi á hömrum [með mikinn samnað[7], ok höfðu þar stórt[8] grjót ok stóra viðu, ok voru búnir at fella ofan, [þegar er lið konúngs gengi[9] undir[10]. Ok er konúngr sá þetta, lèt hann [koma ráð ímót ráði[11], ok mælti svâ við lið sitt: nú skulu þèr eigi [ljá færa[12], at þessir menn megi yðr mein gera; en [þèr skulut þó við þá glettast í slíku sem þèr megut viðkomast, en[13] ek mun vita, ef ek koma nokkurum[14] stökk í lið þeirra. Síðan fór hann ok

1) *frá* jafnan: þolat mikit vâs ok erviði, þá hafði hann þó alldre þvílíkt fyrr þolat, fyri margra luta sakir, sem í þeirri ferð, er nú munum vèr frá segja. Býr hann nú ferð sína, *G.* 2) *v. G.* 3) *v. G, F.* 4) svâ at ekki komst utan fuglar, *G.* 5) annars vegar voru flugahamrar, *F.* 6) einn maðr mátti í senn gánga, *G.* 7) *v. G.* 8) *v. B.* 9) Birkibeina; ef þeir gengi þar, *G.* 10) niðri, *b. P.* 11) ráði mæta, *G, B.* 12) svâ fara, *G.* 13) *v. G*; þèr skulu færa yðr upp undir bergit, *B.* 14) *v. G.*

1177-8

nokkurir menn með honum, þar sem hann mátti viðkomast, uppá fjallit, ok kom þá á bak [þeim, ok á þá óvara[1]. [Komu þeir[2] þegar á flótta, en nokkurir menn voru drepnir af þeim. Síðan fór[3] [hann í bygðina með lið sitt, ok voru[4] þeir inní Leradal[5]. En um morguninn urðu þeir eigi varir við, fyrr en Özurr balli[6] kom þar farandi með V skipum ok XX. Birkibeinar tóku þegar til vâpna sinna, ok gengu ímót þeim; en [þóat skipamenn[7] hefði lið mikit, þá treystust þeir eigi upp at gánga, þvíat þeim sýndist [úhreint fyrir[8], þar er Birkibeinar stóðu á landi uppi [við sjálfa höfnina[9], ok hèldu ífrá[10].

[*Frá ferðum Sverris konúngs*[11].

19. Nú sá konúngr at ekki mátti þar skipum ná, [er allt var njósn fyrir komin[12], ætlar hann nú at fara upp á Vors[13], ok koma svâ ofan í Björgyn. Þetta var mikil háskaför á vetrardegi, þvíat þat er mikill fjallvegr, ok var þar vân mikilla snjóva. Þat ráð tóku þeir, þvíat þeim varð bardaga þá auðit í því sinni. Síðan fóru þeir upp á Vors, ok [brást þeim þar eigi margfaldr háski[14]; var sá [hinn fyrsti[15], at þá[16] höfðu saman samnazt fjandmenn þeirra,

1) bændum úvörum, *G.* 2) bændr komu, *G.* 3) fóru, *G.* 4) *o. G.* 5) Veradal, *B.* 6) *þannig G*; hisli, *A*; brisla, *F*; bilzi, *B.* 7) þótt Össurr, *G.* 8) úreint í höfninni, *G, B.* 9) með vâpnum, *G.* 10) þeir frá, *G.* 11) *þannig P.* 12) þvíat allstaðar fóru njósnir, *B.* 13) Vavrs, *G.* 14) ok fengu þar margfaldan háska, *F.* 15) einn, *G.* 16) þar, *G.*

[Vorsar allir ok margir Sygnir[1], Hardengr[2] ok Sunnhörðar[3], var þat úvígr herr. Kom þetta lið allt á úvara Birkibeina Símuns messudag, er konúngr sat [undir[4] matborði[5], [ok ætlaði síðan at ferðast. Ok er þeir urðu varir við[6], hljópu þeir undan borðum[7], ok herklæddust, [ok biðu liðsmanna sinna, þvíat þeir höfðu eigi allir eitt herbergi um nóttina. Ok er allt kom saman liðit[8], [fylktu Birkibeinar liði sínu ok svâ bændr[9]. En þóat Birkibeinar væri liðfærri, þá vildu þeir eigi at síðr tilráða, ok gerðu svâ harða [hina fyrstu[10] atgöngu, at þegar hrökk fyrir [fylkíngarbroddrinn búandanna[11]. Þeir flýðu yfir árgljúfr nokkur; [ok þar er bændr flýðu yfir ána, voru nær nokkur gljúfr upp ífrá þeim, ok mjótt yfir[12], ok skutust þeir á; [fóru nú[13] sínum megum hvârir upp með ánni, ok vildu bændr komast fyrir þá, [en síðan í opna skjöldu[14]. Gljúfrin voru æ því breiðari, er ofarr voru, ok vatn at ofanverðum; var þeirra ok því lengra ímilli, [er þeir höfðu lengr farit[15]; en þá tók at nátta, ok fal þá sýn ámilli þeirra, svâ at þá mátti ekki at hafast. Var þá engi kostr at fara til bæjarins, þvíat allt

1) Vavrsar, *G.* 2) *þannig A, G*; Harðengir, *B.* 3) *þannig G*; Sunnhorðr, *A.* 4) *þannig G*; um, *A.* 5) *frá* [ at mat, *B.* 6) *v. G.* 7) *þannig B*; borðinu, *A.* 8) *b. B*; fólkit, *F.* 9) skutu Birkibeinar þá á fylkíngu, bændr fylktu ok, *G.* 10) *v. G.* 11) bænda, *G*; *frá* [ fylkíng bónda, *F*; fylkíngar oddr þeirra bændanna, *B.* 12) *v. G.* 13) *v. G.* 14) at, *G.* 15) *v. G.*

1177+8

var njósn fyrirkomin áðr, ok var í Björgyn svâ mikill styrkr fyrir ok mannfjöldi, at Birkibeinum var [þat úfært[1]. Nú vildi hann aptr hina sömu leið fara; tók nú síðan V[2] leiðsögumenn, þá er vegvísastir voru; þurfti þá ok þess við, þvíat [veðr gerði á svâ íllt, at sjaldan verða slík; kom þá svâ mikill snjór, [at þat var or dæmum. Þat er ok skjótt at segja, [at þeir lètu þar[3] meirr en[4] XX ok C hesta við gylltum söðlum, [ok margskonar gripi í skikkjum ok vâpnum ok mörgum öðrum góðum hlutum. Þat fylgði ok þessu, at[5] þeir vissu ekki til, hvar þeir fóru; voru ok svâ matlausir, at eigi fengu þeir vatnit heldr en annat; þat var VIII dægr, at þeir bergðu engu nema snjó. Gerði ok svâ íllt[6] veðr hinn næsta dag fyrir allraheilagramessu, sem úlíkligt mun þikkja [þeim er til hlýða þessar frásagnar[7], at af því fèkk einn maðr bana, er veðrit kastaði honum, ok braut í sundr hrygginn í honum í þrimr stöðum; ok sá einn var þá til, er bylirnir komu, at kasta sèr í snjóinn, ok halda skjöldum yfir sik [sem fastast[8]; ok þá lögðust leiðsagnarmenn

---

[1]) þar úvært, *B*. [2]) II (*tvo*) *G*. [3]) *þannig F*; þar sem þeir höfðu, *A*; *ok síðar: eptir* gripi lètu þeir þar, *A*. [4]) *frá fyrra* [ þá gerði veðrit svâ mikit með snæfalli, at þat var með fádæmum. Varð skjótast frá at segja, at þar lètu þeir meir en C, *G*. [5]) ok beizlum ok öðrum margskonar gripum góðum, *G*, *B*; ok bitlum ok margskonar gripi í klæðum ok mörgum öðrum lutum, *B*. [6]) mikit, *G*; kránkt, *F*; stórt, *B*. [7]) er frá er sagt, *G*. [8]) *v*. *G*.

fyrir, þvíat þá vissu þeir eigi hvar þeir voru komnir; var þá ok svâ myrkt, at þá mátti ekki fyrir sjá. [Var liðit farit[1] af öllu saman sulti ok mæði, en sumir af kulða[2], [þá var svâ fyrir komit magni þeirra[3], at engi vildi lengra fara. Ok er [helzt mátti nokkut sjá frá sèr, sá þeir at þar voru fyrir brattir hamrar[4], er þeir voru atkomnir. Þá kom illr kurr í[5] lið konúngs: sumir mæltu, at þeir myndu gánga [ofan fyrir hamra[6], ok þola eigi lengr svâ mikla kvöl, ok þá myndi skjótast umráða: sumir [mæltu, at meiri framkvæmð[7] sýnist oss til fornra minna at taka, ok gera eptir dæmum hvatra manna, þeirra er sjálfir bárust vâpn á, ok drápust, heldr en þeir vildi [nauðir þola lengr[8].

*Tala Sverris konúngs[9].*

20. Nú tók konúngr til orða, ok beiddi sèr hljóðs; hann mælti svâ[10]: ek hefi athugat[11], sagði hann[12], yðarri ráðagerð[13], ok [sýnist mèr úvænlig, ok[14] í þessi ætlan dugir ekki vetta. Ef þèr gángit fyrir hamra ofan, ok far-

1) Voru þeir þá ok svâ farnir, *G*; var þá ok svâ fyrikomit liðit þeirra, *B*; ok var liðit þá at þrotum komit, *F*. 2) ok illviðri, *b. B.* 3) *v. G.* 4) fyrst rauf í, sá þeir fyri sèr bratta hamra, *G*; nokkut lítit rauf í veðrit *o. s. f.*, *F.* 5) *þannig G*; á, *A.* 6) fyrir hamra fram, *B.* 7) sögðu svâ atferðligra, *G*; drengiligra, *B.* 8) nauðgir þola pínu til dauða, *B*; var þá illr kurr með þeim, *b. G.* 9) *þannig G.* 10) sem guð kendi honum, *G, B, F*, þá er hann sá at þat myndi eigi fyrifarast, *b. B.* 11) um hríð, *b. P.* 12) segir konúngr, *G.* 13) ræðu, *G, B.* 14) sýnist mèr auðsæ allmikil spjöll á yðarri ráðagjörð, þvíat, *G*; auðsýn allmikil spell á vera, *o. s. f. F, B.*

it yðr sjálfir, [þat er[1] ærra manna tiltekja[2], þeirra er eigi kunnu fótum sínum forráð. En með því at þèr vilit sjálfir [vâpn á berast[3], þat er heiðinna manna siðr[4], þeirra er ekki vita til guðs; en vèr erum kristnir menn[5] ok kristinna manna börn, ok vitum vèr at sá maðr, er sèr ræðr sjálfr[6] bana, á enga vân til guðs. Nú er þetta fjandans[7] áminníng[8], ok skulum vèr eigi hans vilja gera; skulum nú snúast til guðs miskunnar, ok látum oss þat í hug koma, [þóat oss þikki strángr[9] guðs bardagi, at hann mun eigi þar mikit áleggja, er lítit er tilgert[10]. Nú iðrumst vèr synða vârra, ok vitum[11], at [af voru illlífi erum vèr barðir[12] af guði, en eigi af grimð[13] hans[14]. Því skulum vèr með mjúklæti ok lítillæti[15] til hans [lúta, at[16] sjálfr kendi[17] hann svâ: nemi þèr af mèr, þvíat ek em lítillátr ok mjúklyndr[18] í hjarta, ok munu þèr finna hvíld [sálum[19] yðrum. Nú má hverr maðr þat sjá, at betra er at lúta með [góðum hlutum[20] til guðs miskunnar, en hrapa með úráðum[21] í fjandans hendr. Vil ek, at því játi þèr, at [þat sama skulu þèr allir vel undir-

1) eru þat, *G.* 2) brögð, *G*; tiltæki, *F.* 3) *þ. B, G*; vâpnum berjast, *A.* 4) háttr, *G, B.* 5) *v. G.* 6) *v. G.* 7) fjanda, *G.* 8) ákast, *F.* 9) þó eigi gagvígr at verða, *B.* 10) afgert, *B.* 11) fyrirstöndum, *F.* 12) *frá* [ aflíði illviðri þat er vèr erum barðir með, *B.* 13) grimmleik, *G.* 14) er engi er, *b. G.* 15) linu hjarta, *F.* 16) snúast, þvíat, *G.* 17) mælti, *G.* 18) mjúklátr, *G, B*; mjúkr, *F.* 19) öndum, *G.* 20) auðmykt, *F.* 21) fólsku, *F.*

gánga, er ek vil upptaka[1]. Nú skulum vèr allir kalla til guðs miskunnar[2] ok [sællrar Maríe[3] ok hins helga Ólafs konúngs með [helgum bænum[4]. Lauk konúngr svâ sínu máli, at þegar áttu þeir [at handfesti ok vâpnatak at þessu heiti, er konúngr mælti[5] fyrir. En svâ mikill ákafi var at hvassleik veðrsins, þá er konúngr [tók at mæla[6], at varla námu þeir[7] er næstir voru, ok þá er hann hafði fyrirskilt heitinu, [hafði guð svâ bráða ok háleita miskunn gert við þá[8], at þegar[9] þóttist engi[10] vita, hvaðan vindr var á; gerði[11] þegar heiðviðri ok sólskin ok svâ blítt veðr, sem um mitt sumar[12] væri. Nú kendu þeir, hvar þeir voru komnir, ok höfðu þeir þvers farit frá því sem[13] þeir skyldu; en svâ var lið konúngs dasat[14], at XX[15] [menn fèllu niðr dauðir á skamri stundu. Nú herðust þeir vel við, þótt förin yrði sein, ok komust[16] til sætra[17] nokkurra, köstöðu sèr niðr ok tóku hvíld. [Eptir þetta[18] leitaðu þeir[19] at taka sèr eld, þvíat ær-

1) heit þat, er ek ræð upp at taka, skulú þèr allir undir gánga, *G*; halda, *B*, *F*. 2) *v* *G*. *B*. 3) *þ*. *G*; heilagrar M., *A*; hans háleitu móður, *F*. 4) bænahaldi, *B*. 5) handfesti at heitinu, ok allir skyldu undir þat gánga, sem konúngr sæi, *G*. 6) tala, *G*. 7) *frá* [ hóf málit, at þeir einir, *F*. 8) þá gerði guð svâ bráða miskun, *G*. 9) enginn, *G*. 10) *v*. *G*. 11) þá, *b*. *G*. 12) skeið, *b*. *G*. 13) *þannig* *G*; er, *A*. 14) mjök, *b*. *G*. 15) XXX, *B*. 16 *þannig* *B*, *G*; voru dauðir niðrgrafnir á einni lítilli stundu. Nú leita þeir bygða; var þó för þeirra sein ok ómjúk, fóru nú ok komu. *A*. 17) *þannig* *F*; setra, *A*; sættra, *G*. 18) þá, *G*. 19) um, *b*. *G*.

in[1] var þurft til, ef fást mætti; en þat var nær miðri nótt. Svâ voru þeir mjök farnir, at engi var tilfærr at taka eldinn. Nú var þat sem fleira, at í einn stað var [til at taka[2] með guðs miskunn; þvíat þar lá lífit þeirra við, ef eigi fengist eldrinn; ok fèkk sá eldinn tekit, er mestri stýrði giptunni í þeirra flokki, ok öll ráðagerðin fylgði, en þat var Sverrir konúngr; tók hann þenna eld með[3] tinnu, ok tendraði þar við kerti; fèkk síðan í hönd sínum mönnum; gerðu þeir þaraf mikinn eld, ok þurkaðu[4] sik[5]. Þar var einn lítill bær [skamt þaðan[6], ok fór konúngr [til þess búanda [er þar bjó[7], [ok var hann þar um nóttina; en sumt lið konúngs fór í meginbygðina. En er konúngr sá at lið hans var [nært með því öllu sem til var[8], þá fór hann sjálfr, ok þat af liði hans, er helzt þótti fært, at halda vörð[9], þvíat einstígi var þar þat eitt, er þeir voru allir hirðir, ef þess væri vel gætt. Konúngr var á því varðhaldi [til hins IIIja dags[10]; en [þá vildi hann fara í meiri bygð, [þar er lið hans var sumt[11]. Mikil torfæra var þar at fara; ímilli bygðanna [var mikill fjallvegr, eðr elligar var at fara um nokkura

1) yfrin, *G.* 2) tilsjáin, *G.* 3) við, *G.* 4) ok vermdu, *b. B.* 5) þarvið, *b. G, B.* 6) *b. G.* 7) *b. B*; ok kom þar í hanagalan, *b. F.* 8) nóótt, *B.* 9) *frá fjórða* [ þannin. Um myrgininn fór konúngr á njósn við sumu liðinu, því sem fræknast var, *G.* 10) II (tvær) nætr, *G.* 11) við liðinu, *G, F*; *frá fyrra* [ en síðan fór hann í megin bygðina til sinna manna, *F.*

bratta hlíð[1], svâ at þat var mikill mannháski. Lið konúngs [mátti þá ekki fara um fjöll uppi[2], þvíat þegar lagði á hin sömu illviðri, er þeir komu í bygðina[3].

*Frá Sverri konúngi* [*ok Þorgrími*[4].

21. Síðan fór Sverrir konúngr upp á Valdres, ok tók þar veizlur at [búm sínum[5], ok þaðan í Guðbrandsdali, ok var honum þar búin hálfsmánaðar veizla at búi konúngs á Steig, ok öllu liði hans. Hèðan ífrá var enn eigi um kyrt at sitja: bændr XII voru þeir á Heiðmörk, er saman sömnuðust at því, at hverr þeirra skyldi ráða fyrir [C liði[6]: [þat voru menn Magnúss konúngs or Hamarkaupángi[7]. Ok þá er konúngr [varð varr við slík tíðindi[8], bjó hann ferð sína or dölunum, ok vildi eigi þar verða inni byrgðr[9], ef þeir kæmi fyrir dalsmynnit. Sá[10] bóndi [er nefndr Þorgrímr[11], er fyrir var búondunum, ok [æsir var þessa samnaðar[12]. Konúngr bar skyndi at um ferð sína, þvíat sjálfr vildi hann heldr bera njósn, en aðrir[13] fyrir honum. [Þat var eina nótt, at konúngr fór sjálfr frá[14] liði sínu, þvíat hann vildi eigi at allr flokkr hans dveldist til þessarar sýslu. Hann

---

1) berghlíð, *B.* 2) vildi eigi á fjöll, *B.* 3) *frá fyrra* [ *v. G.* 4) ok bændum, *P*; frá bændum, *G.* 5) konúngs búum, *F.* 6) hundraðs liði, *G*; h. flokki, *B.* 7) *v. G.* 8) spyrr þetta, *G.* 9) inni luktr, *G*; innilæstr, *B.* 10) *þ. G*; þessi, *A.* 11) hèt, *G* (*en vantar hèr nafnit*). 12) oddr ok æsir var fyri þessum úráðum, *G*; o. ok æ v. þessa ráðs, *F*; mest hvatti þ. r., *B.* 13) bæri, *b. B.* 14) *þ. B*; fyrir, *A.*

1179 fór þá nótt við [V menn[1], ok kom[2] til Þorgríms, ok fann[3] hann heima við IX[4] mann, ok varð þeirra fundr með öðru móti, en Þorgrímr hafði til hugat; þvíat guð skipti svâ með þeim, at sá bar hærra hlut er tignari var, oc var búandi bundinn, en húskarlar hans barðir; ok [svâ lauk þeirra máli[5], at konúngr tók mikinn fjárhlut af Þorgrími, ok á þat ofan gallt hann Sverri konúngi hálfa mörk gulls; ok varð þó feginn, er [hann kom því við[6]; [skildu nú at þessu[7].

[*Frá ferðum Sverris konúngs*[8].

22. [Eptir þetta fór Sverrir konúngr til Hamarkaupángs, ok var þar handtekinn Haraldr Guðbrandsson; en hann var frændi konúngs, ok báðu margir, [at hann skyldi eigi drepa[9], ok gallt hann konúngi XII aura[10] gulls. Aðrir[11] menn Magnúss konúngs komust af hlaupi undan, ok lètu fjárhluti mikla [í allskonar hlutum[12]. Síðan fór konúngr í Eystridali, ok kom þar V nóttum fyrir jól; en bændr ætluðu[13] at þeir mundu setjast í kosti þeirra um jólin með sitt lið, ok [tóku svâ við at sjá, at engi maðr lèt

1) V mann, *B*; XV menn, *A*. 2) *frá fyrra* [ konúngr fór sjálfr við inn V mann um nótt, *G*. 3) hitti, *G*. 4) hinn tíunda, *F*. 5) ok lauk svâ með þeim, *G*. 6) er konúngr vildi þiggja þat, ok hann varð laus, *B*. 7) *v. G, B*. 8) *þ. B*; Frá Sverri konúngi, *A*; (*hèr hefir G ei k.sk.*) 9) honum griða, *F*. 10) *frá fyrra* [ fór þá konúngr aptr til móts við sína menn; þá tóku þeir Harald Guðbrandsson, ok leysti hann sik XII aurum, *G*. 11) margir, *G*. 12) *v. G*. 13) hugðu, *G*.

jólaveizlu sína búa, hvârtki mungát nè aðra kosti. 1178 En er konúngr sá þetta ráð, þá gerir hann ok sitt ráð ímót; því at hann ok lið hans þurfti eigi at síðr[1] jólavistina, þótt[2] bændr [vildi eigi bregðast[3] á beina við hann; ok snýr nú ferð sinni ábraut þaðan, ok [brá á þat[4], at hann mundi fara austr á Vermaland; [fór hann þá austr til Eiðaskógs, sem rètt leið lá[5]. En er hann kemr [þar, þá skilr[6] hann [flokk sinn[7], ok lèt fara C[8] manna austr yfir skóginn á Vermaland, [ok voru þeir velkomnir[9]. Konúngr [sneri þá aptr leiðinni í dalana[10] við CC manna, því at hann þóttist vita, at [bændr myndu [þegar[11] hafa[12] jólaveizlur sínar, [er þeir höfðu braut snúit[13]; [reyndist þetta sem mart annat[14] eptir konúngs ætlan[15]. Komu þeir[16] þá aptr at jólúnum ok í bygðina, ok varð þá at [vera öllum jafnheimillt[17], hversu er búondum líkaði[18]; hafði konúngr[19] hinar beztu veizlur[20] um öll jól[21].

[*Frá Erlíngi jarli ok hans ráðagerð*[22].

23. Erlíngr jarl var þá í Víkinni austr,

---

1) bjugg*û* aungvir jólaveizlur sínar; konúngr þóttist eigi at síðr þurfa, *G.* 2) *þ. B;* at, *A.* 3) brigðist eigi, *G;* bregðust vel, *B.* 4) lèt, *F, B.* 5) *v. G.* 6) at Eiðaskógi, skildi, *G.* 7) lið sitt, *G.* 8) hundrat, *F.* 9) *frá* [ *v. G.* 10) snýr aptr, *G.* 11) *þ. G;* þeir mundu, *frá fyrra* [ *A.* 12) búnar, *b. G; frá* [ búa, *B.* 13) þegar þeir Birkibeinar voru á brautu, *G.* 14) *b. B.* 15) *frá* [ *v. G.* 16) *b. G.* 17) veita, *B.* 18) hvarsugi sem vasikanpinum þótti, *G;* hversugi er vasikampr vildi, *B.* 19) ok hans menn, *b. F.* 20) náðir, *G.* 21) hvar sem hann kom, *b. B.* 22) *þannig P;* Sverrir konúngr fór á Vermaland, *A.* Frá Erlíngi jarli, *G.*

1178 ok[1] spurði þetta[2]; hann lèt þegar [bjóða út[3] leiðángri á bak jólum, ok hugðist mundu[4] taka þá í kvíum[5] sem sauði til skurðar; en þar [veik annan veg af[6]; hafði Sverrir konúngr snemma [við sèt þeirri snöru, er þeir ætluðu hann í veiða. Konúngr hafði svâ sett sitt ráð, at[7] hann tók hinar fyrstu veizlurnar í norðanverðum dölum, ok sótti svâ suðr at mynninu[8], sem áleið jólin; var hann þá fyrr [íbrottu, ok[9] austr á Vermalandi, en jarl kom upp þannig, ok [átti hann þá[10] at blístra í spor honum. [Ætlar jarl nú at[11] fara austr eptir honum[12] á Vermaland, en [Vermar[13] hnekðu því[14], ok sögðu hann eigi skyldu verri ferð[15] farit hafa, ok felldu brota fyrir hann á skóginum; ok við þat allt saman[16] hvarf hann aptr[17].

*(Sverrir konúngr [tók upp[18] bú Símunar[19].*

24. Sverrir konúngr samnaði nú saman öllu liði sínu, ok reið við V hundruð manna ofan í Víkina til bús Símunar í Skríksvík[20], tóku upp búit, en brendu bæinn ok öll [lángskip

1) er hann, *F.* 2) ok eirði honum illa, *b. B.* 3) lypta miklum, *B.* 4) koma Birkibeinum dyn fyri dyr, ok teppa þá inni í dölunum ok, *b. B.* 5) rennikví, *B*; einni, *b. P.* 6) mætti ráð ráði ok, *G, B.* 7) sèð við því, þvíat, *G*; sett forka við, at eigi skyldu úvinir hans geta veiddan, hann í þessi snöru, *B.* 8) mynnum, *B.* 9) *v. G.* 10) áttu þeir, *G.* 11) Erlíngr lætr þá at hann muni, *G.* 12) þeim Birkibeinum, *G.* 13) *þ. G*; þeir, *A.* 14) *frá* [ hans menn löttu þess, *F.* 15) *b. G.* 16) *v. G.* 17) í Dala, *b. G*; af Vermalandi, *b. B.* 18) brendi, *B.* 19) *þ. P*; Frá Sverri konúngi ok her hans. *G.* 20) Scricsvíc, *A*; Serínksvík, (Særíngsvík?) *G*; Skrígsvík, *F.*

1178.

hans, ok austrfararskip [eitt alnýtt[1], ok XL nauta lèt hann reka á Vermaland. En er Símun spurði[2] skaða sinn, [lèt hann skera upp herör at þeim Birkibeinum, ok bjóða þángat þegni ok þræli til þeirrar ferðar[3]. Símun var höfðíngi mikill [ok ríkr[4], ok þorði engi maðr ímót at gera [hans boði[5], ok dró hann saman á lítilli stundu [svâ mikit lið, at hann hafði[6] [IIII hundruð ok XX manna[7]; [en konúngr var farinn austr undan allt til Elfar, ok var kominn til landamæris[8]. Símun fór þá upp með Gautelfi, er konúngr var staddr í einni lítilli bygð; ok skamt þaðan var skipat[9] liði hans [ok dreift[10] til gistínga, [þvíat þessi bygð var lítil, enda[11] vissi konúngr [eigi svâ skjótan[12] háska sem gerðist[13]. Síðan sendu vinir hans honum njósn af Gautlandi [um nótt[14], at Símun fór við úvígjan her, ok myndi koma á hans fund brátt, [ef eigi varaðist hann. En er Sverrir konúngr spurði þat, varð þegar til klæða at taka ok vâpna[15]; sendi síðan boð [öllu liðinu[16]; varð þat eigi skjótt, þvíat [liðinu var víða dreift[17]. Konúngr

1) *frá fyrra* [ skip hans, *G*; *frá síðara* [ hans alnýt, *B*. 2) frág, *G*. 3) safnaði hann liði miklu, *G*. 4) *v*. *G*. 5) því sem hann vildi at væri, *G*. 6) *v*. *G*. 7) CCCC manna ok XX, *G*. 8) *v*. *G*. 9) skipt, *G*. 10) *v*. *G*; víða dreift, *B*; dreift víðs vegar, *F*. 11) *v*. *G*. 12) bráðan, *B*. 13) *frá* [ þá ok eigi svâ bráðliga von úfriðar, *G*. 14) *b*. *F*; um nóttina, *b*. *G*. 15) konúngr klæðist þá, *G*; er konúngr var sofa farinn, ok lið hans, þá kom honum njósn *o*. *s*. *f*., *B*. 16) öllum sínum mönnum, *G*. 17) liðit var hèr ok hvar, *G*, *B*.

1174

fór í einn skóg, er heitir Húfunesskógr[1], ok beið þar liðsins. Ok er menn hans voru komnir, leitaði hann við lið sitt, [hvat til ráða skyldi taka[2], ok sagði svâ, at honum sýndist sem þeim myndi [verða þúngt[3] at berjast ímót Magnúsi konúngi ok Erlíngi jarli, ef þeir skyldi flýja fyrir lendum mönnum, fyrr en þeir vissi hvat fyrir væri, þóat þeir hefði mikit[4] lið. Allir kváðust[5] heldr berjast vilja við Símun en flýja, ok ætlaðu þó eigi [svâ mikit[6] liðit sem var. Fóru nú síðan ímót Símuni[7], ok mættust fyrir[8] dag, ok í svâ miklu niðamyrkri[9], at [engi sá fyrr en þar gnævaði merki yfir þeim; tóku þegar at berjast[10] ok[11] var [þessi orrosta allhörð ok eigi löng: en svâ lauk, at guð gaf konúngi fagran sigr, ok[12] fèll C manna ok XL af Símuni, en af Sverri konúngi [VII menn[13]. [Símun flýði þá við öllum sínum mönnum[14]. [þeir treystust eigi at reka flóttann bæði fyrir sakir liðsfjölða ok myrkrs[15].

[*Frá ferðum Sverris konúngs*[16].

25. [Eptir þenna bardaga byrjaði Sverrir konúngr ferð sína[17] til Konúngahellu, ok fèkk þar

1) Húfanessskógr, *B.* 2) hvat mönnum sýndist tiltækiligast, *G.* 3) um megn verða, *G*; ofkápa verða, *F.* 4) meira, *G.* 5) *þ. G*; sögðu, *A.* 6) jafnmikit, *G*; svâ mikinn liðsmun, *F.* 7) *þ. G*; liðinu, *A.* 8) við, *B.* 9) myrkri, *G.* 10) *þ. F*; hræðast, *A.* 11) *frá* [ nær sá aungvir aðra, *G.* 12) sú hríð hörð ok ekki laung, *G.* 13) VIII einir menn, *F*; VI einir, *B.* 14) *b. G*, 15) *v. G*; þess sem á var, *b. B.* 16) *þ. P*; Frá Sverri konúngi, *A*; Sverrir k. fór til Konúngahellu, *G*; Sv. k. kom í Vermaland, *B.* 17) Hèr eptir fór Sv. k., *B.*

1178

mikla fjárhluti þeirra manna er undan höfðu flýit; [en lagði gjald á bæinn, XX merkr vegnar[1]. Hann var þar eigi lengr en II nætr, [þvíat hann ætlaði[2] sem líkligt var, svâ mikit lið sem flýit hafði með Símuni, at þeir myndu aptr venda[3]. þaðan fór hann til Ljóðhúsa, ok dvaldist þar [nokkurar nætr[4]. þá[5] drógu þeir Magnús konúngr ok Erlíngr jarl mikit lið saman, svâ at alla lenda menn, þá er voru í Víkinni, höfðu þeir með sèr; ok þá[6] bar svâ til, at hvârigir vissu til annarra, ok fórust þó ímóti; [vildi Sverrir konúngr þá enn gildra til nokkurra veiða í Víkinni, ef í hendr bæri[7]. þat var eina nótt at eigi var lengra milli náttstaða þeirra en röst, ok vissu þó hvârigir til annarra. [En or því náttbóli fóru[8] hvârir ímót öðrum, til þess at eigi var lengra ímilli en einn fjórðúngr[9]. Nú verðr Sverrir konúngr varr við, [hvar þeir fóru feðgarnir með lið sitt[10]; sneri hann þá þegar aptr, [ok fór þar til er hann kom á Vermaland austr[11]. þar hafði hann stefnu við alla hina ríkustu menn, [ok þá er vitrastir voru[12], ok spurði hvârt þeir vildi eiga við hann samband nokkut[13], ok væri hann [hlífskjöldr fyrir þeim[14], [eða vildi[15] þessu boði neita[16]. þeir [sögðu sik

---

[1]) *v. G.* [2]) hugði, *B.* [3]) *frá* [ *v. G.* [4]) nokkura daga, *B.* [5]) *þ. G*; eptir þat, *A.* [6]) *þ. G*; þó, *A, G.* [7]) *v. G.* [8]) fóru þá enn, *G.* [9]) rastar, *b. B.* [10]) ferð þeirra feðga, *G.* [11]) austr á Vermaland, *G.* [12]) *v. G.* [13]) *v. G.* [14]) brjóst f. þ. ok h., en landsmenn legði til fjölmenni, *B.* [15]) þeir, *b. P.* [16]) *frá* [ *v. G, B.*

gjarna vilja[1] berjast með honum, sem hann væri þeirra konúngr. Sunndælir[2] mæltu ok slíkum orðum [við konúng[3]. Ok er Magnús konúngr ok Erlíngr jarl spurðu þetta, hurfu þeir aptr [við svâ búit[4]; en sendu Orm konúngsbróður á Upplönd, þvíat þar var frændaafli hans allr, ok skyldi hann þar sitja fyrir, [ef Sverrir konúngr leitaði enn þángat af Vermalandi[5]. [Sverrir konúngr[6] býr nú[7] ferð sína allt [austr í[8] Eystrasallt, ok hafði þannug[9] eigi meirr en CC manna. Ok er hann kom til Járnberalands, [var þar fyrir mikill mannsamnaðr. þeir felldu[10] brota fyrir[11], ok [sögðu at þeir (voru) úvanir konúnga yfirför, ok lètust enn eigi vilja[12]. þá reið konúngr atfram[13], ok talaði við þá; lauk svâ þessu tali, at þeir leyfðu honum at fara sem hann vildi, ok gerðu honum [allan greiða, sem þeir máttu[14].

### *Frá Helsíngjum ok Jömtum*[15].

26. þaðan fór [Sverrir konúngr[16] í Helsíngjaland, ok er hann kom þar er Álptar[17] heita,

1) jáðu því gjarna at, *G.* 2) Sunddælir, *F.* 3) *b. G;* at þeir mundu gefa þeim bakslettu eigi hagliga (góða), ef þeir leitaði á hendr honum austr þannig, *b. B, F; ok en fremr:* bundu höfðíngjar á Vermalandi þetta fastmælum við Sv. k., *b. F.* 4) *v. G.* 5) Birkibeinum, ef þeir kæmi þar fram, *G.* 6) sá Sverrir konúngr at þar var eigi áræðiligt, *F;* árennilegt, *B.* 7) þá, *G.* 8) *v. G.* 9) þá, *G.* 10) felldu þeir, *G.* 11) honum, *b. G.* 12) vildu ekki at hann færi þar yfir, *G.* 13) fram at brotanum, *G.* 14) beztan, *b. F; frá* [ inn mesta farargreiða at hvívetna, *G;* greiðskap sem beztan máttu þeir, *B.* 15) *þ. P;* Sverrir fór í Helsíngjaland, *G.* 16) *þ. B, G;* hann, *A.* 17) Alptir, *F, B.*

1178

mætti hann miklu fjölmenni, [ok samnaði ímóti sèr; þat voru[1] XXX hundruð, ok allt til orrostu búit; C manna var albrynjat. Þetta lið allt hafði[2] við lagt níðíngsorð hverjum [manni, er [þeim gæfi frið[3] eða lèti fram fara[4]; höfðu at þessu vâpnatak allir menn. Þat fylgði ok, at þeir leyfðu engum [hans manna[5] á sitt þíng at koma, ok ekki orð þar[6] at tala; en þat varð um síðir, at [leyft var öllum konúngs mönnum at fara á þíng þeirra[7], ok heyra[8] mál manna. [Þá mælti Sverrir konúngr við sína menn, at þeir skyldu fylkja liði sínu, ok vera vel viðbúnir[9], hvat sem þessi lýðr tæki til[10]. En er landslýðrinn sá [þetta, þá drógust þeir við þat[11], [svâ at þaðan af fóru orð ímilli, at konúngr skyldi gánga á þíng þeirra, ok menn hans skyldu bera ærindi hans fram, en sjálfum honum var ekki lofat at tala. En þeir Helsíngjar sögðu hann aldri skyldu framkomast, ok lètu engan kost á, nema hverfa aptr sömu leið; ok þar kom um síðir, [at konúngi var lofat (at tala) eitt ærindi. Konúngr hóf svâ sitt tal[12]: eigi

1) *v. G.* 2) *frá* [ ok var þat lið allt búit til bardaga, þeir höfðu, *G.* 3) þeim eyrði, *B.* 4) *frá fyrra* [ eigi stæði ímóti, eptir megni, at þeir kæmist eigi áfram, *F*; þeim leyfði yfirferð, *G.* 5) konúngsmanna, *P*; manni, *G.* 6) við þá, *G.* 7) þeim var leyft at koma á þíngit, *G.* 8) þar, *b. G.* 9) konúngr bað sína menn vera viðbúna, *G.* 10) bragðs, *b. G.* 11) þat, gékkst þeim við þat hugr, *B*; þat, skaut þeim skelk í bríngu, *G.* 12) var þá lofat konúngi sjálfum at tala nokkrum orðum; þá mælti konúngr, *G.*

1174 er oss kunnigt, [hverjar sakargiptir þèr meguð oss finna[1]; en at því er yðr hyggjanda, at vèr eigum allir einn guð, ok köllum hann vârn föður; þá er [þat mikil nauðsyn ok vâr skylda, at hverr vârr[2] hafi[3] frið við annan, ok gæti hverr annars sem sjálfs síns; þvíat [mínir menn hafa[4] yðr aldri gert mein. Hyggit at, [hversu lítið gott[5] þèr [eiguð at launa[6] Magnúsi konúngi ok Erlíngi jarli. Síðan lèt hann framleiða II hross, ok sagði[7] slátra skyldu; kvað þat á hvert land koma[8] myndu, ef þeir sperði svâ mat sinn, at kristnir menn þyrfti at eta hrossaslátr[9] hjá þeim, ef þeir skyldi halda lífinu. Ok þá er hann lauk máli sínu, bauð sá honum til veizlu [með LXX manna[10], er áðr hafði níðíngsorð[11] við lagt, ef hann næði yfirför; síðan bjóða bændr honum ok öllu liði hans á veizlur. Nú spurðu Jamtr, hversu Helsíngjum hafði farit, ok tóku þeir vel við þeim[12]; fór [Sverrir konúngr[13] at veizlum austan um landit. [Ok er hann kom norðr í landit[14], treystist hann vel þeirra vinmælum, ok sendi frá sèr liðit, [ók skipti á gistíngarstaði[15] í bygðina, [svâ at konúngr hafði [eigi meira lið eptir

1) hvern sakarstað þèr megit oss gefa, *B.* 2) oss þat nauðsyn, at hverr, *G.* 3) grið ok, *b. B.* 4) vèr höfum, *G.* 5) hvat, *G.* 6) hafit haft af, *B.* 7) kvað, *G.* 8) fara, *G.* 9) hrossakjöt, *G.* 10) *b. G*; XL, *B*, LXXX, *F.* 11) níðíngsnafn, *B.* 12) konúngi, *G.* 13) hann, *G.* 14) *v. G.* 15) til gistínga, *G.*

1178

en C manna[1]. Þat var eitthvert sinn um miðnætti, at [maðr kom til konúngs, ok bar þá njósn[2], at Jamtr[3] höfðu samnað liði[4] austan af landinu, [ok fóru eptir konúngi[5], ok ætloðu at drepa hann ok allt lið hans; [í þessu ráði voru allir lendir menn[6]. Sverrir konúngr [stóð upp[7] þegar, ok [lèt vekja alla sína (menn), ok bað þá herklæðast[8], ok sagði þeim hverra tíðinda hann var víss orðinn, ok kvezt þat mjök[9] hræðast, at menn hans mundu drepnir vera, þeir sem[10] í bygðina höfðu farit. Fór [nú þegar þessa sömu nótt með þat lið er honum fylgði, ok ímót þannug sem hann spurði at Jamtr voru; en[11] þeir höfðu farit í þrimr flokkum ok kríngt svâ um konúng, at or sinni ætt[12] skyldi hverr at honum koma. Ok er konúngr fór [yfir nokkora vazvík[13] milli Undurseyja[14] ok meginlands, þá kom ímót honum herr Jamtanna, ok var hríngr sleginn um þá; höfðu Jamtr þar XII hundruð manna. Þá mælti Sverrir konúngr til sinna manna: hafit þat orðtak ok eggjan milli yðar, sem þèr heyrit þá hafa Jamtrna, ok

1) ekki um C liðs eptir, *B*, *frá fyrra* [ var þá eptir með konúngi nær C manna, *G*. 2) konúngi var borin njósn, *G*. 3) Jamtar, *F*, *B*. 4) *v*. *G*. 5) her miklum, *G*; með þegn ok þræl, *B*. 6) *v*. *G*; skjótast, *B*. 7) klæddist, *G*. 8) vopnast sem skjótast, *B*. 9) mest, *B*. 10) *frá* [ kveðst óttast mjök um menn sína er, *G*. 11) konúngr á mót Jamtum við því liði sem þá var með honum, *G*. 12) átt, *G*. 13) um v. n., *F*; yfir vatzís nokkurn, *P*; á sundinu, *b*. *G*, *F*. 14) Undurseyjar, *B*.

[heimtizt þegar er þèr meguð[1] or her þeirra, ok út í eyna; en veitum þeim fyrst harða árás, ok freistum ef þeir vikni fyrir. Birkibeinar æptu nú heróp, ok runnu fram djarfliga, en Jamtr sóttu at þeim hvaðanæva; varð þar mikill bardagi ok hörð orrosta; en svâ var myrkt af nótt, at engi kendi annan [at sýn[2]. Þá heimtust[3] Birkibeinar or þys búandanna, ok upp í eyna, var þá gengin hörð hríð. Bændr fundu þetta eigi skjótt, ok börðust [sjálfir lánga hríð[4]; var þá ok [náliga í[5] dagan. En er bændr [hættu at berjast, ok[6] fundu at þeir drápust sjálfir, þá [veittu Birkibeinar þeim svâ harða árás[7], at bændr hrukku[8] fyrir; ok [er þeir sá úfarar sinna manna, þá flýðu bændr[9], en Birkibeinar [sóttu þegar eptir þeim, ok drápu af þeim slíkt er þeir vildu. Þar fèll af þeim Jamtum nær C manna, en mikill fjölði var sárr. Sverrir konúngr hafði C manna, en Jamtr höfðu XII C. Konúngr gerði eptir[10] liði sínu um morguninn, ok kom þat þá allt til hans[11]. Þá leitaðu Jamtr (sèr) griða, ok fengu konúngi gisla, ok sættust við hann; ok lagði konúngr á þá gjald[12], [ok þá játuðu þeir at gerast konúngs

[1]) heimtumst þ. e. vèr m., *B*, *F*, *G*. [2]) *v*. *G*. [3]) hefntust, *G*. [4]) lengi sjálfir, *G*. [5]) nær, *G*. [6]) *v*. *G*. [7]) laupa Birkibeinar á þá svâ fast, *G*. [8]) bugna, *G*. [9]) þvínæst flýðu þeir, *G*. [10]) orð, *B*, *G*. [11]) *frá* [ fylgðu þeim bjargvel ok drápu af þeim nær C manna. En eptir um myrgininn kom konúngr saman öllum sínum mönnum, *G*. [12]) stór gjöld, *G*; mikit gjald, *B*.

 1178

þegnar, ok hann fengi sýslumenn yfir sakeyri ok aðrar skyldur[1]. þeir festu þat mál með mörgum[2] eiðum; ok þá er þetta gjald var útgengit[3], skilðust þeir við svâ búit.

*Ráðagerðír Sverris konúngs*[4].

27. Hèreptir byrjaði[5] Sverrir konúngr ferð sína norðr um fjall, ok [kom ofan[6] í Naumudal[7]; [hann rèð sèr þar til skipa, er bændr áttu[8], ok lagði síðan útí Skillíngar. þar átti konúngr húsþíng við lið sitt, þvíat hann vildi eigi at landsmenn yrði varir við, hvat er þeir ræddu. Konúngr[9] leitaði þá við lið sitt, hversu þeir skyldu hátta ferðum sínum; segir at honum sýndust vera III kostir til[10]. Sá einn at fara norðr á Hálogaland, ok [afla sèr þar fjár[11]; sækja síðan suðr[12] til Björgynjar, ok vita ef þeir fengi þar[13] nokkut[14] unnit á sínum óvinum. [Hinn var annar at þeir færi af[15] landi ok vestr í eyjar; [lèt þess[16] meiri vân, at [þar fengist liðsafli[17]. [Sá var inn III, at[18] herja[19] til Írlands eða [á[20] önnur vestrlönd; kvaðst[21] þat

1) játa þeir þá honum hlýðni; fèkk hann þeim þá sýslumenn, *G*; setti k. þar s. m. yfir, *B*. 2) margra manna, *G*. 3) allt lukt, *G*; ok at gíslunum settum, *b*. *B*. 4) *þ*. *P*; Um ráðagerðir Sv., *G*. 5) býr, *G*. 6) komu fram, *G*, *F*. 7) Naumudali, *F*. 8) ok fèkk sèr þar skip, *G*. 9) hann, *G*. 10) á, *G*; fyrir höndum, *B*. 11) atvinnu ok skipa, *F*; at vinum ok skipum, *B*. 12) *frá* [ hafa þar slíkt er fengist; sá annarr at fara, *G*. 13) *v*. *G*. 14) svig, *b*. *B*. 15) þá væri sá til, at fara úr, *G*. 16) ok væri þar, *G*. 17) þeir fengi þaðan nokkurn liðs afla, *G*; (afla, *B*.) 18) eðr, *G*. 19) þá, *b*. *G*. 20) *b*. *P* 21) *frá* [ annara vestrlanda; lèzt, *G*.

1174 ætla, at því minni[1] myndi vera vinsæld[2] [Magnúss konúngs ok Erlíngs jarls, sem þeir hefði lengr fyrir ráðit landinu; [en at svâ búnu er mikill afli þeirra, ok mun oss verða þúngt við at eiga[3]. Lið allt[4] svaraði, [ok lèzt[5] vilja sækja[6] inn til bæjarins, ok tölðu ekki fyrir myndu at ná bænum; sögðu [eigi vera konúngsliðit í bænum, ok myndu þeir vinna mega Niðarós, er konúngr átti þar[7] marga vini, [ok koma svâ afla undir sik[8]. Konúngr svarar: [ekki em ek þess fúss[9]; ok hefir mik [svâ dreymt til[10]; sýnist mèr ráðligra [enn sem fyrr[11], at þèr víkit nokkut[12] eptir mínum ráðum[13]; ok [sækjum síðarr[14]. til bæjarins. Liðit vildi ekki annat en fara[15] til bæjarins; konúngr sagði þá ráða myndu. Fóru nú at óvilja konúngs suðr til Þrándheimsmynnis[16]; ok er þeir komu suðr[17] til Fólsknar[18], segir konúngr at hann vildi[19] [til Björgynjar[20], en eigi inní fjörðinn, kvaðst ætla at eigi myndi þángat sæmdarför verða at sinni. Liðit sagði at ekki væri annat vísara, ok tölðu ekki fyrir at ná bænum; urðu

1) meiri, *G, B.* 2) óvinsæld, *G, B.* 3) *v. B.* 4) *frá fyrra* [ Erlíngs, sem hann væri lengr í Norvegi; liðit, *G.* 5) *þ. G*; lètust, *A.* 6) *v. G.* 7) hvârki vera til varnar konúng nè jarl, ok sögðu konúng eiga þar fyri, *G.* 8) *v. G.* 9) ófúss em ek þessa, *G.* 10) *þ. G*; lítt dreymt, *A, B.* 11) *v. G.* 12) *v. G.* 13) vilja, *G.* 14) förum eigi, *B.* 15) *v. G.* 16) Þránd-heims, *B.* 17) *v. B, G.* 18) *þ. B, G*; Fólknar, *A, F.* 19) suðr, *b. B.* 20) ok vita, hversu tækist, *b. B*; *frá* [ um suðr, ok vita hversu þeim veitti tilræði at fara, at ná bænum, *G*;.... at laust mundi fyri liggja, *F.*

allir á eitt sáttir [aðrir en konúngr[1], at [þeir skyldu til þrándheims[2]. Nú róa þeir inn [í fjörðinn[3] til Rauðabjarga, ok lögðu þar at. Konúngr lèt þá kalla alla sína menn af skipum, ok spurði [nú í hljóði[4], hverja ætlan þeir helði á sinni[5] atlögu til bæjarins, [er þó vildu þeir þess svâ mjök fýsast[6]. þeir sögðust[7] ætla at [veita atróðr at bænum[8], ok vita ef þeir næði[9] uppgöngu. Konúngr svarar: ekki sýnist mèr þat ráðligt[10], [ætla ek bæjarmenn[11] eigi ljá oss bæinn [at vèr eigim á honum vald; væntir mik at þeir veri bæinn; munu þeir ok lítillar vægðar[12] vænta af oss Birkibeinum um rán ok fjártökur. Er þat mitt ráð at gera eina skútu inn [með Staði[13] á njósn, áðr en lýsa tæki, ok[14] yfir fjörðinn fyrir innan Hólm, ok láta [þessa skútu[15] liggja undir Laðahamri[16], svâ utarla at [vel megi hana sjá or bænum, þá er ljóst er[17] orðit, ok láta hana[18] tjalda sem bezt. En menn þeir[19] allir, [sem á eru, skulu gánga á land, ok upp í skóg, ok fram hit efra ofan fyrir Hlaðir[20]; ok stefnit[21] á ásinn[22] fyrir ofan brúna,

1) *v. B.* 2) allir vildu inn til bæjar, en eigi suðr; sagði þeim ekki fyri mundi verða, *G.* 3) *v. G.* 4) *v. G.* 5) *v. G.* 6) *v. G.* 7) koðust (kváðust), *G.* 8) róa inn at bryggjum, *G.* 9) þar, *b. G.* 10) ráð, *B*; mun yðr varin uppgánga, *b. B.* 11) mjök hygg ek at bæjarmenn muni, *G.* 12) til uppgaungu, þvíat þeir munu aungrar eyrðar, *G.* 13) *v. G.* 14) fari þeir, *b. G.* 15) þá, *G.* 16) Hlaðahamri, *G*; Hlaðhamri, *F*; Laðhamri, *B.* 17) þeir sæi or bænum er ljóst væri, *G.* 18) *v. G.* 19) *v. G.* 20) gángi fyrir ofan Hlaðir, *G, B*; fram með Hlöðum, *F.* 21) stefni, *G.* 22) ísinn, *G.*

1176 ok sitit[1] þar til lýsíngar. En vèr [skulum róa inn yfir fjörðinn[2] til Flaðka, ok svâ inn með Gaularási til þess er vèr leggjum við Gullhamar. Þá væntir[3] mik þess, at þegar [er lýsa tekr, ok[4] þeir sjá or bænum at skip liggr við Hlaðhamar, at þeir muni [skipa skip sín[5] or bænum, [ok ætla þat lið vârt allt; munu þeir hyggja þar vera fleiri skip hjá, er þeir sjá eitt liggja: sýnist mèr oss ráðligt, meðan er þeir róa [inn til Hlaðhamra[6], at þá rerim vèr [undan Hefríng ok inn at Eyrum[7]; ok væri þess meiri von, at þá ættim vèr at verja þeim bæinn, en eigi þeir oss[8]. Guðlaugr svarar[9]: eigi mun oss þikkja lið vârt ofmart, þóat vèr tvískiptim því eigi. [Nú fylgðu fleiri menn honum at þessi ræðu en konúngi: var þat afkosit[10], at þeir skyldu róa at bænum þann tíma er ljóst væri. Konúngr kvaðst[11] vera mega þar, er þeir voru, [en talðist vera ófúss; ætla ek ok, segir hann, illa munu gefast yðra ráðagerð utan minn[12] vilja.

### [*Bardagi Sverris konúngs við kaupángsmenn*[13].

28. Eysteinn erkibiskup var fyrir[14] í bæn-

---

1) sitit, *G.* 2) róim inn, *G.* 3) varir, *G.* 4) *v. G.* 5) þá róa, *G.* 6) til Hlaðhamars, *B.* 7) inn með Eyrum, *B.* 8) *frá þriðja* [ munu þeir hyggja at þar sè lið vârt allt (*G, B*); mætti þá vera, at vèr næðim bænum ok ættim þeim hann at verja; er þá enn vant at sjá, hverjum bezt veitir, ef vèr stöndum allir jafnhátt, *G.* 9) stallari konúngs, *b. B.* 10) *frá* [ fylgðu þessu ráði fleiri; var þat af ráðit, *G.* 11) lèzt, *G.* 12) kvað þeim illa mundu gefast sín einræði, ámót hans ráðagerðum ok, *G.* 13) *þ. P.* Tala Eysteins, *A*; T. erkibiskups, *G*; Bardagi með Sverri ok erkibiskupsmönnum, *B.* 14) *v. G.*

1178

um, ok hafði látit blása til móts annan daginn áðr; kvaðst hafa spurt til Birkibeina, at[1] þeir voru ofan komnir norðr í Naumudal[2], ok höfðu vikit suðr hit ytra: ok væntir oss, segir hann, at þeir myni vitja híngat[3] fjarðarins; en mèr er svâ sagt, at þeir hafi lítit lið ok smá skip, ok þó liðit mótt ok vesallt; er þat úfallit búondum ok kaupmönnum, at gefa [upp föt sín eða fè[4] fyrir þeim þjófum ok illmenni[5], er Sverrir hefir saman harkat; viljum vèr heldr veita yðr nokkurn styrk til[6], ef þèr vilit halda vörn fyrir bænum; [man ek láta til mín skip ok alla húskarla mína, þá er í biskupsgarði eru staddir, ef bæjarmenn ok kaupmenn vilja sik tilleggja. Þetta ráð lèzt öllum sýniligt þikkja, ok kváðust heldr þat vilja, en sæta uppgöngum Birkibeina. Voru þá skipuð IIII skip af bæjarmönnum ok kaupmönnum, ok hit V erkibiskups[7] skip; þar voru á [húskarlar hans[8], [ok var þat[9] bezt skipat; þar[10] var Sigurðr forráðsmaðr[11], son Ösurar balla[12]. Bæjarmenn [höfðu vitavörð[13] á Digrmúla, ok [settu upp um morgininn er lýsti, ok þeir sá[14] at skipin

1) *þ. G;* ok, *H.* 2) Naumudölum, *F.* 3) til, *b. P.* 4) upp fjáreignir sínar, *G*; þeim klæði sín eðr fè, *B.* 5) illþýðismönnum, *B.* 6) *v. G.* 7) lèzt til mundu leggja skip sitt (skip sín, *B,*) ok húskarla. Bæjarmenn tóku þat með þökkum. Þeir höfðu IIII skip, en it fimta biskups, *G.* 8) *þ. F;* h. húskarlar, *A.* 9) *frá* [ þat var mest ok, *G.* 10) fyri því, *G.* 11) forræðismaðr, *B*; formaðr, *F.* 12) bolla, *F.* 13) þóttust vörð vita, *B.* 14) er þeir sá um myrgininn, *G.*

1174 voru við Rauðabjörg, fleygja[1] nú eldi í vitann[2]. Ok er bæjarmenn sá þat, blèsu þeir til skipanna, ok lögðu út or ánni; en Birkibeinar [ráku af sèr tjöldin, ok[3] rèru [yfir fjörðinn inn undir[4] Gaularás[5], en bæjarmenn út [um víkina[6] at móti[7]. [Ok er þeir komu út fyrir Digrmúla, þá sá hvârir aðra; mættust þá[8] á víkinni fyrir [innan Hattarhamar[9]. [þeir höfðu IIII skip or bænum, þau er við bardaga komust[10]; Sverrir konúngr hafði ok[10] IIII skip, ok var eitt [at eins tvítugsessa[11]. Síðan tókst þar bardagi [bæði harðr ok[12] mikill, ok var gott veðr á, landnyrðíngr lèttr[13], meðan þeir börðust, ok hóf öll skipin saman at landinu, [ok til þess er landit tók við[14]. Ok þá er þeir höfðu barizt um hríð, fór fram erkibiskupsskip; þat hafði seinna orðit or bænum. Birkibeinar sá þat, ok þótti sèr horfa eigi vænt, er áðr gekk þúngt, [en þetta skip kæmi[15]. Brast þá flótti á [þeim Birkibeinum[16], ok hljópu á land af skipum sínum. Sverrir konúngr var [svâ klæddr, at hann var[17] í kufli blám ok síðum; hann fór fram at[18] skipi[19] mjök svâ[20] snemma, ok ætlaði til landgöngu; ok er hann kom fram um siglu, þá skauzt niðr þilja undir fótum honum,

1) slá, *G.* 2) vitana, *F.* 3) *v. G.* 4) inn með, *G.* 5) *þ. G*; Gaularós, *A.* 6) *v. G.* 7) *frá* [ yfir vík, *B.* 8) þeir mættust, *G.* 9) Hattarhamri, *F.* 10) *v. G.* 11) *v. G.* 12) *v. B, G.* 13) *b. G.* 14) *v. G.* 15) *v. G.* 16) Birkibeina, *G.* 17) *v. G.* 18) eptir, *G*; á, *B.* 19) sínu, *b. G.* 20) *v. G.*

ok fèll hann í rúmit; en menn hljópu svâ þykkt yfir hann, at hann mátti[1] eigi uppstanda, [ok dvalði þat ferð hans mjök lánga stund, meðan menn hljópu þykkast yfir hann[2]. Sá maðr hljóp í síðarra lagi, er Helgi hèt, ok var kallaðr byggvömb. [Konúngr leit við honum, ok kendi Helgi hann[3] ok mælti: illa munum vèr skiljast við vârn konúng[4]. Hann fèkk í öxl konúngi, ok studdi hann[5] upp or rúminu. Ok þá mælti konúngr: Helgi, [konúnga þú nú eigi í meira lagi fyrst[6]; hljópu þá á land upp báðir samt; ok er þeir komu upp í fjöruna, þá fóru at þeim menn III af bæjarmönnum. Helgi hljóp ímót þeim, [ok barðist við þá[7]; en konúngr kleif upp í einn bakka brattan; en er hann var [kominn mjök á upp[8] bakkann, þá steig hann á kufl sinn, ok skruppu[9] honum þá fætrnir; hrapaði hann niðr aptr í fjöruna[10]. Þá hljóp at honum einn, [sá er áðr sótti Helga[11], ok vildi högga til hans; en er Helgi sá þat, þá skræmðist[12] hann undan þeim II, er [honum voru ímót[13], ok til þángat, er hann sá at konúngr þurfti liðs við, ok hjó [hann þann banahögg, er áðr vildi at konúngi vega[14]; en kon-

1) lengi, *b. G.* 2) *v. G.* 3) Helgi kendi konúng, *G.* 4) ef hann skal liggja hèr í austrinum, *b. B.* 5) ok reisti hann, *b. G.* 6) konúngaðu nú sem minnst, *B.* 7) *v. G.* 8) *þ. G*; kominn mjök svâ upp á, *A.* 9) spruttu, *B.* 10) *þannig hin*; *A hefir hèr ok síðar:* foruna. 11) maðr, *G.* 12) skýzt, *B*; vizsk, (veikst) *G.* 13) áðr sóttu hann, *G.* 14) þenna mann banahögg, *G.*

1178 úngr leitaði upp í annat sinn. [þeim mönnum var nú minna um átsókn við Helga, er áðr höfðu freistat fyrr, ok hurfu nú ífrá við svâ búit[1]. Konúngr var [ekki vel færr, ok var[2] orðinn sárr á fæti; hafði verit skotinn með gaflaki í orrostunni; þat sár veitti honum Serkr af Rjóðum[3]. Nú fór Helgi með konúngi, ok fluttust [þeir svâ upp eptir Gaularás, þar til er liðit dreif at þeim, þat er undan hafði komizt[4]; veik konúngr fram á fjallit ok hvíldist þar; heyrðu þeir þá umræðu bæjarmanna, at þeir ræddu um þat, hvârt hann Sverrir mun fallinn vera eðr eigi. Þá svarar Helgi svâ hátt, at þeir heyrðu, bæjarmenn: Sverrir konúngr gerir yðr enn verri[5] hríð, áðr en hann sè dauðr. Þar höfðu margir góðir drengir fallit; Sigurðr af Saltnesi, Jón ketlíngr, [bróðir hans, fèllu[6] í fjörunni; [Vilhjálmr, bróðir þeirra, hèlt undan á einu skipi út með ásinum ok fyrir nesit, en bæjarmenn [sóttu eptir honum, hann hljóp á land, ok fèll þar í fjörunni, en þeir[7] skiptu vâpnum[8] þeirra, ok fóru aptr síðan við svâ búit[9]. Guðlaugr stallari varð mjök sárr, ok komst hann uppá ásinn, ok var í skarlazkyrtli. Þar mætti hann einum búanda, ok þóttist sá sjá gerla, at hann var af flóttamönnum. Búandi hafði bòlöxi í hendi, ok hjó til hans, þar sem

1) *v. G.* 2) *v. G.* 3) Rjóðrum, *F.* 4) upp um Gaularás, kom þá til þeirra liðit, *G.* 5) harðari, *G*; *v. B.* 6) *þ. hin*; b. h. fèll, *A*; Vilhjálmr fèll, *G.* 7) *b. B.* 8) *þ. B.* fötum, *A, F.* 9) *frá fyrra* [ *u. G.*

mættist hálsinn ok hnakkinn[1]. Guðlaugr fèll af högginu, ok þóttist búandi hafa drepit hann, [tók hrís ok bjó um hann; áðr[2] fletti búandi hann klæðunum; eptir þat[3] skilðu þeir. Guðlaugr [vitkaðist nokkuru síðarr ok[4] stóð upp, ok kom til bæjar nokkurs; var þar við honum vel tekit. Hann fór síðan [eptir konúngi[5], ok greyru sár hans; því kölluðu Birkibeinar hann síðan[6] Guðlaug gnitaskör.

[*Tala Sverris konúngs*[7].

29. Eptir þessa orrostu fóru þeir á Upplönd, en sumir komu ofan á Mæri til Serks, ok drápu hann með XII[8] mann; [fóru síðan eptir Sverri konúngi. Ok er Birkibeinar koma austr í Víkina[9], spurði þat Magnús konúngr ok Ormr konúngsbróðir; búa nú ferð sína at leita þeirra; [ok síðan spurðu þeir til þeirra, ok sóttu eptir þeim, en Birkibeinar undan, þvíat þeir höfðu lítit lið hjá því sem Magnús konúngr[10]. Sverrir konúngr talaði þá við lið sitt, ok sagði svâ, at þat var gert [utan hans vilja[11], er þeir fóru inn í Þrándheim við lið sitt, at berjast við kaupángsmenn: höfum vèr látit [lið vârt, ok hina beztu drengi or voru föruneyti[12]; ok er vârar úfarar spyrjast til búandannna, þá erum vèr nú

1) herðar, *G.* 2) *þ. B;* síðan, *A.* 3) *frá* [ ok fletti af klæðum; svâ, *G.* 4) *v. G.* 5) til móts við konúng, *G.* 6) stundum, *B.* 7) fyri liðinu, *b. P*; *frá* [ Dráp Serks ok XII manna, *G.* 8) XX, *B.* 9) síðan fara þeir austr til Víkr, *G.* 10) *v. G.* 11) mjök at úvilja hans, *B, G*; mjök ímóti mínu skapi, *F.* 12) marga drengi góða, *G.*

reknir [ok rjáðir[1], hvar sem vèr komum, [ok þikkir öllum mönnum, þeim er vita vârar hrakníngar, lítil tilkvæmð þar sem vèr erum[2]; en áðr þessi orrosta væri, höfðu vèr jafnan sigr ok hinn hæra hlut; óttuðust þá ok flestir menn at fara [með hernaði[3] ímóti oss. Nú munu þèr spurt hafa, at Magnús konúngr ferr eptir oss við miklu liði; en vèr munum nú litla hríð láta undan þeim rekast um landit, áðr bæði mun [liggja á[4] oss þegn ok þræll; [ok mun lið vârt allt[5] drepit[6] við litlum orðstír, svâ sem þeir menn allir er í flótta falla. Nú lízt mèr drengiligra, þóat vèr hafim eigi mikit lið, at snúast ímoti vârum óvinum; [ok með því at vèr sèm ofrefli[7] bornir, [þá megum vèr vel svâ tilhaga, at vèr fallim[8] með miklum[9] orðstír, ef vèr berjumst við sjálfan Magnús konúng; en [með því at svâ vel verði, at[10] vèr sigrumst á honum, þá man þaðanaf vaxa vârr styrkr; er ok eigi þess vân, at vèr munum gánga til þessa lands [ok ríkis svâ lèttliga, at eigi sjáim vèr[11] eitthvert sinn merki Magnúss konúngs á lopti; höfum vèr nú ok höllztí lengi látit rekast um landit, [ok þolat margskyns vandræði af vârum óvinum[12]. Þá talaði Sverrir

1) *b. G, B.* 2) *v. G.* 3) með úfriði, *B*; *v. G.* 4) hata, *G.* 5) vera dreift ok, *b. B.* 6) *frá* [ munum vèr þá falla, *G.* 7) ofrliði, *hin.* 8) er oss betra at falla, *G.* 9) góðum, *F.* 10) ef, *G.* 11) ef vèr sjáum eigi, *G.* 12) fyrir úvinum vârum, *G.*

konúngr mörgum fögrum orðum fyrir liðinu, ok eggjaði menn mjök; lèzt vel hugr um segja; [treysti nú lið sitt, ok[1] varð at [hans tali góðr[2] rómr[3]. 1176.

### *Bardagi konúnga[4] við Hirtubrú[5].*

30. Eptir þetta fóru þeir[6], þar til er þeir komu [fram um brúna[7] á þeirri á, er Hirta[8] heitir, [ok höfðu þá sanna njósn, at[9] Magnús konúngr var kominn nær þeim. Sverrir konúngr lèt liðit fara í kjörr nokkur skamt ífrá brúnni. Magnús konúngr ok Ormr konúngsbróðir höfðu ok[10] sanna njósn af [ferð þeirra[11] Birkibeina; ok er þeir komu at brúnni, lèt Magnús konúngr þegar fara sitt merki yfir, ok fylgði þar sjálfr; [slíkt sama Ormr konúngsbróðir. Ok er konúngr var kominn yfir brúna ok nokkut liðit, þá veittu Birkibeinar þeim harða árás[12]; tókst þar snörp orrosta ok eigi löng; fèll mjök lið Magnúss konúngs, en hann sjálfr flýði aptr yfir brúna, ok svâ Ormr konúngsbróðir, ok hvârrtveggi sárr; í þeirri orrostu lèt Magnús konúngr mart manna; eptir þat skutust þeir á nokkura hríð yfir ána þvera, ok eptir þat skilðust þeir. Magnús konúngr fór þá aptr til Túnbergs til skipa sinna, ok

1) *v. G, B.* 2) máli hans mikill, *G.* 3) *frá fyrra* [ *v. B.* 4) *b. P.* 5) *þ. G*; Hirtu, *A.* 6) leiðar sinnar, *b. F*; ferða sinna, *B.* 7) yfir brú, *G.* 8) Heyrta, *B*; Hvíta, *F.* 9) *v. G.* 10) nú, *G.* 11) *þ. G*; um för, *A*; Birkibeinum, *B.* 12) ok svâ Ormr; Birkibeinar hlaupa nú á þá, *G.*

1178

síðan austr [með landi[1]; en Sverrir konúngr fór upp á Raumaríki, ok austr hit efra til Ljóðhúsa, ok þar spurði hann, at Magnús konúngr var í Konúngahellu; fór þá þángat, ok kom á úvart; [varð þar nokkurr bardagi, ok ekki mikit mannfall[2]; hèlt Magnús konúngr ofan eptir ánni, ok tók Sverrir konúngr þar nokkur skip ok lèt brenna. Magnús konúngr fór þá norðr í Víkina, ok inn [til Oslúar[3], sat þar um hríð, ok gerði frásèrnjósnir allt austr til Elfar. Sverrir konúngr lagði nú undir sik allar hinar eystri sýslur, ok [tók þar gjöld; voru þá í Víkinni hvârirtveggju, [Birkibeinar ok Heklúngar[4], ok [veittust jafnan[5] árásir[6].

### *Frá Sverri konúngi[7] [ok mönnum Magnúss konúngs[8].*

31. Sverrir konúngr fór [norðr í Víkina með liði[9], at gildra enn til nokkurra veiða, ef í hendr bæri; ok einhverja nótt reið sjálfr konúngr á njósn með[10] VII mann í nokkurn skóg skamt frá Saurbæjum[11]; ok á þeirri sömu nótt fór [einn sveitarhöfðíngi af liði Magnúss konúngs[12] með L manna, ok ætlaði at freista, ef hann fengi nokkut drepit af [liði Sverris kon-

[1]) í Vík, *B.* [2]) fèllu þar nokkurir menn af Magnúsi konúngi, *G.* [3]) í Oslu, *G.* [4]) *v. G*; *frá fyrra* [ tóku þá gjöld hvârirtveggju um Víkina, M. k. ok Sv. k., *B, F.* [5]) veittu hvârir öðrum, *G.* [6]) höfðu ýmsir betr, *b. B.* [7]) *b. B, P.* [8]) *b. P.* [9]) *v. G.* [10]) við, *G.* [11]) Saurbæ, *B.* [12]) sveit Heklúnga, *B.*

úngs suðr í hèrað[1]; en nóttin var myrk. Þá heyrði Sverrir konúngr reið þeirra, ok vòru þessir menn mjök druknir [af miði[2]; [þeir voru málgir, ok vissu sèr enskis ótta vânir; en gatan var eigi rýmri, en einn[3] maðr mátti ríða senn. Sverrir konúngr mælti við sína menn, at þeir skyldu vera hljóðsamir[4]: ok höfum boga vâra [búna ok skot, ok göngum[5] tveimmegin götunnar; ok er þeir koma gegnt oss, þá skjóti hverr sem má tíðast; ok kann vera, [ef þeir fá slíkar bendíngar[6], at þeir ætli[7] lið vârt meira, en svâ sem þat er; en ef vèr verðum ofrliði[8] bornir, þá megum vèr forða oss. Nú skutu Birkibeinar sem tíðast eptir málinu hinna; en svâ var myrkt, at hvergi sá frá sèr; ok þeir, er eptir[9] riðu, [vissu eigi, hví sætti, er hinum[10] fórsc svâ ógreitt, er framarr[11] fóru, ok flyktust[12] allir saman; vissu eigi hverju gegndi; en Birkibeinar skutu æ sem tíðast[13]. Hinir hugðu, at vera myndi margir menn á skóginum, ok tóku [undan sem skjótast[14]; Birkibeinar sóttu eptir þeim, meðan þeir máttu, [ok elltu þá. En[15] um morguninn er ljóst var orðit, ok þeir vendu[16] aptr, fundu þeir XVIII[17] menn drepna ok marga hesta.

[1]) Birkibeinum, *G.* [2]) *v. G, B.* [3]) *v. G.* [4]) *þ. hih,* liðsamir, *A.* [5]) stöndum, *G.* [6]) *v. G.* [7]) hyggi, *G.* [8]) ofríki, *F.* [9]) síðar, *G.* [10]) undruðust er þeim, *F.* [11]) fyrri, *G.* [12]) *þ. G*; fylkðust, *A.* [13]) ákafast, *G.* [14]) *þ. B;* undan sem tíðast, *A ;* u. s. ákafast, *F;* nú undan, *G.* [15]) *v. G.* [16]) óru, *G.* [17]) XIII, *B.*

### [*Jartein Ólafs konúngs helga við Sverri konúng*[1].

32. Um haustit fór Sverrir konúngr norðr til þrándheims, ok [veitti mikit[2] slag mönnum Magnúss konúngs[3] í kaupángi, ok fèkk sigr; hann tók þar X skip; en eptir um vârit fór hann út eptir firði með liði sínu, ok suðr á Mæri; fór hann útleið[4], er suðr sótti. Ok er þeir sigldu norðan at Staði, þá kom þar ímót[5] Magnús konúngr ok Erlíngr jarl, Eysteinn erkibiskup, Ormr konúngsbróðir ok mart lendra manna; þeir höfðu allmikinn her ok stór skip. En er Sverrir konúngr sá þetta [hit mikla lið[6], ok kendu hvârir aðra, þá leituðu[7] þeir Sverrir konúngr á haf út[8]; gerðu þá[9] bæði[10] at þeir[11] sigldu ok röru, [sem mest máttu þeir[12]. [En er Magnús konúngr sá þetta, þá tóku þeir eptir þeim bæði siglíng ok svâ róðr sem ákafast. Þá [nálgaðust þeir[13] skipin Sverris konúngs, svâ at skip þat, er Erlíngr jarl stýrði, kom þannig nær, at þeir sá menn [af borði[14], lèt þá jarl [hefjast við[15], ok beið svâ sinna manna. Ok er öll skip voru eptir komin, þá kallaði jarl, ok skipaði[16]

---

1) *þ. B*; Frá Magnúsi konúngi, *A*; Slag í kaupángi, *G.* 2) *v. G.* 3) *frá* [ barðist við Heklúnga, *B.* 4) útleiðis, *F.* 5) þeim, *b. G.* 6) ofrefli, *F, B.* 7) beita, *F, B.* 8) þvers, *b. G.* 9) *v. G.* 10) *þ. G*, hvârirtveggju, *A.* 11) *b. G.* 12) *v. G.* 13) *þ. B*; nálgaðist, *A.* 14) á borðum, *B.* 15) hefla ok bíða, *F, B.* 16) *frá fimta* [ slíkt sama gerðu Magnúsar konúngs ok dró þegar saman með þeim. Erlíngr jarl eggjar nú sína menn í ákafa ok skipar, *G.*

til atlögu, ok sagði, at þá myndi [líkligt þikkja, at fundr þeirra myndi verða[1] ok Birkibeina; bað menn þá minnast, hversu [mikinn skaða Birkibeinar[2] höfðu gert í manndrápum ok ránum; bað alla[3] þat varast, at [engi maðr yrði svâ djarfr, at grið gæfi Birkibeinum[4]; en vel [kveðst honum þikkja, at Sverrir[5] væri handtekinn, ef svâ yrði til, ok færðr honum lifandi[6]. Þessu játuðu allir, [láta síðan síga or heflum, ok sækja eptir þeim[7]. En er Sverrir konúngr sá þat, at [skipin Magnúss konúngs voru miklu skjótari, ok saman dró með þeim, þá sýndist honum eigi þau orræði, er vel myndi hlýða[8], ef eigi vetti[9] guð þeim sína[10] miskunn, frammarr en þá [myndi [þikkja vænligast um þeirra ráð[11]. Sverrir konúngr [lagðist þá til bænar, ok hèt til hins helga Ólafs konúngs, ok talaði þá[12] fyrir mönnum mörgum fögrum orðum; ok á þeirri sömu stundu lagðist á sjáinn [svâ mikil þoka[13], at ekki skip sá frá öðru. [Þá er[14] Magnús konúngr ok Erlíngr jarl [sá eigi leið sína, sneru þeir stöfnum, ok[15] beittu inn undir land. Síðan mælti jarl: [eigi fór[16] þá svâ er vel

1) fund þeirra saman bera, *G*, *B*. 2) mart íllt þeir, *G*. 3) menn, *G*. 4) gefa neinum grið, *G*. 5) prestr, *b*. *B*. 6) *frá* [ kvaðst honum þikki á, at þeir færði honum Sverri, ef hann yrði handtekinn, *G*. 7) herða nú eptir sem mest, *G*. 8) miklu meira gánga skipin M. k., sá hann engi orráð, þau er hlýða mætti, *G*. 9) *þ*. *A*; veitti, *G*; tèði, *B*. 10) *v*. *G*. 11) líkligt þikkja, *G*; *frá fyrra* [ horfðist á, *F*. 12) hèt þá á hinn h. Ól. k., ok mæltist, *G*. 13) þoka svà þukk, *G*; þykk, *B*. 14) *v*. *G*. 15) *v*. *G*. 16) fóra, *G*.

vildi[1]. Nú komu þeir saman öllum[2] herinum í Hereyjum; ok annan dag eptir, spurðu þeir til Birkibeina, at V[3] skip höfðu siglt um sund, ok höfðu stefnt í fjörðinn. [Þá kvaddi jarl höfðíngja til tals ok ráðagerðar[4], ok sagði svâ: at hann þóttist eigi vita, hvârt Birkibeinar myndu hafa beitt með landi norðr eða suðr, er þeir hafa lands leitat: ok sýnist mèr sem hvârttveggja mun liðs[5] fyrir[6] þurfa. [Jarl segir, at hann vill[7], at erkibiskup ok Ormr konúngsbróðir fari suðr til Björgynjar, ok aðrir lendir menn ok skipstjórnarmenn, þeir sem [hann vill nefna[8], [at verja þar land[9]: en [Magnús konúngr ok ek[10], segir hann, [skulum fara[11] norðr, [ok með okkr[12] meiri hlutr hersins[13], var svâ gert, sem jarl mælti.

### *Frá boðum Sverris konúngs við Magnús ok Erling[14].*

33. Ok er [menn Magnúss konúngs[15] komu á Norðmæri, spurðu þeir þau tíðindi, at Sverrir konúngr hafði siglt af hafi utan [fyrir sunnan Æðey, ok svâ norðr at Knarrarskeiði[16]. [Sverrir konúngr fór[17] þá[18] norðr til [Þrándheimsmynnis,

1) fara, *b. B.* 2) *v. G.* 3) tvö, *B.* 4) Jarl kallar þá höfðíngja til tals við sik, *G.* 5) *þannig G, B*; liðit, *A.* 6) *v. B.* 7) vil ek, segir hann, *G.* 8) ek nefni til, *G.* 9) *v. G.* 10) *þ. F*; k. ok jarl, *A*; *frá* [ við Magnús k., *G.* 11) *þ. F*; skulu f., *A*; munum snúa, *G.* 12) *þ. F*; þeim, *A.* 13) *frá* [ *v. G.* 14) *þ. B*; Frá Magnúsi k. ok j., *G.* 15) þeir Magnús k. ok jarl, *G, B.* 16) at við Smjöl, *G*; við Smyl milli ok Æðeyjar o. s. n. at Knarskeiði, *F*; utan hjá Æðey ok svâ norðan at Knarrarskeiði, *B.* 17) *þ. G*; fór hann, *A.* 18) alla leið, *b. G.*

ok síðan inn til[1] kaupángs, ok lagði skipum sínum þegar[2] við bryggjur. Magnús konúngr ok Erlíngr jarl fara norðr eptir Birkibeinum[3]; ok er Sverrir konúngr ok hans menn sjá segl þeirra, ok áttu þá skamt til bæjarins, þá lèt hann blása mönnum sínum til tals[4], ok segir þeim sína ætlan, at hann vill gánga ífrá skipum sínum; ok [mælti, at[5] engi skyldi svâ djarfr, at hann flytti eptir sèr fleira en vâpn sín, ok þau klæði er hann stóð í. En eptir þetta tal vâpnast[6] Birkibeinar, [ok gengu upp í bæinn, en[7] skipin flutu öll tjölduð fyrir bryggjum; húðföt lágu í rúmum, ok hálfrýmiskistur þeirra stóðu á skipum, en lyklar voru [settir í lokin[8]. Ok er þeir Magnús konúngr ok Erlíngr jarl rèru uppí ána [liði sínu[9], þá gengu Birkibeinar upp um brú. Svâ hefir sjálfr Sverrir konúngr sagt, at hann mátti því helzt hælast, at [eigi myndu mörg[10] dæmi til þess vera, at flóttamenn hefði svâ skilizt við fjárhlut sinn [eða skip, sem þeir gerðu[11]; ok sagði, at eigi væri enn víst nema ymsir nyti fjár eða klæða annara[12]. Menn Magnúss konúngs ok Erlíngs jarls lögðu at út við Bröttueyri fyrir utan Skipakrók, ok gengu þar upp. Þá hljóp jarl á land, ok steypdist fram á knèin, en stakk niðr höndunum, ok mælti: fall er farar heill. Síðan fóru þeir

1) *v. G.* 2) *v. G.* 3) *þ. G*; þeim, *A.* 4) móts, *G.* 5) *b. G.* 6) væpndust, *G.* 7) *v. G.* 8) sumir í lokinu, *F.* 9) *v. G.* 10) fá, *G.* 11) *v. G.* 12) *b. G.*

er þeir fóru ofan til Uppdals, þá höfðu þeir allir reiðskjóta, er konúngi höfðu austan fylgt[1], ok vildi engi þeirra miðla sinn hest við hina, er norðan voru komnir; ok gekk Bárðr Guthormsson ok allir hans fèlagar[2]; þar var þá við[3] honum Bjarni Kálfsson skáld[4]; hann kvað vísu:

Fant sè ek hvern á hesti
hèr er nú siðr hinn vesti,
leið eigu vèr lánga,
[en lendir menn[5] gánga;
hirðmenn skulu hlaupa
hèr [erat gott[6] til kaupa,
munka ek mörgu kvíða
en matsveinar ríða.

Síðan fór Sverrir konúngr ofan til Orkadals; ok þar á þeim bæ, er Grjótar hèt[7], voru sýslumenn Magnúss konúngs, hèt annarr Sigurðr, en annarr Hákon; tóku Birkibeinar hús á þeim, ok drápu þá báða ok alla þeirra sveitúnga. Einn maðr komst undan [út um skjaldþili[8], sá hèt Óttarr gási[9], [ok dró hann (undan) út or garðinum[10]; þeir hleyptu V[11] hestum eptir honum, [ok kom einn þeirra næst ok fylgði lengst, ok var þar Sverrir konúngr; en Óttarr [dró undan í kjarrskóga nokkura, ok stefndi þá ofan til Orknáróss, fór þar yfir á báti, ok svâ inn til

[1]) riðu þeir allir, er með konúnginum voru austan komnir, *G.* [2]) menn, *G, F.* [3]) með, *G.* [4]) *v. G.* [5]) lendir menn skulu, *F.* [6]) er nú íllt, *F.* [7]) heita, *G, F.* [8]) *v. G.* [9]) gassi, *F.* [10]) *v. G.* [11]) *v. G.*

Steins, ok þaðan inn [í Gaulardal[1], ok fór hann jafnan sem allra mest mátti hann[2].

*Frá Magnúsi konúngi [ok bændum*[3].

69. Nú er at segja frá Magnúsi konúngi ok hans mönnum, at þeir sveimuðu um bæinn, ok drápu mart af Birkibeinum, [en engi þurfti þar grið at nefna[4]; dvalðist konúngr í bænum um helgina, ok sendi orð út í Orkadal, at hann mundi þar koma miðvikudaginn eptir, ok eiga þíng við Orkdæli[5]; hann sendi orð upp í Gaulardal, at Gauldælir skyldu koma til bæjarins frjádaginn, ok vildi konúngr þá hafa þíng í bænum. Magnús konúngr fór út til Orkadals með öllu liði sínu; gekk þar upp til þíngs; bændr voru komnir, þeir er stefnt var. Konúngr stóð upp ok talaði: lángt man yðr þrændum þikkja á at minnast þat, er vèr áttum næst samþínga; hafa nú liðit mjök[6] svâ III vetr, at þèr hafit [engar skyldir mèr gervar[7]; [nú vil ek at þèr greiðit ok gjaldit leiðángr allan almenníng, þann er þèr áttut[8] at gera[9] á þeima XII mánuðum ok þar með tvenna aðra, [er þèr skyldut gört hafa á tveim hinum fyrrum missarum[10]; [látit þá ok fylgja gjald fyri róðr ok reiði, ok allar útvinnur, þær er konúngr á

1) um Gaularás, *B*, *F*. 2) *frá þriðja* [ ok dró hann þó undan, svâ at þeir náðu honum eigi at sinni, *G*. 3) *b. P.* 4) *v. G.* 5) Orkndæli, *G.* 6) *þ. B*; nú, *aptr A.* 7) *b. G.* 8) *þ. B*; átt, *A*; þann er þèr hafit átt, *F.* 9) *frá* [ nú skulut þèr greiða allan almenníng, *o. s. fr.*, *G.* 10) *A hefir ofaukið*: leiðángr, *G.*

at hafa, ok þar með[1] landsskyldir ok sakeyri, þann er þèr hafit áðr greitt ok goldit fjandmönnum vârum, ok hafi þèr fyrir þat guðs reiði ok svâ mína. Þaðan af [talaði hann hart, ok varð[2] svâ reiðr, at hann bannaðist um, ok hugðu bændr þat um hríð[3], at hann myndi [vilja gánga at þeim ok drepa þá[4]. Hrói hèt maðr á Kjarrastöðum[5], hann svarar konúngi nokkurum orðum, ok beiddi búondum [friðar ok griða ok nokkurra[6] fresta um gjaldit. Konúngr lagði þeim hálfsmánaðar stefnu, at allt gjaldit skyldi þá koma inn til bæjarins, en hèt bændum griðum, ef þetta gjald greiddist[7]; var þá dæmðr konúngi leiðangr. [Þá fóru þeir sýslumenn, er fyrr voru nefndir, Sigurðr ok Hákon, uppá Grjótar, en konúngr fór um kveldit inn til bæjarins[8].

*Hersaga* [*Óttars gása*[9] *til Magnúss konúngs*[10].

70. Frjádaginn[11], er lokit var formessum í bænum, [komu engir bændr til þíngs[12]. Þá sá þeir fara nokkura menn útan um Steinbjörg með viðarhlöss nokkur. Magnús konúngr var at herbergi í garði Eiríks Árnasonar; ok í því bili kom til bæjarins Óttarr gási, er fyrr var nefndr, [ok þá er hann kom í bæinn[13], stefndi

1) skulu þèr greiða, *b. G.* 2) varð hann, *G.* 3) skeið, *G.* 4) veita þeim atgaungu, *G.* 5) *þ. G*; Kjarrkastöðum, *A*; Bjarkastöðum, *B*; Krakastöðum, *F.* 6) *v. G.* 7) kæmi fram, *B*; *v. G.* 8) *v. G.* 9) *v. B.* 10) *þ. P, B.* 11) þriðja dag (*rángt*), *B.* 12) ekki bænda (bónda) til þíngsins, *G, F*; ekki, *B.* 13) *v. G.*

hann í garðinn Eiríks, en hirðmenn nokkurir voru í garðinum; ok [þá er þeir sá, at maðr fór ákafliga, spurðu þeir[1], ef hann vissi nokkut til Birkibeina[2]. Hann svarar: ekki segi ek yðr til þess; hvar er [konúngr yðarr[3]? þeir svara: uppi í Kristskirkju á stefnu; [sá maðr stefnir þegar or garðinum [ok til konúngs[4]. Litlu síðarr kom[5] konúngr í garðinn, ok hljóp ákafliga, ok bað menn taka vápn sín, [ok út á skip[6] sem skjótast: hèr fara Birkibeinar at oss. Því næst [kvað lúðr við; tók þá hverr maðr vápn sín ok klæði mjök af skyndíngu, hljópu þegar á skip[7], ok lögðu út til Hólms. Ok er áleið daginn, komu ekki Birkibeinar ok eigi Gauldælir til þíngs; [þótti þetta undarligt, ef Birkibeinar væri eigi í nánd; en þat þótti þá líkligra, at þessi njósnarmaðr myndi logit hafa[8]; en hann hèlt sinni sögn jafnri[9], ok var á konúngs skipi. Margir báðu konúng orlofs at fara inn til bæjarins, er eptir kölluðust átt hafa klæði eða vápn [eðr silfr; sumir vildu sækja sèr drykk[10], sumir áttu konur í bænum. Magnús konúngr latti þá alla at fara til bæjarins, en lofaði fám[11]; en margir fóru eigi at síðr.

---

1) *þ. B*; ok þá er hann kom í bæinn, sá þeir at maðr fór ákafliga; þeir spurðu, *A*. 2) er hann hljóp svá mikin, *b. G*. 3) Magnús k., *G*. 4) *þ. B*; *frá fyrra* [ Ottarr fór þá þannig, *G*; *frá síðara* [ ok þá er hann kom í bæinn, sá þeir at þessi maðr fór til kirkju, *hefir A ofaukit*. 5) hljóp, *G*. 6) *v. G*. 7) var blásit; ljópu menn þá mjök af skyndíngu til skipanna, *G*. 8) þat þótti mönnum nú líkast at aungu mundi gegna um ferðir Birkibeina, *G*. 9) jafnan, *B*, *F*; *v. G*. 10) *v. G*. 11) nær aungum, *G*.

*Viðreign Birkibeina ok Heklúnga*[1].

71. [Sverrir konúngr ok[2] Birkibeinar lágu uppi í[3] ásinum, ok vissu[4] öll tíðindi í bæinn. En laugardags morguninn[5] vildu liðsmenn ráða í bæinn, en konúngr vildi enn at þeir biði þar til, [er flestir[6] væri í baðstofum; en liðsmenn [rèðu, ok[7] voru heldr veiðibráðir, ok rèðu[8] heldr snemma dags í bæinn, ok var á mikit regn. Þat varð engi varr við fyrr en þeir komu í bæinn, varð þar engi viðrtaka; drápu þeir þar mjök mart manna. Þar fèll Einarr, skipstjórnarmaðr Magnúss konúngs, sumir komust undan á bátum [ok rèru út til Hólms; þá fóru ok utan mjök margir bátar frá Holmi, ok ætluðu inn til bæjarins, áðr en þeir sá, hvar Birkibeinar fóru utan at borg[9]. Magnús konúngr fór íbrot með lið sitt, þegar er hann [sá för Birkibeina[10], [ok út eptir firði, ok svâ[11] alla leið sína suðr til Björgynjar. Þat var mál manna, at nú þótti mjök sýna, hversu [Magnús konúngr ok hans menn voru þá ófúsir[12] til[13] at gánga í fylkta orrostu ímóti Sverri konúngi ok hans liði, er þeir flýðu orrostulaust or bænum, [þegar er þeim kom njósn um ferð Birkibeina[14]; ok hafði Magnús konúngr þá

1) *þ. B.* 2) *v. G.* 3) *á, B, F.* 4) *sá, G.* 5) Laugardaginn, *G.* 6) er menn, *G;* er þeir væru, *F;* at liðit, *B.* 7) *v. G.* 8) fóru, *G;* sóttu, *B.* 9) *v. G.* 10) er hann vissi at Sv. k. var kominn í bæinn, *G.* 11) *v. G.* 12) fúsir, *G.* 13) *frá* [ Magnúsi konúngi ok hans mönnum var þá ótti mikill, *B.* 14) *v. G.*

VIII C[1] manna, en Sverrir konúngr hafði þá [eigi meirr en[2] hálft fjórða C manna; ok enn þat annat, at þá var [trèbórginni svâ vel haldit[3], [ok díkinu[4] fyrir utan[5], at betra var at verja með hálfu minna lið, en til at sækja. Í þenna tíma hafði Magnús konúngr einn allan skipastólinn, ok hafði hann því [allt liðit ok[6] landit fyrir sunnan Þrándheimsmynni, at sköttum ok at skyldum, nema þat eina er Birkibeinar skutust suðr á Mæri [með skútur; ok fóru hvârirtveggju óspakliga, þegar er eigi voru höfðíngjar nær[7]. Birkibeinar höfðu jafnan sveitir[8] sínar í Vík austr, eðr um Upplönd, [þvíat þar var þeim vænst til fèfánga[9]. Heklúngar veittu þeim jafnan árásir, [ok hvârir öðrum[10], ok höfðu ýmsir betr; væri þar ok mart frá at segja, en þó munum vèr [þá atburði mest flytja[11] með frásögn, er oss þikkja merkiligstir, ok[12] sjálfir konúngar hafa verit viðstaddir. Sverrir konúngr lèt [um vârit eptir setja krakana, svâ at allt var krakat hit ytra með sjónum, inn um Gildaskála[13], ok upp um Eyrarnar þvers til árinnar, ok með ánni upp allt at bryggjum; valslönga[14] var ok sett[15] út á Bröttueyri; [kastali var ok gerr[16] uppi við brú.

1) DCCC, *G.* 2) *v. G.* 3) *þ. B*; trèborgin svâ vel haldin, *A*; *v. G.* 4) at díkjum, *F.* 5) þat þó at auk, *b. G.* 6) *v. G.* 7) *v. G.* 8) *þ. G*; vistir, *A.* 9) *v. G.* 10) *v. G.* 11) heldr rita, *B*; rita, *F.* 12) *frá* [ heldr rita þá atburði er, *G.* 13) Gildisskála, *F, G.* 14) valslaungva, *B.* 15) *frá* [ setja valslaungu, *G.* 16) ok gera kastala, *G.*

*Ferð Magnúss konúngs til Þrándheims, ok viðskipti konúnga þar*[1].

72. Magnús konúngr bjóst um [sumarit eptir[2] or Björgyn, ok dróst honum þá enn[3] mikill herr sunnan or landi; voru þá með honum flestir allir lendir menn hans, ok eru nú[4] albúnir; fara síðan norðr til Þrándheims; lagði hann herinum inn um Hólm, ok lá þar nokkurar nætr; Sverrir konúngr sat í bænum. Þá fór Magnús konúngr inn í Þrándheim, ok tók þar leiðángra[5], ok fór svâ til bæjarins út. Hann lá hina fyrstu nótt [við Depil fyrir innan Hlaðhamra[6]; en um morguninn eptir var svâ mikill sjálægr mjörkvi[7], at ekki mátti sjá meirr en stafna á milli [á skipunum[8]; rèri þá Magnús konúngr [í logni[9] inn til Hólms. Ok er Sverrir konúngr heyrði róðr þeirra, en sá ekki, þá hugði hann at þeir myndu atleggja, ok lèt öllu liðinu blása ímót út á Eyrar; en þeir Magnús konúngr voru þá út við Hólm um nóttina. Ok um morguninn lögðu þeir inn at Íluvöllum, ok gengu þar upp [með mestan hluta[10] hersins, ok gengu nær innborginni. Birkibeinar sóttu [ímoti þeim út til borgar[11], ok skutust þeir á [um hríð[12]. Magnús konúngr ok hans menn hugðu, at þeir skyldu

---

1) *þ. P:* Frá M. k. ok Sverri, *B.* 2) vârit, *G.* 3) *b. B, G.* 4) *b. B.* 5) *þ. G*; leiðángr um allan Þrándheim, *A, F.* 6) Hlaðhamar, *F*; *frá* [ fyrir innan Depil, *G.* 7) myrkvi. *B, F.* 8) *þ. G;* skipanna, *F*; skipa, *A*; *v. B.* 9) *v. G.* 10) þorra, *B.* 11) út á móti þeim, *G, B.* 12) *b. G.*

banna Birkibeinum allar flutníngar[1] til bæjarins bæði [á landi ok á sjá[2]; þá brendu þeir brúna á Níð. Sverrir konúngr sótti ut[3] til borgar með sínu liði, ok [lètu þar gera tjaldbúðir[4]. Hann lèt [taka II stofur[5] í bænum, ok lèt flytja út þannig[6], ok setja þar við borgina; sátu nú svâ hvârirtveggju um hríð. [Magnúss konúngs menn voru flestir á skipum um nætr, en skiptu[7] sveitum til at vaka við borg um uætr, ok höfðu þar jafnan fjölmennt; þeir höfðu stóra elda um nætrnar út á völlunum. [Þat sá Birkibeinar, at þángat var ljóst at sjá til eldanna; en þá var myrk nótt, svâ at skamt mátti sjá frá eldinum[8]. Ok á einni nótt vâpnuðust Birkibeinar, ok gengu út or borginni, veittu síðan Heklúngum árás, fundu þeir ok eigi fyrr en örvar hvinu [hjá þeim öllu megin[9]; eigi var ok lángt at biða, áðr en spjótum var skotit. Því næst neyttu Birkibeinar höggvâpna sinna, ok drápu um nóttina mikit lið; en allt sneri[10] á flótta, þat er [undan komst[11]. En þeir er á skipunum voru, [heyrðu lúðragánga[12] ok heróp uppá völluna; þá rèru þeir at landi ok settu upp merki sín, gengu síðan

---

1) tilfluttlíngar (tilflutníngar), *G*; atflutníngar, *B*. 2) af sjó ok landi, *B*. 3) *b. G.*. 4) *v. G.* 5) baðstofur, *F.* 6) *frá* [ gera II stofur, *G.* 7) Heklúngar skiptust um, *G.* 8) *v. G.* 9) *þ. G*; yfir höfuð þeim, *A*; y. höfði þ., *B.* 10) *þ. F*; kom, *A.* 11) því kom við, *B*, *G.* 12) *þ. F*; gánga lúðra, *A*; lúðrana, *B*; luðragánginn, *F.*

upp[1], [ok vilja duga sínum mönnum; en fyrir því at myrkt var á, finna þeir eigi fyrr, en flóttamennirnir hlaupa uppá þá[2]; [fèllu þá margir, at með hlaupi hefði undan komizt, ef ekki hefði þeirra fèlagar sjálfir stöðvat þá[3]; ok því næst mættu þeir [kesjulögum ok[4] sverðshöggum Birkibeina; [Heklúngar fèllu þar margir[5], [varð nú ok engi viðrtaka[6]; flýðu þeir þá harðast[7] til skipanna, er áðr höfðu mest eggjat uppgöngunnar; ok fèll þar mart manna, en sumt hljóp á kaf; margir náðu ok skipunum. Sverrir konúngr fór aptr til landtjalda sinna [inn um borgina, ok hans lið[8]; höfðu nú fengit mikit hlutskipti í vâpnum ok klæðum, gulli ok silfri. En er lýsti um morguninn, þá sá Birkibeinar út á völluna, at Heklúngar lágu þar þykt[9]. þeir Magnús konúngr rèru út til Hólms, ok fám nóttum síðarr fóru þeir [íbrot or þrándheimi, ok svâ[10] suðr til Björgynjar; var þeim þetta mikil skaðaferð; ok þar sat konúngr um vetrinn eptir í bænum, [en Sverrir konúngr sat við sínum mönnum í kaupángi[11].

*Frá Sverri konúngi.*

73. þann sama vetr lætr Sverrir konúngr efna til borgargerðar út á Steinbjörgum; voru

---

1) *frá* [ urðu varir við þetta, hlaupa þeir á land, *G.* 2) *frá* [ *þ. G*; til þeirra, *A.* 3) *b. F.* 4) *v. G.* 5) *v. G*; en er þetta högg kom í lið Heklúnga, *b. B, F.* 6) *v. G.* 7) sem mest, *G*, óðast, *B.* 8) *v. G.* 9) ok bleiktu þar við síðurnar, *b. G*; bleiktu síðurnar út á völluna, *B.* 10) *v. G.* 11) *þ. F*, þrándheimi, *G*; *frá* [ *v. A.*

konúngs herbergi búin í öndverða lángaföstu. Fór konúngr þá út þángat[1] í borgina, ok var þar jafnan um vorit, [með sumu liðinu[2], [en sumt liðit var í bænum[3]. Ok þann vetr lèt hann reisa skip í þrándheimi[4]; var þat miklu meira en þau skip önnur, er þá voru í landi. Þat var III[5] rúm[6] ok XXX[7], ok mikit [í sèr[8]; þetta skip var kallat Maríusúð. Þat var á öndverðum vetri, er Sverrir konúngr [lèt blása til þíngs einhvern dag bæði sínu liði ok bæjarmönnum[9]. Þá talaði Sverrir konúngr, ok sagði: svâ mikit vandræði höfum vèr haft um hríð hvârirtveggju, mínir menn ok bæjarmenn, ok slíkt sama bændr í hèraðinu[10], at hèr er nú sultr ok seyra, sem vân er at, [þar sem svâ mikill herr hefir fæðzt í einum firði[11] II vetr, [síðan er[12] vèr mistum skipa vârra, er oss [hefir öll þýngð[13] af staðit; ok veit ek eigi mörg þau skip hèr innan fjarðar, er herfær sè; ok er þat satt at segja, ef ek vissa vân þess, at vèr Birkibeinar [myndim hèr fá skip, svâ at mèr þætti oss traust at vera, at vèr Heklúngar myndim[14] enn[15] ýmsir atróast. En nú með því at mínum mönnum leiðist beltadráttr þessi, þá [sè ek engan útveginn annan, en[16] snúast til Upplanda, ok þaðan austr

1) *v. G.* 2) *b. G.* 3) *v. G.* 4) *þ. G*; bænum, *A*; kaupángi, *B.* 5) II, *hin.* 6) *b. G.* 7) þrítugt, *G*; hins fjórða tigar, *B.* 8) at því, *B.* 9) hafði þíng einn dag í bænum, *G.* 10) hèruðum, *B.* 11) er vèr höfum hèr setit, *G.* 12) sízt, *G.* 13) hafa öll þýngsl, *G.* 14) fengim nú nokkurra skipa kost, þá myndim vèr Heklúngar, *G.* 15) *b. G.* 16) munum vèr, *G.*

á Vermaland, [eða allt á Gautland. Lauk konúngr svâ sínu máli, at allir hans menn skyldu búast til þeirrar ferðar[1]. En eptir [í vikunni[2] voru járnaðir[3] XX hestar[4]; var þar búizt [æ til þeirrar ferðar hvern dag frá öðrum[5]. þetta spurðist af kaupmönnum, þeim er norðan komu til Björgynjar. [Í Björgyn var þá mikit fjölmenni saman komit, Magnús konúngr ok hans lendir menn, [ok höfðíngjar[6] nær allir; höfðu þeir ok þar öll [hin stærstu skip[7] sín, ok ætluðu at fara norðr at Sverri konúngi; en fyrir því dvalðist sú ferð, at þeir spurðu þat til Sverris konúngs, at hann var búinn braut or þrándheimi. Fóru þá menn Magnúss konúngs í sýslur sínar, ok raufst þá allr þessi samnaðr[8]. En Sverrir konúngr dvalðist í kaupángi fram um jól; ok eptir jólin [lèt Sverrir konúngr búa skútur nokkurar; fór síðan skyndiliga, ok ætlaði at koma á úvart Magnúsi konúngi suðr til Björgynjar. Ok er hann kom suðr á Mæri, tók þá andviðri, ok lágu þar um hríð. En þá er Sverrir konúngr þóttist vita, at njósn myndi fyrir komin til bæjarins hit ytra um eiðit, hvarf hann[9] nú aptr norðr til þrándheims, ok dvalðist[10] þar um vetrinn, ok um vârit eptir.

1) *v. G.* 2) um myrgininn, *G.* 3) skúaðir, *G*; skóaðir, *B*; skauðir, *F.* 4) ok hundrað, *b. F.* 5) dag frá degi, *G.* 6) *b. B.* 7) stórskip, *F.* 8) *frá þriðja* [ Magnús k. lèt þá menn fara í sýslur sínar, er hann spurði þetta, þvíat hann hafði áðr ætlat at fara at Birkibeinum, *G.* 9) fór hann suðr með skútur nokkrar á Mæri, ok fèkk þá andviðri; sneri hann, *G.* 10) sat, *G.*

*Frá orðsending Magnúss konúngs til Viðkunns, ok[1] dráp Þorgils, sýslumanns [Sverris konúngs[2].*

74. Þorgils hèt sýslumaðr Sverris konúngs; hann hafði sýslu norðr á Hálogalandi í nyrðstu[3] þínghá[4]; hann hafði ok finnferð, [ok fór um vetrinn á fjall at finnkaupum ok at skatti[5]. Þá bygði[6] í Bjarkey Viðkunnr Erlíngsson; hann var allra manna [fríðastr sýnum[7], [er þá voru á Hálogalandi[8]; hann var þá XVIII vetra gamall, ok hafði þá nýtekit við sinni föðurleifð. Magnús konúngr sendir Viðkunni orð, at hann skyldi koma [til hans[9], ok [taka af sèr lends manns rètt, sem burðir hans voru til[10]. [Þat var ok margra manna mál, at fleiri hlutir mundu vera í orðsendíngu þeirri við Viðkunn, ok myndi þat vera einkamál milli þeirra[11]. Viðkunnr átti II systr, ok voru báðar fríðar, ok þóttu þeir[12] kostir ágætir; þá var ok[13] úgipt Ragnhildr, systir Magnúss konúngs. Viðkunnr fór um vetrinn inn í fjörðu, ok njósnaði um ferðir Birkibeina. Í þenna tíma var Þorgils kominn af fjalli, ok hafði fengit allmikit fè; þá sat Viðkunnr fyrir honum inní Ægisfirði[14], ok drap þar Þorgils [ok XII menn með honum[15]; tók allt fèit ok hafði með sèr til Bjarkeyjar.

---

1) *þ. P; v. A.* 2) *v. A, G; þ. P;* Cap., *B.* 3) *þ. F;* nærztu, *A;* navrzstu, *G;* norðztu, *B.* 4) þíngá, *G.* 5) *v. G.* 6) bjó, *B, G.* 7) mestr ok f., *G.* 8) *v. G.* 9) á hans fund, *G.* 10) sækja þángat lends manns nafn, *G.* 11) *v. G.* 12) þær, *F.* 13) *b. G.* 14) Avgursfirði, *G.* 15) við XII mann, *G;* ok þá XII saman, *F.*

### *Fall Viðkunns*[1].

75. Um várit eptir bjóst Viðkunnr norðan; hann hafði skip þat er Gullbríngan hèt, var þat tvítogsessa, [ok mikit í sèr; þetta var hit bezta skip; þat hafði átt Eysteinn erkibiskup. Þetta skip var allvel skipat bæði með liði ok vâpnum[2]; vistabyrðíng hafði hann annat skip. Þar voru með honum systr hans báðar, ok Jón drumbi[3] móðurbróðir hans. Þeir Viðkunnr fóru djarfliga, ok ugðu ekki at sèr, höfðu skjöldu sína alla við stafna, en brynjur [voru í kistum undir þiljum niðri[4]. Sverrir konúngr spurði þat, hvat Viðkunnr hafðist at, ok gerði móti honum Bárð Guthormsson ok Ívar selka[5] með VII skútum. [En er þeir komu norðr í Aungli, þá sá þeir skip Viðkunns, at hann sigldi þá norðan um Ófóta; þat var uppstigníngardag snemma[6] um morguninn, at Birkibéinar rèru inn undir[7] Steigarberg[8], ok biðu þar. Þeir Viðkunnr sá þá eigi fyrr en þeir komu at þeim, ok skipin rendu (náliga) saman; hleyptu þeir þá ofan seglinu, en Birkibeinar lögðu[9] at á bæði borð, ok veittu harða atsókn; [en menn Viðkunns höfðu ekki at verjast með nema högg-vâpn[10] ein[11], ok sneri brátt mannfallinu á þá.

---

1) Drepinn Viðkunnr af mönnum Sverris konúngs, *P*; Frá Birkibeinum ok Heklúngum, *B*. 2) *frá* [ *v*. *G*. 3) drumbr, *F*. 4) í kistum, *G*. 5) silki, *F*. 6) *þetta orð b*. *F*. 7) um, *F*. 8) Steigarbjörg, *B*; Steigar, *F*. 9) *frá* [ þeir fundust norðr við Steigarberg; lögðust Birkibeinar, *G*. 10) *þ*. *B*, *F*; bogavâpn, *A*. 11) *frá* [ *v*. *G*.

[þeir Viðkunnr vildu skjóta bátinum ok flytja af konurnar, ok varð þat ekki, þvíat skjótt [rèð um[1]. Birkibeinar höfðu sigr, en[2] Viðkunnr fèll þar ok [náliga allt lið[3] hans. Tóku Birkibeinar Gullbrínguna ok allt þat er á var, ok höfðu suðr til þrándheims ok færðu Sverri konúngi; hann lofaði mjök þeirra ferð.

*Frá ferð Sverris konúngs til Björgynjar*[4].

76. Um [sumarit eptir[5] átti Sverrir konúngr jafnan[6] þíng við [sína menn ok bæjarmenn[7], ok gerði fyrir þeim ýmsa ætlan, ok [staðfestist ekki um þat[8]; ok þar kom, at engi þóttist vita, [hvert ráð hann mundi upp[9] taka[10]. Stundum [var þat mælt[11], at fara skyldi austr til Víkr [eðr á Gautland austr[12]; stundum þat at [gánga á skútur, ok sigla vestr til Orkneyja eðr allt til Suðreyja[13]; [ok hafði Magnús konúngr njósn af þessu, ok sat hann í Björgyn[14], ok dróst þá enn þar saman úvígr[15] herr, ok höfðu fjölða skipa. þat ráð tók Sverrir konúngr at hann steig á skútur, ok hafði XX [skip, ok öll smá[16]; sagði þat liðinu, at hann vildi norðr á Hálogaland. En er hann kom út or þrándheimsmynni [til Agðaness[17], þá var á hvast veðr

---

1) skipti um, *F.* 2) *frá fyrra* [ *v. G.* 3) nær öll sveit, *G.* 4) *þ. P*; Frá ráðagerð Sv. k., *A.* 5) vârit eptir páska, *B, G, F.* 6) opt, *G.* 7) menn sína, *G.* 8) varð ekki staðfast um, *G.* 9) *b. F.* 10) *frá* [ hvat konúngr barsk fyrir, *G.* 11) mælti hann þat, *G.* 12) *v. G.* 13) at þeir mundu sigla vestr um haf, *G.* 14) M. k. sat í Björgyn ok spurði öll þessi tíðindi, *G.* 15) mikill, *G.* 16) *v. G.* 17) *v. G.*

1183 norðan, ok lèt hann blása liðinu [af skipunum, ok átti húsþíng[1] ok mælti: þann kurr sem ek hefi ágert um [þessa ferð[2], at fara norðr á Hálogaland, [eða vèr myndim ríða austr á Gautland, en þat var þó ekki með alhuga mælt; ok er oss þat þúngt at taka erfiðan róðr til lítilla gæða; en vèr erum þar komnir náliga[3] í botnholu fyrir þeim Heklúngum. Nú sè ek at inndælla mun vera at láta skúturnar svífa suðr [um Stað[4] með landi [fyrir vindi[5] [um sundin[6], ok er svâ sem mælt er, at sá hefir er hættir; [ok eigum vèr þó kosti, þegar er vèr viljum, at bregða til hafs út, ok sigla hit ytra[7] til Víkr austr. [Allir sögðu at þat væri hit bezta ráð[8]. Sigldu þeir þá [suðr alla leið til þess er þeir komu[9] suðr um Stað. Þá lèt konúngr samanleggja skipunum, ok átti tal við sína menn ok mælti: nú sýnist mèr vel hafa ráðizt um vâra ferð hèr til, ok mun nú ráðuligast at snúa útleiðis, ok svâ til Víkr austr; ok er gott heilum vagni heim at aka. [Ok er[10] sá kostr at leita til Björgynjar, ef [nokkur væri föng á[11], ok er þat ekki mjök ráðligt; en heita má þat Birkibeinum hvöt; en eigi vil ek þess [einkar mjök[12] fýsa. [Þat kuru allir[13] Birkibeinar

1) til landgaungu, *G.* 2) ferð vâra, *G.* 3) þat hefi ek ekki mælt með aluga, eru vèr þar komnir, *G.* 4) *v. G.* 5) forvindis, *B*; *v. G.* 6) um eyjasundin, *G*; eptir sundum, *B.* 7) megum vèr, ef þèr villt, snúa útleið, ok svâ, *G.* 8) *v. G.* 9) í einni, *G.* 10) þá er til, *G.* 11) föng þætti í því vera, *B.* 12) einkum, *G.* 13) margir, *B.*

at fara til bæjarins, ok þótti gott ef þeir fengi nokkut fáng á Heklúngum. Síðan[1] gerði konúngr nokkurar skútur inn í Úlfasund, en hann sjálfr sigldi hit ytra [til Áleyjarsunds[2]. Birkibeinar tóku inní Úlfasundi II skútur af Heklúngum, er verit höfðu á njósn, ok drápu flesta alla, en gáfu grið nokkurum mönnum, ok höfðu tíðindi af. En þeir sögðu, at III skútur lágu í Áleyjarsundi[3] á njósn, en viti var brendr[4] suðr á Háeyju[5], en annarr innan [á Fenhríng[6], ok sèr frá þeim [vitanum bæði hinn nyrðra[7] vitann, ok svâ[8] inn til bæjarins. Þat sögðu þeir ok, at allr herinn svaf uppi[9] í bænum, ok svâ í hverjum garði [hverr ríkismaðr[10] svaf[11]; [sögðu at allt liðit ugði ekki at sèr, ok[12] öll skip flutu tjölduð fyrir bryggjum. Síðan komu þeir til Sverris konúngs með þessum tíðindum. [En er þeir sigldu norðan um sundin[13], gerði konúngr fyrir lið með II skútum, er [þeir tóku af Heklúngum, ok bundu við stafna skjöldu þá er þeim Heklúngum voru auðkendir, ok þeir sjálfir höfðu átt[14]; fóru þær skútur suðr. En er þeir sigldu á fjörðinn suðr frá Drifeyjum, þá sá Heklúngar, ok kendu brátt skútur þessar

1) *frá* [ allir kuru at fara til Björgynjar; þá, *G.* 2) *þ. lika B*; Elfarsunds, *F*; *frá* [ *v. G.* 3) *þannig hèr F*; Atleyjarsundi, *B*, *G*; Laugjarsundi, *A.* 4) *v. G.* 5) Háeynni, *G*, *B*, *F.* 6) *þ. B*, *G*, *F*; af Rign, *A.* 7) norðra, *A.* 8) *frá* [ *v. G.* 9) *v. G.* 10) ríkismanna, *B*, *F.* 11) *frá* [ ríkismenn sváfu, *G.* 12) *v. G.* 13) sundit, *B*; *frá* [ *v. G.* 14) Heklúngar höfðu átt, *G.*

ok skjöldu, ok [ætluðu at vera myndu fèlagar þeirra, ok vöruðust ekki; fundu eigi fyrr at úfriðrinn væri, en skúturnar brunuðu at þeim í sundit; en Birkibeinar sendu þegar bæði skot ok spjót[1]; hljópu Heklúngar upp á land, [en sumir voru drepnir[2]. Birkibeinar tóku nú skúturnar ok allt þat er á var, ok biðu þar konúngs. Eptir þetta rèru þeir Sverrir konúngr suðr leið sína, [ok er þeir sóttu suðr í sundin[3], þá[4] gerði konúngr enn fyrir skúturnar, þær er Heklúngar höfðu átt, ok bað þá taka vitann á Háeynni[5], en Birkibeinar voru heldr veiðibráðir, ok rèru þeir suðr skjótara eptir, en konúngr vildi, ok varð vitakarlinn varr við, ok skaut eldi í vitann; [en þó[6] varð ekki vart við til hins syðra vitans, þvíat Birkibeinar komu skjótt ok tóku vitakarlinn, en brutu niðr vitann. Róa þeir konúngr suðr með sjálfu landi, þvíat þar bar skuggann [á sæinn[7] af fjöllunum. Ok áðr en þeir rèri at Holdhellu, átti konúngr tal við liðit, ok mælti: engu [er enn spillt í[8] um vârt ráð[9], ok megum vèr nú láta fljóta suðr um bæinn, ok hlaupa svâ [um horn[10] þeim; en allir lètust fúsari til bæjarins at leggja. Konúngr segir svâ, at hann vill ekki þá letja,

1) hugðu sína menn vera mundu, ok er skúturnar komu at þeim, lètu Birkibeinar gánga skotin, *G*. 2) *þ. G*; ok voru drepnir, en margir særðir, *A*; voru margir drepnir, en sumir særðir, *F*; ok v. m. d. ok sæ., *P*. 3) sundit, *B*. 4) *frá* [ *v. G*. 5) *þannig hin*; eyjunni, *A*. 6) *þ. hin*; ok, *A*. 7) *v. G*. 8) höfum vèr enn í spillt, *G*. 9) mál, *G*. 10) yfir hönd, *B*.

[ok kvað þat líkara, at Heklúngar mundu vera konúngi sínum [litlir til vârnar[1], ef þeir vakna svefnærir, ok ölóðir munu þeir niðr hafa lagzt: man þeim mjök á felmt verða, þá er vèr komum[2]. Vèr skulum svâ hátta atlögunni, at Eiríkr, bróðir minn, skal róa undir bergit, ok X skútur [hinar stærstu[3], ok gánga þar upp, en láta fara hans[4] merki utan um Kristskirkjugarð, ok svâ fram í konúngsgarð; en ek mun róa [fram fyrir Hólm, ok[5] inn fyrir bryggjur, ok leita til skipanna; munum vèr þegar upp gánga, sumir [fyrir innan Sandbrú, en sumir um Miklagarð, ok upp í Maríukirkjugarð[6]; en sumir[7] [inn um Petrskirkjugarð, ok svâ upp á stræti[8]. Úlfr af Laufnesi skal róa inn í vâgsbotn [með II skútur, ok gánga þar upp með merki; fara svâ innan eptir bænum[9], ok gegna þeim er þángat stefna, ok látit þar lúðr gánga [æ sem títt er[10].

[*Flótti Magnúss konúngs, ok sigr Birkibeina*[11].

77. Nú greiddi Sverrir konúngr atróðrinn [sem skipat var; síðan ljósta þeir árum í, ok róa sem ákafast inn[12] fyrir bryggjurnar, [þar er lángskipin flutu[13]; [hjuggu strengina, ok hrundu út ífrá bryggjunum, flutu skipin út á

1) ekki mjök stöðugir, *B.* 2) *frá fyrra* [: þvíat ek ætla þeim munu um felmt verða, ef vèr komum þeim dyn fyri dyr, *G.* 3) *v. G.* 4) *b. G.* 5) *v. G.* 6) mikla kirkjugarð, *F.* 7) *frá* [ *b. F.* 8) *frá* [ *v. G.* 9) *v. G.* 10) *v. G.* 11) *þ. P*; Slag í Björgyn, *A.* 12) *frá* [ ok svâ hvârir, sem ætlat er, ok þegar þeir koma, *G.* 13) *v. G.*

1183 vâginn, þvíat engir menn voru til gæzlunnar[1]. Birkibeinar hljópu upp á bryggjurnar; [fór þá upp merki konúngs[2], ok æptu þegar heróp. Eptir þat hljópu þeir upp í bæinn, stefndu í garðana, þar er þeir vissu vân Heklúnga (fyrir); fèll þá mjök mart af Heklúngum, [en allr fjölðinn flýði[3]. Þá er Sverrir konúngr kom upp til Maríukirkju, þá var þar fyrir Jón Hallkelsson, ok bað griða. Konúngr gaf honum grið, ok sonum hans II, Rögnvaldi ok Hallkeli[4]. Konúngr sneri nú út eptir strætinu, en sum sveitin inn eptir bryggjum, ok hjuggu út skipin, bæði [kaupskip ok lángskip[5]; var allr vâgrinn fullr af skipum. Þeir Úlfr sóttu innan um strætit, ok [drápu mart manna, ok[6] fengu enga viðtöku. [En þá er þeir Eiríkr lendu út í hólminum, heyrðu þeir heróp mikit inn í bæinn, ok hugðu at Heklúngar myndi[7] (hafa) orðit varir við, ok veita þeim viðrtöku; þvíat þeim var vân, ef Magnús konúngr væri viðrbúinn, at hann hefði svâ mikit lið fyrir í bænum, at þeim væri úfæra at berjast við hann; en eigi at síðr hljópu þeir upp djarfliga, ok æptu heróp, ok hljópu utan um Kristskirkjugarð[8]. Magnús konúngr svaf í höllinni ok öll [hirðin ok konúngs sveitin[9]. Konúngr hafði verit í svölunum

---

[1]) höggva þeir strengina ok hrinda út skipunum, *G.* [2]) *v. G.* [3]) *v. G.* [4]) Hallkatli, *B, F.* [5]) smá ok stór, *G.* [6]) *v. G.* [7]) aptr hverfa ok (*ofaykit*), *b. A.* [8]) *frá* [ þeir Eiríkr konúngsson fara utan um Kristskirkjugarð með ópi ok lúðragángi, *G.* [9]) sveit hans, *G.*

úti[1], ok heyrði, er hit fyrsta kom ópit inní bænum; hljóp konúngr þá fram eptir svölunum til Postolakirkju. Þá heyrði hann annat heróp úti Kristskirkjugarði; hann hljóp út um svalarnar ok ofan í kirkjugarðinn; var þat [furðuliga hátt[2] hlaup. Konúngr stefndi upp um biskupsgarð, ok svâ [fyrir ofan veisuna, ok fyrir ofan Coprinn[3], ok svâ[4] inn fyrir ofan Nikolás-kirkju, komu [þá til hans menn hans; fóru þá enn allt hit efra inn til Ólafskirkju, kom þá saman lið hans[5]. Birkibeinar höfðu ekki randsakat bæinn, [fyrir því at þeir vildu út í konúngsgarðinn skynda sem mest[6]. Þá er merki Sverris konúngs fór innan [í konúngsgarð[7], þá óð annat merki utan ímót[8] eptir garðinum, ok skutu hvârir at öðrum; var þá við sjálft[9] at þeir myndi berjast, áðr [en þeir kendi at þar fór Eiríkr konúngsson[10]; snerust þá allir saman[11] ofan at höllini[12], ok sóttu at fast. Magnúss konúngs menn vörðust [með vâpnum ok ofngrjóti[13]; var þat löng hríð; fèll þar mart [manna ok[14] góðra drengja. En er þeir vissu at konúngr var eigi þar, þá lèt Sverrir konúngr gefa [grið flestum öllum þeim, er þess beiddust[15]. Eysteinn erkibiskup var með skipi sínu yfir

1) *v. G.* 2) furðu hátt, *G, B, F.* 3) Kopr, *B.* 4) *frá* [ *v. G.* 5) þar þá til hans mart Heklúnga, *G.* 6) *v. G.* 7) *þ. B, G*; at bænum, *A.* 8) *v. G.* 9) báit, *b. F.* 10) þeir kendust; fór Eiríkr þar, *G.* 11) samt, *G.* 12) hallinni (*allstaðar*), *B, F.* 13) *v. G.* 14) *v. G.* 15) þar mörgum mönnum grið, *G.*

við Jónsbryggjur; hljópu þá menn hans upp með vâpnum, ok sóttu inn á Jónsvöllu, ok rèðu[1] til liðs við Magnús konúng, en Birkibeinar mættu þeim ok drápu af þeim XXX manna, en ráku aptr alla aðra, ok voru þeir margir sárir er undan komust; fèllu þar frændr erkibiskups, Ólafr lángi ok Guðbrandr Þorbergsson. Útí höllinni fèllu þeir Hallvarðr marardrap[2], ok Páll Eiríksson or Uppdal. Þá er Magnús konúngr ok menn [hans komu saman[3] upp um Nunnusetr, þá mætti konúngr mörgu[4] liði sínu, ok spurði, ef menn vildi snúa aptr til bæjarins, [ok berjast[5], [kvað sèr sagt[6], at Birkibeinar höfðu lítit lið; [en margir svöruðu, kváðu þat ekki ráð vera, at vâpnlausir menn gengi til orrostu, þvíat þat var fátt eitt manna þar, er alvæpni hefði, en mart var vâpnlaust ok lítt klætt, þvíat menn höfðu skjótt sprottit upp or rekkjum sínum; konúngr hafði (ok) ekki merki ok engan lúðr[7], ok af öllu þessu þóttust menn ekki færir til orrostu, snerust þá suðr til Strindar[8], ok þaðan í Harðángr; rèðu sèr þar til skipa, ok fengu sèr skútur nokkorar[9] ok ferjur. Margir fóru ok síðan suðr með landi bæði dag ok nótt, kom þá mart lið hans eptir honum; en sumt, þat er seinna varð or bænum,

1) ætluðu, *G.* 2) marardraf, *B*, merardráp, *F.* 3) var kominn, *G.* 4) *b. G.* 5) *b. G.* 6) kvaðst hyggja, *G.* 7) allir svöruðu því, at þat væri ekki ráð, þar sem margir voru nær vâpnlausir; þeir höfðu ok aungan lúðr ok ekki merki, *G.* 8) Strindarfjarðar, *G, B.* 9) margar, *G.*

hafði snúit upp [til Alrekstaða[1], ok norðr um fjallit, ok komu ofan í Ostrarfirði, ok fóru þaðan upp á Vors, ok svâ hit efra norðr um Sogn, ok þá upp á Valldres, ok hit efra allt í Vík austr[2].

*Sverrir konúngr sættist við Eystein erkibiskup*[3].

78. Sverrir konúngr tók í Björgyn allan skipastól Magnúss konúngs, þar tók hann ok alla (ina ágætustu) gripi hans; þar tók hann ok kórónuna ok gullvöndinn, er hann var vígðr með, ok allt vígsluskrúð hans; fengu liðsmenn þar mikit hlutskipti. Eysteinn erkibiskup hafði þat sumar[4] komit vestan af Englandi[5] snemma, ok hafði verit III vetr á[6] Englandi frá stóli sínum; ok þá sættist erkibiskup við Sverri konúng, ok fór hann um sumarit norðr til stóls síns. [En er Jón Hallkelsson ok synir hans komu á fund Sverris konúngs, þá bauð hann þeim[7] at fara [í griðum, hvârt er þeir vildu, norðr til búa sinna, eða austr eptir Magnúsi konúngi; en þeir beiddust at fara til Sverris[8] konúngs[9]. Konúngr [mælti móti[10]: þvíat tysvar hafi þèr áðr svarit mèr eiða, ok haldit hvâr-

1) *þ. F*; Alfekstaða, *A*; um Alreksstaði, *B.* 2) *frá* [ um Alreksstaði, ok lètti eigi fyrr en þeir komu austr í Vík, *G.* 3) Sverrir var í Björgyn, *B*; Frá Jóni Hallkelssyni ok sonum hans, *P.* 4) sama vâr, *B.* 5) *v. hin.* 6) *þ. G*; í, *A.* 7) Sv. k. bauð Hallkatli Jónsyni (*rángt skrifað*) ok sonum hans, *G.* 8) Magnúss (*einnig ritvilla*), *B.* 9) *frá* [ til móts við M. k., en Jón vildi heldr vera með Sv. k., *G.* 10) kveðst þess vera úfús, *G.*

iga; ok eigi at síðr svörðu þeir enn (eiða) hit þriðja sinn Sverri konúngi; ok litlu síðarr fóru þeir íbrot, ok austr til Magnúss konúngs. [En er Sverrir konúngr spurði til Magnúss konúngs, bjóst hann sem hvatligast, ok fór eptir honum austr allt á Agðir, ok funnust ekki at því sinni; ok sneri hann aptr[1] síðan til Björgynjar, ok dvalðist þar um hríð[2]; en Magnús konúngr fór um sumarit suðr til Danmarkar á fund Valdhamars[3] konúngs, ok flýði þá annat sinni landit fyrir Sverri konúngi.

*Dráp sýslumanna Sverris konúngs*[4].

79. Sverrir konúngr skipaði [sýslu mönnum sínum allt um[5] Rogaland ok Hörðaland. Ívar dápa[6] sendi hann inní [Sogn í[7] sýslu. Um haustit eptir[8] fór hann norðr til þrándheims öllu liði sínu, ok var þar um vetrinn. Ok er Sverrir konúngr var norðr farinn, líkaði Sygnum ekki við sýslumennina. þat var litlu fyrir jól at sýslumenn kröfðu útgerða til jólaveizlu sèr, ok ætluðu at sitja í Lúsakaupángi; en kaupángsmenn[9] [urðu við þetta óðir, ok sömnuðust saman Sókndælir ok Eiðbyggjar, ok fóru til kaupángs, komu þar[10] jóla aptan; snúast þá ok til kaupángsmenn með þeim, ok veittu atgöngu sýslumönnum konúngs. Fyrir

---

1) á Ögðum, *b. B.* 2) *frá* [ *v. G.* 3) Valdamars, *B, F.* 4) af Sygnum, *b. P*; Frá Sverri konúngi, *B.* 5) þá sýslumönnum allt um, *G*; mönnum sýslu um allt, *B.* 6) dafa, *B.* 7) *v. G.* 8) *v. G.* 9) bændr, *B.* 10) vildu þat fyrir aungan mun, Sókndælir fara til kaupángs, *G.*

þessu úráði[1] voru mest Arnþórr[2] af Hvali ok 1183
Ísak[3] þorgilsson, ok synir Arngeirs[4] prests Gautr ok Karlshöfuð. Ívarr dápi bað griða, ok bauð at fara íbrot með alla sína menn. Bændr vildu þat eigi, [ok gengu at þeim[5], ok drápu þá sýslumennina, ok flesta[6] alla sveit þeirra; en á laupi komust undan þeir er lífit þágu, ok komust[7] þeir hit efra norðr til Sverris konúngs, ok sögðu honum þessi tíðindi, ok svâ þat, at Sygnir köllušust hafa drepit þjófa[8] ok illmenni, ok tölðu þá óbótamenn.

*Gör Maríusúðin[9].*

80. þat sama sumar er Sverrir konúngr hafði tekit[10] skipin í Björgyn, var Maríusúðin [búin ok[11] alger; ok um haustit [er Sverrir 1183.
konúngr kom norðr, þá[12] lèt hann setja fram skipit. Skipit var gert fyrir ofan bæinn, ok var þat mál manna, at eigi myndi mega framsetja, nema garðar manna væri brotnir; ok kölluðu menn, at konúngr lýsti í þessi skipgerð mikla[13] ágirnd ok ofsa, mæltu margir illa fyrir skipinu; en at því[14] reyndist, er fram var sett, at konúngr hafði svâ fyrir sèt [ok ætlat[15], at skipit gekk fram, ok þurfti hvârki at brjóta hús nè garða til. Ok þá er skipit hljóp

[1]) ráði, *G.* [2]) Arndór, *G.* [3]) Ysakr, *B.* [4]) Alfgeirs, *F*; Algeirs, *B*, *G.* [5]) *v.* *G.* [6]) nær, *G.* [7]) fóru, *G.* [8]) ok ránsmenn, *b.* *F.* [9]) Flotat Maríusúðinni ok tala Sverris konúngs yfir, *P.* [10]) tekin, *G.* [11]) *v.* *G*, *B.* [12]) *v.* *G.* [13]) *v.* *G.* [14]) hinu, *G.* [15]) *v.* *G.*

1183

af stokkunum fram á ána, þá bilaði í skarar[1] nokkurar; [því at svâ[2] hafði atborizt um vetrinn, þá er Sverrir konúngr hafði farit suðr á Mæri, þá var skipit reist meðan í kaupángi, ok komnar voru IX sýjur [á hvârt borð[3], þá er konúngr kom aptr. En er hann sá smíðina, þá mælti hann: þetta skip er miklu minna efnat, en svâ sem ek vil at sè; nú skal högga í sundr skipit, ok leggja í [kjöl XII álna lángan[4]. Smiðrinn mælti móti, en konúngr rèð, ok varð þat at skipinu, at samskarat[5] varð mjök um botninn; ok hafði þar bilat at skörunum þá er fram var sett. Sverrir konúngr var uppi í skipinu, þá er á vatn var komit, ok mælti: guð sè þess lofaðr, ok hin helga mær María, ok hinn helgi Ólafr konúngr, at þetta skip kom með heilu á vatn, ok engum manni at meini, sem margir gátu, ok ræddu þar um [úvingjarnlig mál[6] til vâr, sem guð fyrirgefi þeim þat! Nú þikki mèr þat [líkast, at eigi myni hèr vera þeir menn margir, er sèt hafi fyrr jafnmikit lángskip á vatni fljóta sem þetta er, ok[7] er þetta mikil landvörn fyrir vârum úvinum, ef til þessa skips vill [falla nokkur hamíngja[8]; vil ek ok þetta skip gefa á traust ok trúnað hinnar helgu Maríe[9], ok kalla þetta skip Maríusúðina; vil ek

---

1) skarir, *B*; skararnar, *F*. 2) þat, *G*. 3) hvârumegin, *G*. 4) XII álna kjöl, *G*. 5) *þ. B, F*; samskart, *A*, *G*. 6) mörg úvíslig orð, *B*. 7) vænt at fáir menn munu hafa sèð lángskip meira, *G*. 8) auðna fjalla, *G*; ef hamíngja vill fyla skipi þessu, *B*. 9) Maríu, *G*.

ok[1] þess biðja, at hin helga mær María sè vörn ok gæzla fyrir þessu skipi; ok hèr til jartegna vil ek gefa Maríu[2] þá gripi, er [meirr falla[3] til guðs þjónustu: en þat eru messuföt[4] þau er erkibiskup er sæmiliga búinn um hátíðir, þótt hann beri; ok vænta[5] þar ímót, at hon [mun álíta þessar gjafar[6], ok [veitta sinn styrk ok gæfu[7] bæði skipinu, ok þeim [er á, ok svâ[8] öllum þeim[9], er [með því fara[10]. Konúngr lèt grafa í ennispánuna[11] bæði fram ok aptr helgadóma; hann skipti ok messuklæðunum, lèt fara hökulinn til Maríukirkju, en kantarakápu til Helgasetrs[12], ok öll önnur til Núnnusetrs á Bakka. Maríusúðin var ekki fagrt skip, allt minna til skutanna en um mitt, ok voldi því mest þat er aukit hafði verit; [konúngr lèt gera at skipinu, þar er lest hafði[13]. Sverrir konúngr lèt gera um vetrinn nokkur lángskip, [en endrbæta sum, ok búa öll sem bezt[14]. Nú var gör Hjálpin, er Þórólfr[15] rympill hafði, ok var VI[16] rúm ok XX; þá var ok görr Viðsjáin, er Úlfr af Laufnesi hafði, ok enn því næst mikil [at rúmatali[17].

---

1) þarmeð, *b. G.* 2) drottníngu, *b. F.* 3) skal hafa, *G;* heyra til, *B*; hæfa, *F.* 4) messuklæði, *B*, *G*, *F.* 5) vætta, *G.* 6) muni til líta þessara gjafa allra saman, *G.* 7) með sínum styrk heill ok gæfu gefa, *G.* 8) *b. G.* 9) *b. G.* 10) á búa, *B.* 11) *þ. G*; ennispáninn, *A*; ennispónunum, *F.* 12) Helgisetrs, *hin.* 13) *v. G.* 14) *v. G.* 15) Þjóðólfr, *b. B.* 16) VII, *B.* 17) *b. G.*

*Sigling Sverris konúngs or kaupángi*[1].

81. Um vârit eptir páska bjóst Sverrir konúngr norðan or Kaupángi, ok hafði III skip ok XX, [ok flest stór[2]. Þar var þá með honum Eiríkr bróðir hans, Úlfr af Laufnesi, Úlfr flý[3], Bárðr Guthormsson, Ívarr selki[4], Hávarðr Jarlsson; þeir höfðu mikit lið ok frítt. Konúngrinn hafði þá Maríusúðina; [var þar skorat[5] á hana[6] CC manna ok LXXX. Konúngr lèt bera á skipit út III[7] kistur, ok báru IIII menn hverja út, ok þóttust menn úgerla[8] vita, hvat í myndi vera. Eiríkr konúngsson hafði Óskmeyna, ok var þat nær hálfþrítogt. Sverrir konúngr fór nú með liði sínu suðr með landi; [þeir lágu í Steinavâgi, ok hafði konúngr þar húsþíng ok talaði, segir svâ: at hann hafði enga frètt þá til Magnúss konúngs, er þeim væri bráðs úfriðar af vân; bað[9] menn vera spaka ok friðsama, frètta vandliga hvat [er títt væri, ok íhuga[10] um hvers manns ræður[11], hvârt er hann væri [meira háttar eða minna[12], ok kunna honum at segja allar nýlundur, þótt þeim þætti [lítils[13] vert[14], [ok talaði skamt örindi ok snjallt. Þeir lágu ok í Hereyjum; þar hafði konúngr

1) *þ. B;* Brend bygð í Sóknadal, *A.* Frá ferð Sverris konúngs suðr með landi, *P.* 2) *v. G.* 3) fley, *F.* 4) silki *F.* 5) talit, *B;* skráð, *F.* 6) *frá* [ voru á henni, *G.* 7) IIII, *G, F.* 8) eigi, *G.* 9) ok höfðu mikit lið ok frítt. Konúngr bað nú sína, *G.* 10) væri í hverju, *G.* 11) *frá* [ við sik væri umtal manna, *B.* 12) meiri eðr minni, *G;* meiri fyri sèr e. minni, *B.* 13) um, *b. G.* 14) *frá* [ .lítit tilkoma, *B.*

ok húsþíng, ok talaði enn allt hit sama sem fyrr[1]. [Þaðan sigldi hann suðr fyrir Stað, ok fengu hvast veðr, ok höfðu raskótt[2] fyrir stálinu; varð Maríusúðin klökk mjök, ok skaut[3] lykkjunum; sneri konúngr inn til Úlfasunda; ok [er hann lá þar[4], urðu menn varir við, hvat í þeim miklum kistum var[5]; var þar þá [tekinn or skipsaumr[6], ok færðr í skipin[7]. Konúngr fèkk ok reksaum í hvert hálfrými, [ok bað þá varðveita, er þar bygðu, ok taka til þá er þeir þyrfti. Sverrir konúngr fór nú leið sína, þar til er hann kom suðr at Sognsæ; þá sagði hann[8] liðinu, at hann vill snúa inn í Sogn, ok heimta gjöld eptir menn sína, [þá er Sygnir höfðu aftekit[9]. Síðan beiddust menn at fara til Björgynjar, þeir er örindi áttu þannig[10]; en fyrir því at konúngr vissi sèr enga vân úfriðar [svâ bráðindis[11], [eða skjótrar liðsþurftar[12], þá lofaði hann öllum þeim[13] [suðr at fara[14], ok fóru III skip suðr. Fyrir þessu liði rèð Svína-Petr; nú skiptust menn milli skipanna, [fóru þeir suðr er örindi áttu, en aðrir í staðinn í rúm þeirra[15].

1) *v. G.* 2) ráskot, *B*; ravskótt, *F.* 3) *frá* [ þeir fengu hvast veðr fyri Staði, ok varð Maríusúðin klökk mjök fyri stálinu, ok skaut mjök, *G.* 4) lá þár til þess er gaf, *F.* 5) *þ. G*; hafði verit, *A.* 6) brotinn upp saumr, *F.* 7) *þ. G*; skipit, *A.* 8) konúngr sagði þá, *G.* 9) *v. G.* 10) *b. G.* 11) *b. G.* 12) *b. F*; *frá fyrra* [ einkis von bráðligs háska, *B.* 13) er báðu, *b. F.* 14) *v. G.* 15) *v. G.*

1194. *Sverrir konúngr brendi í Sogni*[1].

82. Sverrir konúngr sneri inní Sogn, ok hafði XX skip; lá fyrst í Rúslum[2], ok sendi boð inn í Sóknadal, at bændr skyldi koma til hans, ef þeir vildi sættast við hann, ok lagði þeim stefnu í Hvamsey[3]; fór þá konúngr inn þángat; komu þar bændr, ok festu konúngi gjald. Konúngr dæmdi á hönd[4] þeim XV merkr gulls, ok lagði þeim III nátta stefnu, at gjaldit skyldi koma út til hans. Fóru bændr heim, [ok sögðu sína ferð slíka sem var; undu þeir illa við, ok[5] gerðu þeir ráð sitt allir saman bændr; kom þat ásamt, at þeir nýttu sèr þessa stund, er konúngr hafði gefit þeim, tóku þat ráð, at [þeir fluttu[6] fè sitt á fjöll upp ok merkr, ok eyða alla bygðina. En er konúngr fann, at [bændr mundu rjúfa stefnuna, ok liðin var sú stund, er á var kveðin, þá leysti hann flota sinn, ok sigldi inn eptir firði. Ok er hann kom þar, er[7] firðirnir skiljast, þá gerði hann frá sèr Úlf af Laufnesi ok Þórólf[8] rympil með VI skipum inn til Lúsakaupángs, ok bað þá elda[9] [þar baðstofur[10], ok [taka at verkakaupi[11] slíkt, er þeir vildu. Þat er frá þeirra ferð at segja, at[12] þeir komu til Lúsakaupángs,

1) *þ. B.* Hernaðr Sverris konúngs í Noregi, *G.* 2) Ryslum, *G.* 3) *þ. G, F*; Hvarfsey, *A.* 4) hendr, *G.* 5) *þ. frá* [ *F*; síðan, *A.* 6) flytja, *G.* 7) þeir rufu stefnuna, þá siglir konúngr inn þar sem, *b. G.* 8) Þjóðólf, *B.* 9) þeim, *b. B.* 10) baðstofur bænda, *G.* 11) verðkaup, *B*, *F.* 12) er, *G.*

ok ræntu þar fè öllu því er þeir fengu, en brendu kaupstaðinn; ekki fengu þeir af mönnum. Sverrir konúngr sneri inn í Norafjörð XIIII skipum, ok lagðist inn við Sóknadal; var þat óðinsdaginn[1] at apni; en þórsdaginn[2] at morni lèt hann blása liðinu til tals, ok segir ætlan sína; bað liðit vâpna sik ok gánga upp í dalinn, [þar II[3], er einn [þeirra sveitúngr[4] væri eptir at gæta skipanna; bað þá skipa[5] til[6] af öllum skipum, [ok mælti svâ: fari menn gætiliga, þeir er uppgánga, þá er menn fara nær skógunum, eða þar er leynin eru fyrir, at menn fái eigi mein af áskotum þeirra; drepit ok því eina menn, ef þeir vilja sæta[7] áhlaupum við yðr; [takit fè hvar sem þèr fáit[8]. En ef bændr forðast fund vârn, ok vilja eigi sættast við oss, þá skulum vèr svâ hèðan fara, at bændr skulu [vân eiga bakelda[9] eða smíðarkola, þar sem[10] nú eru bæir þeirra; látit aldri kot eptir standa, nema þèr gætit til um kirkjur, þar er svâ má. Farit nú hermannliga, er yðr er lofat, [ok þat boðit, fyrir því at margir fara þá úspakliga, er ek banna, ok ek legg við líf þeirra ok limar[11]. Síðan lèt hann uppsetja merkit, ok sneri á leið liðinu[12], þá þeystist[13] eptir allr múgrinn. [Nú

---

1) fimta daginn, *B.* 2) föstudag, *B.* 3) II menn þar, *G.* 4) *v. G.* 5) skipta, *G.* 6) *frá* [ or hverju hálfrými, *G.* 7) hann bað menn ræna fè, en eigi drepa menn, utan bændr sæti, *G.* 8) *v. G.* 9) bakstrelda, *F.* 10) *frá* [ eiga þar smíðarkol er, *G.* 11) *v. G.* 12) *þ. G*; ferðinni, *A.* 13) geystist, *B.*

1164 litaðist konúngr um, ok sá[1] at fátt eitt var eptir at skipunum; [þá kallaði hann ok mælti; bað eigi liðit gánga á land upp ok[2] eyða skipin: [ok ljá þess færis úvinum vârum at taka skipin undan oss, þvíat með mannhættu ok miklu starfi fengu vèr þau. En svâ var fólkit geyst, at fátt eitt lèt sem heyrði þetta, er konúngr mælti[3]. Þá sneri sjálfr konúngr ofan til skipanna[4], lèt hann skipin heimta út undir strengi. En er Birkibeinar gengu upp, verða þeir ekki við menn varir, ok við engan búsmala; en auð voru öll hús, þar er þeir komu. Gengu þá Birkibeinar þórsdaginn upp eptir dalinum, ok um nóttina eptir, ok funnu einn mann, þann er þeim sagði þau tíðindi, at[5] allt fólk [ok fè[6] hafði flýit á fjöll ok heiðar[7]. Frjádaginn [þegar í sólarroð, þá viku[8] Birkibeinar ofan ferð sinni [or dölunum[9], ok þá er einhverir[10] komu til [þess bæjar er efstr var í dalinum[11], þá skjóta þeir þar eldi í ok brenna. Ok [er þetta sá þeir er neðarr fóru, þá gera þeir slíkt hit sama, ok nú gerir þat hverr at öðrum, ok leggja eld í hús þar sem staddir eru[12]. [Þá var lítill vindr á, en svâ var reykrinn mikill, er öll tók náliga senn bygðin at brenna, þá tók hverr

1) *frá* [ sá konúngr, *G.* 2) kallar hann þá, at menn skyldi eigi, *G.* 3) en engi lèt sem heyrði, *G.* 4) ok þá er hann sá at þar var liðit fátt eitt þá (*ofaukit*), *b. A.* 5) *þ. G*; er, *A.* 6) *v. G.* 7) merkr, *G.* 8) *frá* [ viku sneru, *G.* 9) eptir dalnum, *G.* 10) þeir, *G.* 11) efsta bæjar, *G*; er þeir fundu efstan, *B.* 12) lètu svâ gánga ofan eptir bygðinni, *G.*

reykrinn annan um allan dalinn; ok fóru svâ Birkibeinar allt ofan eptir dalinum, ok[1] síðarst brendu þeir á Steðju[2], ok dvölðust þeir þar mjök lengi, fyrir því at eldinn vildi leggja at kirkjunni, en þeir báru fyrir segl [ok vættu[3]; ok þá er húsin voru fallin, fór allt liðit til skipanna. Tíutegu[4] bæja brendu þeir þar, ok var þat [allt fögr[5] bygð. Konúngr lèt þá brátt leggja skipin yfir til Haugastrandar[6], ok lögðu þar at, er heitir Fimreiti[7].

*Ferð Magnúss konúngs af Danmörku til Konúngahellu[8].*

83. [Nú munum vèr segja frá Magnúsi konúngi[9], at hann hafði verit um vetrinn í Danmörk, ok fór um vârit sunnan[10] til Víkrinnar. Ásbjörn Jónsson kom fjórða dag páska til Konúngahellu, hann var af liði Magnúss konúngs; var þar þá móts kvatt, ok talaði hann, ok segir vân til bæjarins Magnúss konúngs [við mikit lið; talði mikla nauðsyn at taka vel[11] við honum, vill hann vingast við allt landsfólk, þat er honum vill sæmðir veita eða nokkura lotníng; kvað ok Danakonúng hafa veitt honum mikinn styrk við miklu liði, ok heitit honum enn sínum styrk; segir at konúngr væntir af

1) Vindr var á lítill; brann náliga öll senn bygðin, *G.* 2) Steðja, *B.* 3) vâtt, *G.* 4) tíutigu, *G*; XX, *F.* 5) áðr allfögr, *G.* 6) *þ. G, F*; Hugastrandar, *A, B.* 7) Fossreik, *B.* 8) Frá Magnúsi k., *A, B.* 9) Frá M. k. er þat at segja, *G.* 10) snemma, *G.* 11) ærliga, *F.*

höfðíngjum mikillar vinganar allt austr í land, at hans ríki mætti megnast, ok heitr yðr ímóti miklu lèni ok trausti[1]: hann [mælti snjallt ör- indi, ok var góðr rómr atgörr af bæjarmönn- um, ok svâ búöndum[2]. Drottinsdaginn eptir páskaviku kom Magnús konúngr til bæjarins með [III skipum ok XX[3]; var þá gör fögr pro- cessía ímót honum, ok með miklum fagnaði tekit við honum. Síðan gekk hann í bæinn, ok drakk í garði þeirrar konu er Ragnhildr hèt; [dvalðist hann þar um hríð[4]. Þar voru þá með honum margir lendir[5] menn, Ormr konúngsbróðir, Munan Gautsson, Hallkell Jóns- son, Ásbjörn Jónsson; [þar var þá ok með hon- um[6] Haraldr, son Ínga konúngs, ok margir aðrir ríkismenn[7]. [Konúngr átti húsþíng optliga ok talaði; hann var vel máli farinn ok sköruliga, optast skamtalaðr. Allir menn tóku með blíðu konúngs örindi[8]; dvalðist hann þar III vikur í bænum, ok fór þá til Túnsbergs. Af Konúnga- hellu hafði hann II skip[9], ok hèt annat Keipa[10], en annat Vallabúza.

[1]) *frá* [ bað menn vel taka við honum; kvað öllum nauð- syn á at vingast við hann; hann sagði konúng góðs vænta af öllum mönnum austr í land, *G.* [2]) talaði lángt ok snjallt, ok gerðu menn góðan róm at máli hans, *G.* [3]) IIII sk. ok XX, *G*, *B*; hálfan þriðja tug skipa, *F.* [4]) *v. G.* [5]) mik- ilsháttar, *G.* [6]) *v. G.* [7]) ágætir menn, *G.* [8]) *frá* [ *v. G.* [9]) Islandsför, *B.* [10]) Keip, *G.*

at konúng sinn Jón Íngason, ok sá sami lægi[1] þá þar [við Maríukirkju[2]; [báðu menn þá Petr tilgánga ok kenna son sinn[3], ok segja áðr nokkur mörk[4] á, en hann sæi líkit. Petr segir þat til marka: ef hann [er minn son Ormr, þá er þat marka á[5], at sveinninn hljóp á ljá, ok skeindist mjök undir ilinni á hægra fæti. Nú er víst, ef þetta finnst eigi[6], þá er hann eigi minn sonr; en ef þat finnst[7], þá mun ek eigi við dyljast. [Síðan lèt konúngr leiða hann til þángat er líkit var, ok draga af [skóinn ok[8] hosuna[9]; [lèzt Petr þar kenna þat mark, er á hans syni hafði verit. Sverrir konúngr lýsti því bæði fyrir bæjarmönnum ok sínum mönnum, at [sá Jón, er Kuflúngar höfðu kallat konúng sinn, hèt Ormr, son Petrs ok Ástríðar; ok þat með at Petr var þar ok kendi[10] lík sonar síns: ok mun yðr bæjarmönnum, segir hann, vera þat kunnigt, hvart Petr ok þau Ástríðr eiga nokkora ætt til þess, at son þeirra væri konúngr yfir Noregi; [ok má nú þar sjá þat fals, er þessi hinn vândi ránsflokkr hefir með farit[11]. Eptir þetta var jarðat lík Jóns[12] kuflúngs at Maríukirkju[13]. Þá var þat fyrsta sinni at Sverrir konúngr [ok lið hans[14] kom svâ til Björg-

1) *þ. G*; lá, *A.* 2) undir kirkjuveggnum, *G.* 3) *þ. G*; en ef Petr kendi þar son sinn, þá báðu þeir hann til gánga ok kenna, *A.* 4) merki, *B.* 5) *b. B, F; frá* [ væri hans son, *G.* 6) hèr á, *b. G.* 7) hittist, *G.* 8) *b. F.* 9) *frá fyrra* [ þá var dregin af hosa líkinu, *G.* 10) *frá* [ Petr kendi þar, *G.* 11) *v. G.* 12) *b, G.* 13) í Björgyn, *b. B.* 14) *v. G.*

ynjar, at allr lýðr varð honum[1] feginn. Var nú Sverrir konúngr einn yfir Noregi [eptir þetta; hann var í Björgyn um hríð[2].

### *Frá Sigurði brenni*[3].

110. Austr á mörkum var[4] flokkr sá er [hlaupit hafði[5] ofan í Víkina ok gert þar mart íllt, drepit menn en rænt suma[6], [ok brent fyrir sumum[7]. [Sá höfðíngi var fyrir þessum flokki[8], er nefndr er Sigurðr brennir, son Ínga konúngs Haraldssonar. [Sigurðr brennir[9] hafði funnit Jón kuflúng, ok hafði hann tekit við frændsemi hans, ok[10] bauð honum til sín; en Sigurði þótti [lítil ráð yfir þeim Kuflúngum[11], [ok treysti sèr betr til landráða ok hirðstjórnar, til vizku ok vinsælda; en kvað þessa mundu alls viðþurfa við ráð Sverris prests; sagðist ok alllítils mundi virða við Sverri, ef þeir findist, venzl nè vígzlur, kvaðst þikkja hann svâ gera við sína frændr[12]; ok vildi hann heldr fara [einn saman með flokki[13]. Hann hafði CCC[14] manna [um hríð, voru þessir menn úfriðsamir, hvar sem þeir komu[15]. Um sumarit eptir

1) *b. F.* 2) *v. G.* 3) Hèr hefst þáttr Sigurðar brennis ok Birkibeina, *B.* 4) efldist, *B*; hófst, *F.* 5) heldr þótti úspakr; hljóp, *B.* 6) fè, *B.* 7) *v. G.* 8) þar var sá maðr fyrir, *G.* 9) gilla; hann kölluðu bændr Sigurð brenni; þat var til marks um, at Sigurðr væri rètt kominn til ríkis ok tígnar at hann, *B.* 10) kvað hann harðla mjök líkjast í ætt sína; kvað hann bæði mundu reynast harðráðan ok áhugamikinn. Jón, *b. B.* 11) þat lítilræði, *G*; lítil ráð mundu vera fyri þeim Kuflúngum, *F*; lítil landráð yfir *o. s. f.*), *B.* 12) *frá* [ *b. B.* 13) við sínum mönnum, *G.* 14) þrjú hundrut, *F.* 15) *v. G.*

fall[1] Kuflúngs er áleið, fóru bændr [ok með þeim nokkurir liðsmenn[2] at Sigurði brenni, tóku hús á honum, ok sóttu þá í stofu nokkura, en þeir vörðust [allvel ok drengiliga[3]. Ok þá er flestir menn voru fallnir, þeir er inni voru, þá kallaði Sigurðr [á þá, (ok) bað þá[4] hlýða sèr; en er hann fèkk hljóð, þá mælti hann: nú er þat líkast at [þèr munit hafa þat[5] örindi híngat, sem þèr vilit; ok þèr munut segja Sverri konúngi [ok öðrum höfðíngjum[6] frá þessum sigri, er þèr hafit hèr unnit, ok [frá landi fellt höfðíngja þessa flokks[7], Sigurð brenni, son Ínga konúngs; en þetta er miklu minni frásagnar vert en þèr ætlit[8], [þó at þèr fellit mik[9]; [fyrir því at þat er hit sanna at segja yðr[10], at ek heiti Hèðinn, ok em ek sonr Þorgríms [hrossa; em ek íslenzkr[11] at allri ætt[12]. [Eptir þetta skutu þeir[13] at honum ok felldu hann[14]; kalla menn at [þessi maðr væri hinn harðasti[15].

### *Vígðr Nicolás til biskups*[16].

111. Um sumarit eptir fall Kuflúngs kom Eiríkr erkibiskup í Noreg[17], [ok hafði fengit

1) *Jóns*, *b. G.* 2) *v. G.* 3) karlmannliga, *G.* 4) brennir ok bað þá bændr, *G.* 5) slíkt verði yðar, *G*; þèr komit því á leið sem þèr hafit ætlat, at fá líf mitt ok drepa mik, en þá þèr hafit þat unnit, munu þèr h. þ., *B.* 6) *b. B.* 7) *frá fyrra* [ at þèr hafit felldan, *G.* 8) hyggit, *G;* margir munu ætla, *b. B.* 9) *v. G.* 10) því, *G.* 11) hrossaprests, (*F. G*); íslenzkr maðr, *G.* 12) ok þó lítillar ættar at mannvirðíngu, þó at yðr væri búit við, mik fyri konúng at hafa, *b. B.* 13) sóttu þeir þá, *G.* 14) um síðir, *b. B.* 15) at maðrinn væri allhraustr, *G.* 16) Frá Nikolási Árnasyni, *P*; Frá Eiríki erkibiskupi, *G.* 17) land, *G.*

pallium í Rúmaborg[1]; fór hann norðr í Niðarós til stóls síns. Þat sumar andaðist Hávarðr jarlsson. Þat var kosníngr[2] allra[3] manna at velja[4] til biskups í Stafángri Nikolás Árnason á Stóðreimi[5], konúngsbróður. Sverrir[6] konúngr mælti at móti; ok er Nikolás varð þessa varr, sendi hann brèf Margrètu drotníngu, ok var þar mart talat bæði[7] fagrliga ok mjúkliga[8] til Sverris konúngs, ok svâ til hennar, talit ok frændsemi við hana. [Margrèt drotníng leitaði nú eptir þessu við Sverri konúng, ok segir góð heit Nikoláss[9]; en konúngr kvaðst ófúss vera at gera hann at meira manni, en þá var hann, ok lèt þess vân, ef hann fengi nokkut ríki í Noregi [meira en áðr hafði hann[10], at hann myndi hafa[11] sama hug til hans, ok ekki myndi trúleikr hans vaxa[12], þóat hann [hefði hærra nafn en þá hafði hann[13]. Drotníng [bað at konúngr skyldi eigi móti standa, ok[14] sagði hversu mikit Nikolás hafði látit [í deildum þeirra Magnúss konúngs í falli sinna frænda[15]; ok sagði svâ mega honum mest bæta at gera hann tignarmann[16] innanlands; segir at hann mun enga útrúleika lýsa[17], ef hann legði vâpn

1) *v. G.* 2) kosníng, *F*, *G*; mál, *B.* 3) margra, *B.* 4) taka, *B.* 5) Stóðreini, *F*; Vestreini, *G.* 6) *v. G.* 7) *v. G.* 8) vingjarnliga, *G*; vel, *F.* 9) Drottníngin flytr þetta mál fyri konúngi, at hann leggi lof til, at Nikolás væri vígðr til biskups, *G.* 10) *v. G.* 11) inn, *b. G.* 12) við hann, *b. G.* 13) fengi nafnbætr nokkurrar, *B.* 14) *v. G.* 15) fyri þeim Birkibeinum, *G.* 16) tíginn mann, *G, F.* 17) gera, *G*; sýna, *B.*

sín ok gerðist vígslumaðr[1]. Konúngr [segir, at hann mun[2] henni veita þetta: en [eigi vænti ek at lángt líði hèðan[3], áðr en bæði [man þú[4] ok margir aðrir þessa iðrast. Eptir þetta fengust brèf konúngs, at Nikolás [skyldi vera til biskups vígðr; var nú svâ gert, at erkibiskup vígði Nikolás til biskups[5]. Í þann tíma andaðist biskup[6] í Oslu, [fèkk þá Nikolás lof til þess af erkibiskupi at setjast at stóli í Oslu. Njáll biskup var þá vígðr síðan til Stafángrs; var hann þar biskup[7].

*Greinir með konúngi ok erkibiskupi*[8].

112. Þá er Eiríkr erkibiskup[9] kom til stóls í Niðarósi, tóku kórsbræðr vel við honum. [Eptir þat prèdikaði hann á kór[10], ok mælti hörðum orðum til Birkibeina; ok þegar voru þeir margir af liðsmönnum, er [brátt tóku at úþokkast þeirri ræðu[11], ok[12] lagðist[13] ómjúkt á[14] með þeim; [voru brátt[15] margar greinir [í milli þeirra[16] Sverris konúngs ok erkibiskups; þvíat Magnús konúngr [ok Erlíngr jarl[17] höfðu[18] látit standa [þat mál[19], meðan [þeir rèðu[20] rík-

1) kennimaðr, *G.* 2) kveðst mundi, *G.* 3) væni ek, at eigi man hèðan lángt líða, *G.* 4) við manum þessa iðrast, *G.* 5) væri t. b. v., ok var svâ gert, *G.* 6) biskupinn, *G.* 7) fór þá Nikulás þángat til stóls, en þá var vígðr Njáll biskup til Stafángrs, *G.* 8) *þ. P;* Frá Eiríki erkibiskupi, *A*, *G.* 9) *þ. F*; biskup, *A*; *v. G.* 10) en hann talaði á kór, þá er hann prèdikaði, *G.* 11) hug sinn settu við honum, *B.* 12) *v. G.* 13) þegar, *b. G.* 14) *v. G.* 15) urðú þegar, *G.* 16) millum, *G.* 17) *v. G.* 18) hafði, *G.* 19) *v. G.* 20) hann rèð, *G.*

inu[1], er Eysteinn erkibiskup hafði ákomit við bændr, [at þar er erkibiskup ætti[2] sakar á [at taka[3], skyldi gánga[4] í þær skuldir [silfrmerktr eyrir[5], en áðr hafði gengit sakeyrir sem í konúngs mál[6]. [Erlíngr jarl hafði þetta látit sèr líka, með því at erkibiskup vildi vígja Magnús son hans til konúngs; en þá verðr helmíngaauki[7] um auralag[8]. Sverrir konúngr beiddist af erkibiskupi, at standa skyldi [lagarèttr hinn forni, um erkibiskups mál svâ sem (um) konúngs mál, ok talði at Erlíngr skakki myndi eigi eiga[9] at brjóta lög hins helga Ólafs konúngs, til þess at son hans væri vígðr til konúngs, [er eigi var at rèttu tilkominn[10], [fyrir því at aldri fyrr hafði verit í Noregi, síðan kristni kom[11], at sá væri konúngr[12] er eigi var konúngs son, [ok eigi heldr í heiðni; þat er ok fyrirboðit í landslögum þeim, er hinn helgi Ólafr konúngr setti[13]. [Þat var ok[14] kaup þeirra, segir Sverrir konúngr, Eysteins erkibiskups ok Erlíngs jarls, at erkibiskup skyldi vígja son hans til konúngs, [en Erlíngr jarl skyldi leggja orlof til, at erkibiskup færi[15] fram þeim ólögum [öllum, sem

1) þat allt, *b. G.* 2) *þ. B;* átti, *A, F.* 3) *v. F.* 4) taka, *B.* 5) silfrmerktan eyri, *B*; silfrmerktir penníngar, *F.* 6) *frá þriðja* [ um sakeyri, sem fyrr er ritat, *G.* 7) helmíngarauki, *B, F.* 8) *frá* [ *v. G.* 9) allr hinn forni lagarèttr millum konúngs ok erkibiskups, en sagði Erlíng skakka ekki mann til, *G.* 10) *þ. G*; ok e. v. a. r. tiltekinn, *A.* 11) *v. G.* 12) kallaðr, *b. B.* 13) *v. G.* 14) þó þat væri, *B.* 15) enda skyldi hann þá fara, *G.*

hann mætti við koma bændr með sínu ríki[1]; ok lízt mèr svâ sem þat myndi hvârtki gert vera at guðs lögum nè [manna hèr í landi[2]. En [at öðrum kosti, ef þú, erkibiskup, villt miklu auka rètt þinn, þá vil ek at þú leggir leyfi þar á, at ek[3] auka jafnmiklu konúngs rèttinn; ok ábyrgist þú[4] við guð ok [bændr ok landsfólkit[5], hversu rèttliga [landsstjórnin ferr[6] í landinu. Erkibiskup neitaði því, [ok vildi hafa rètt sinn[7], ok segir at guðs[8] rèttr ætti jafnan[9] at vaxa, en hvergi[10] þverra; en þèr, herra, segir hann, hafit [þann rètt ok[11] þau lög, sem þèr hafit svarit til, [en ábyrgizt sjálfir fyrir guði ok mönnum, hvârt er þèr haldit þá eiða[12], því at aldri hefir aukizt auralag í[13] konúngs rètti.

### *Eiríkr tók jarls nafn*[14].

113. Eptir fall Magnúss konúngs leitaði Eiríkr konúngsson[15] við Sverri konúng, bróður sinn, ef hann myndi[16] veita honum nafnbætr[17] meiri [en þá hafði hann[18], [ok þar með nokkurn hlut ríkis. En[19] konúngr bað hann vera innan hirðar, ok [halda sveit[20] sem lendir menn,

---

1) við bændr, sem honum líkaði, *G.* 2) landslögum, *B.* 3) ef þèr biskup vilit mikit auka yðarn rètt, þá viljum vèr, *G.* 4) *b. B;* þèr þá, *G.* 5) allan landslýðinn, *G, B.* 6) þá ferr stjórnin, *G.* 7) *v. G.* 8) biskups, *B.* 9) ávalt, *F.* 10) aldregi, *G.* 11) *v. G.* 12) eðr ekki, *b. B*; *frá* [ ok ábyrgist þèr þat sjálfir hvört þèr haldit þau eðr eigi fyri, *G.* 13) á. *G.* 14) Frá Eiríki konúngsbróður, *G*; konúngssyni, *P.* 15) *v. G.* 16) vildi, *G.* 17) nokkura nafnbót, *G, B.* 18) *v. G.* 19) eðr veita honum nokkvat af ríki, *G.* 20) hafa nafnbót, *G.*

ok vera þó [framast[1] þeirra at allri sæmð; en hann dró undan um landsskipti. Eiríkr lèt sèr þikkja eigi vel; ok var þó svâ búit[2] um hríð. [Hann hèlt sveit mikla, ok með því at hann [hèlt sveitina[3], en hann hafði ekki miklar veizlur, þá[4] varð honum fèfátt. Ok vetri síðarr [byriaði hann ferð sína[5] or landi, [at fara[6] í Austrveg, [at herja til heiðinna landa[7]. Til þeirrar ferðar rèðst með honum mart liðsmanna; höfðu þeir V skip, stýrði skipi Özurr prestr, öðru þjóðólfr pík[8], Hermundr kvâða hinu þriðja. þeir hèldu um sumarit í Austrveg til Eistlands, ok herjuðu þar sem heitir í Píkum[9], [þeir fęngu[10] mikit fè, ok sneru [aptr til Gotlands[11], urðu þar missáttir við Saxa, ok unnu af þeim II kugga, tóku þar[12] úgrynni fjár; fóru þaðan[13] til Svíþjóðar, ok funnu[14] þar Knút konúng; [voru þeir þar í góðum fagnaði[15], gaf hann Eiríki lángskip, [áðr en hann færi í brot. Fóru þeir[16] Eiríkr heldr úspakliga [aptr um Svíaveldi ok Danaveldi[17], komu aptr um haustit, ok höfðu þá XI skip[18]. Sverrir konúngr

---

1) fremstr, *B.* 2) *frá* [ mest metinn af þeim. Eiríki hugnaði þat lítt, ok stóð þá svâ við, *G.* 3) hèlt vel sína menn, *B*, vel sveit sína, *F.* 4) *frá fyrra* [ Eiríkr hèlt sveit mikla, en hafði veizlur litlar, *G.* 5) bjóst hann, *G.* 6) *þ. F;* ok fór, *A.* 7) *v. G.* 8) *þ. hin;* vík, *A.* 9) *þ. G, F;* Víkum, *A, B;* ok Tuntu, *b. B.* 10) en í Kvímum fengu þeir, *F.* 11) síðan undir Gotland, *G;* a. til Gautlands, *B.* 12) af, *b. F.* 13) síðan, *G.* 14) hittu, *G, F.* 15) *v. G.* 16) at skilnaði; fóru þeir aptr, *G.* 17) bæði um Danmörk ok um Svíþjóð, *G.* 18) þat sama haust hófust Kuflúngar í Víkinni, *b. B, F,* Hrafnabjargahaustit, þá er, *b. B, F, G.*

var þá[1] í Víkinni, skipti hann þá[2] landi við Eirík, bróður sinn; gaf hann honum land austan frá Svínasundi ok norðr til Rygjarbits, ok þarmeð öll Upplönd; hann gaf honum þármeð[3] jarlsnafn. Eptir þat fèkk Eiríkr sèr hirðar, ok gerðist [hinn mesti[4] höfðíngi; Ása hèt kona hans.

*Fall Símunar Kárasonar*[5].

114. Símun Kárason ok Ölver af Goðranni, ok[6] þeir sveitarhöfðíngjar, er verit höfðu með Kuflúngum, [fóru suðr[7] til Danmarkar, en sumir austr á Markir, ok dvölðust þar [um sumarit eptir[8]; en [um vetrinn[9] er áleið, sóttu þeir út[10] í Danmörk, ok funnu[11] þeir þar Símun Kárason; hafði hann þar með sèr son Magnúss konúngs Erlíngssonar, [er Vikarr var kallaðr[12]; hófu þeir þar flokk, ok fengu[13] fjölment; fóru um sumarit[14] norðr í Víkina, ok höfðu XVI[15] skip; fóru úspakliga, rændu bæði bændr ok kaupmenn, fóru svâ austan um Víkina[16]. [En er Túnsbergsmenn spurðu þessi tíðindi, þá ráða þeir til skipa, höfðu þeir nokkur

1) *v. G, B, F.* 2) ok, *G.* 3) mikill, *G.* 4) ok góðr, *b. G*; góðr ok vinsæll, *F.* 5) *þ. P*; *G hefir* Upphaf Kuflúnga, *er skyldi vera* Varbelgja, *ok hefir einnig Arni Magnússon sjálfr leiðrètt téða ritvillu í skinnbók þessari.* Hèr (hefr) upp þátt Vikars Varbelgs, *B.* 6) enn, *b. G.* 7) *þ. B*; ok suðr höfðu farit, *A og hin.* 8) þar austr eptir um sumarit, *G.* 9) þann vetr eptir, *G*; um vetrinn eptir inn næsta, *B.* 10) *v. G.* 11) hittu, *G, F.* 12) *b B.* 13) mjök, *b. B.* 14) vârit, *G.* 15) XIII, *B.* 16) þá sigldu þeir út yfir Foldina ok norðr á Agðir, ok rændu þar; sóttu svâ inn til Túnsbergs. Eiríkr jarl var uppi á landi, ok ekki var í Víkinni mart Birkibeina, *b. B.*

lángskip ok svâ byrðínga, ok leggja skipin fyrir bryggjur; skipta þá liði á skipin, ok búast við at verja bæinn[1]. [Þann flokk, er þeir Símun höfðu, kölluðu[2] menn Varbelgi. [Ok er Símun spyrr, hvat er Túnsbergsmenn höfðust at, ok þeir höfðu liðsamnað, þá[3] treystust þeir ekki [þángat at fara, sigldu þá austr[4] aptr yfir Foldina. [Nú spurðu þat[5] Túnsbergsmenn, [þá laupa þeir á skip sín, ok[6] snúa eptir þeim; rèðu fyrir því liði Þorlákr Úlfgestsson, Úlfr svarti (ok) Ásleifr búandi. Þeir Símun fóru nú austr undan, en Túnsbergsmenn fóru eptir þeim, ok fundu þá suðr við Briðstein[7], lögðu þegar at þeim, ok varð þar mikill bardagi [ok harðr[8]; höfðu bændr skip stærri ok borðmeiri. [Ok er þessi orrosta hafði staðit um hríð, þá[9] sneri mannfallinu á hendr þeim Varbelgjum, (ok) hruðust skipin þeirra; lauk með því þessum fundi, at þar fèll Símun Kárason ok Ölver af Goðranni, ok flestallt lið þeirra, svâ at fátteitt komst undan. [Ok á því sama skipi, er stýrt hafði Símun Kárason[10], funnu þeir undir þiljum niðri [í fyrirrúminu[11] Vikar[12], konúng Varbelgja, var hann fárra vetra gamall; þeir drápu hann þegar. Fengu Túnsbergsmenn í þessi ferð mikinn[13] orðstír ok mikit fè, ok fóru aptr við svâ búit.

[1]) Túnsbergs menn safnast saman, ok ætluðu at verja bæinn; höfðu þeir skip fyri bryggjum, bæði lángskip ok byrðínga, ok skipta þar liði á millum skipanna, *G.* [2]) þenna flokk, *G.* [3]) *v. G.* [4]) þar at leggja ok snúa, *G.* [5]) *v. G.* [6]) *v. G.* [7]) Bristein, *G*; Brimstein, *F.* [8]) *v. G.* [9]) *v. G.* [10]) á skipi Símunar, *G.* [11]) *v. G.* [12]) *b. B.* [13]) inn mesta, *G*; hinn bezta, *F.*

*[Dauði Eiríks jarls*[1].

115. En[2] á því sama ári er Varbelgir fèllu, fèkk Eiríkr jarl sótt; þá var hann í Túnsbergi. Ok er sóttin dró at honum, þá gaf hann sik til múnklífis, [ok tók[3] múnkaklæði[4]; hann andaðist [þá er hann hafði legit V nætr, ok[5] sama dag andaðist kona hans Ása, en[6] II[7] nóttum síðar andaðist son þeirra, sá er Magnús[8] hèt; var þar margrætt[9] um þau tíðindi. Þat var margra manna mál, at vândir menn myndu hafa gefit[10] þeim svik ok líflat. [Eptir þat tók Sverrir konúngr undir sik ríki þat er Eiríkr hàfði haft, ok setti þar yfir sýslumenn[11]. [Þessu næst[12] andaðist Ívarr selki.

*Upphaf Þorleifs breiðskeggs*[13].

116. Þat sama sumar er Eiríkr[14] jarl [hafði andazt[15], var[16] flokkr á Mörkum austr; [en fyrir þessum flokki var sá maðr[17], er kallaðr var Þorleifr breiðskeggr, ok væri son Eysteins konúngs[18] Haraldssonar, ok þat til jartegna[19], at á meðal herða honum var ör[20], gróit í kross; þeir komu í Víkina ok fóru spakliga, keyptu sèr mat [ok önnur þarfindi[21]. Þorleifr breið-

---

1) Andlát E. j. ok Asu konu hans, *G.* 2) *v. G.* 3) *þ. G*; tók þá, *A.* 4) aðr, *b, G.* 5) *frá* [ þann, *G.* 6) ok, *G.* 7) V, *B.* 8) M., *G.* 9) allmargrætt, *G.* 10) gert, *B, F, G.* 11) tók Sv. k. þá enn ríki allt, *G.* 12) því nær, *G, B*; litlu-síðar, *F.* 13) Frá Þorleifi breiðskegg, *P*; þáttr Þs. bs., *B.* 14) *b. G.* 15) andaðist, *G.* 16) hófst, *G.* 17) frá ok sá höfðíngi, *G*; formaðr, *B.* 18) *v. G.* 19) jarteina, *B*; marks, *F.* 20) *þ. hin*; eyrr, *A.* 21) *b. B.*

1171. skeggr hafði verit múnkr; var þessi flokkr við litlum styrk. Þeim varð brátt fèfátt, voru þeir þá sumir í flokkinum er stálu, er þeim var bannat at ræna. Þat þóttust margir menn spurt hafa, at Þorleifr væri maðr svâ vitr, at [engi hlutr kæmi honum[1] á úvart; svâ [ok þat, at hann væri svâ [vel siðaðr[2], at hans líf væri líkara [múnkareglu en leikmanna; þat sögðu menn[3] ok, at hann væri svâ snjallr [maðr at[4] máli, [ok hann kynni svâ (fagurt) at mæla[5], at engi maðr mætti[6] honum reiðr verða, sá er [hans mál[7] heyrði; en þetta var þó allt [hit mesta fals ok[8] hègómi[9], sem síðan reyndist. Þessi flokkr var uppi [á Mörkum[10] um vetrinn eptir[11]; ok annat sumarit[12] fóru bændr at þeim, þar sem þeir lágu í skógi nokkurum um nótt. Reyndist þá, at hvârtki var um Breiðskegg, at hann vissi fyrir atferðina, eða mælti hann þat, at þá væri lífi hans hólpnara[13] en áðr; var hann þar drepinn ok flestöll sveit hans, [en sumir hljópu á skóginn[14]. Eptir fall Breiðskeggs var því upplostit, at hann væri heilagr, en Blakkr skáld mælti því ímót, ok kvað þetta:

Björt kveða brenna kerti
Breiðskeggs yfir leiði;
ljóss veit ek at mun missa

---

1) at honum kæmi ekki, *G, F.* 2) siðugr maðr, *F; frá* [ þat, *G.* 3) múnkum en hermönnum, svâ, *G.* 4) í, *G.* 5) *v. G.* 6) *þ. G*; mátti, *A.* 7) *v. G.* 8) inn mesti, *G*; hin mesta lýgi, *F.* 9) at því, *b. G.* 10) *b. G.* 11) *v. G.* 12) eptir, *b. G.* 13) borgnara, *G.* 14) *v. G.*

[meirr höfðíngi[1] þeirra;
vitum at vânir[2] betri,
vèr[3] hugðumk[4] því, brugðust[5].

Blakkr orti erfidrápu um Breiðskegg, ok var [þetta stefit[6] í:

Hafði hèr meðan lifði
hvârttveggja Breiðskeggi,
(nú er friðspillir fallinn),
fæst gott ok[7] dul hæsta.

*Um greinir með[8] konúngi ok erkibiskupi.*

117. Í þenna tíma gerðust[9] margar greinir milli þeirra Sverris konúngs ok erkibiskups; skaut konúngr jafnan sínu máli til landslaga þeirra, er sett hafði hinn helgi Ólafr konúngr, ok til lagabókar[10] þrænda[11], þeirrar er kölluð er Grágás, er rita hafði látit Magnús konúngr [hinn góði[12], Ólafsson. Erkibiskup [bað framrekja[13] þá bók[14] er Gullfjöður [er kölluð, ok[15] rita lèt Eysteinn erkibiskup; [þarmeð bað hann framrekja guðs[16] lög rúmversk, ok þat sumt er hann hafði til brèf ok innsigli pávans. Sú var ein grein milli þeirra, at þat voru forn lög ok siðvenja[17], at konúngr ok bændr skyldu láta gera kirkjur á bæjum sínum ok með sínum kostnaði ef þeir vildi; skyldu þeir sjálfir[18]

---

1) meiri þörf ok, *B.* 2) vân er, *B.* 3) verr, *B.* 4) hugðust, *B, G.* 5) brugðit, *B*; brugðumst, *F.* 6) þat stef, *G.* 7) en, *B, F.* 8) *b. G.* 9) urðu, *G.* 10) lögbókar, *G.* 11) *v. G.* 12) *v. G.* 13) bauð fram, *G.* 14) lögbók, *G.* 15) hèt er, *G.* 16) ok þarmeð, *G, F.* 17) vani, *G.* 18) *b. G.*

1191 skeggr hafði verit múnkr; var þessi flokkr við litlum styrk. Þeim varð brátt fèfátt, voru þeir þá sumir í flokkinum er stálu, er þeim var bannat at ræna. Þat þóttust margir menn spurt hafa, at Þorleifr væri maðr svâ vitr, at [engi hlutr kæmi honum[1] á úvart; svâ [ok þat, at hann væri svâ [vel siðaðr[2], at hans líf væri líkara [múnkareglu en leikmanna; þat sögðu menn[3] ok, at hann væri svâ snjallr [maðr at[4] máli, [ok hann kynni svâ (fagurt) at mæla[5], at engi maðr mætti[6] honum reiðr verða, sá er [hans mál[7] heyrði; en þetta var þó allt [hit mesta fals ok[8] hègómi[9], sem síðan reyndist. Þessi flokkr var uppi [á Mörkum[10] um vetrinn eptir[11]; ok annat sumarit[12] fóru bændr at þeim, þar sem þeir lágu í skógi nokkurum um nótt. Reyndist þá, at hvârtki var um Breiðskegg, at hann vissi fyrir atferðina, eða mælti hann þat, at þá væri lífi hans hólpnara[13] en áðr; var hann þar drepinn ok flestöll sveit hans, [en sumir hljópu á skóginn[14]. Eptir fall Breiðskeggs var því upplostit, at hann væri heilagr, en Blakkr skáld mælti því ímót, ok kvað þetta:

Björt kveða brenna kerti
Breiðskeggs yfir leiði;
ljóss veit ek at mun missa

1) at honum kæmi ekki, *G, F.* 2) siðugr maðr, *F; frá* [ þat, *G.* 3) múnkum en hermönnum, svâ, *G.* 4) í, *G.* 5) *v. G.* 6) *þ. G*; mátti, *A.* 7) *v. G.* 8) inn mesti, *G*; hin mesta lýgi, *F.* 9) at því, *b. G.* 10) *b. G.* 11) *v. G.* 12) eptir, *b. G.* 13) borgnara, *G.* 14) *v. G.*

[meirr höfðíngi[1] þeirra;
vitum at vânir[2] betri,
vèr[3] hugðumk[4] því, brugðust[5].

Blakkr orti erfidrápu um Breiðskegg, ok var [þetta stefit[6] í:

Hafði hèr meðan lifði
hvârttveggja Breiðskeggi,
(nú er friðspillir fallinn),
fæst gott ok[7] dul hæsta.

*Um greinir með[8] konúngi ok erkibiskupi.*

117. Í þenna tíma gerðust[9] margar greinir milli þeirra Sverris konúngs ok erkibiskups; skaut konúngr jafnan sínu máli til landslaga þeirra, er sett hafði hinn helgi Ólafr konúngr, ok til lagabókar[10] þrænda[11], þeirrar er kölluð er Grágás, er rita hafði látit Magnús konúngr [hinn góði[12], Ólafsson. Erkibiskup [bað framrekja[13] þá bók[14] er Gullfjöður [er kölluð, ok[15] rita lèt Eysteinn erkibiskup; [þarmeð bað hann framrekja guðs[16] lög rúmversk, ok þat sumt er hann hafði til brèf ok innsigli pávans. Sú var ein grein milli þeirra, at þat voru forn lög ok siðvenja[17], at konúngr ok bændr skyldu láta gera kirkjur á bæjum sínum ok með sínum kostnaði ef þeir vildi; skyldu þeir sjálfir[18]

1) meiri þörf ok, *B.* 2) vân er, *B.* 3) verr, *B.* 4) hugðust, *B, G.* 5) brugðit, *B*; brugðumst, *F.* 6) þat stef, *G.* 7) en, *B, F.* 8) *b. G.* 9) urðu, *G.* 10) lögbókar, *G.* 11) *v. G.* 12) *v. G.* 13) bauð fram, *G.* 14) lögbók, *G.* 15) hèt er, *G.* 16) ok þarmeð, *G, F.* 17) vani, *G.* 18) *b. G.*

ráða fyrir þeim kirkjum, ok ráða presta til; en erkibiskup lagði [sitt vald ok[1] forræði[2] á hverja kirkju, þegar er vígð var, ok á öllum þeim er hann lofaði saung at. Konúngr beiddist þar laga af, en erkibiskup neitaði. Þá lèt konúngr lesa upp lögbók á þíngi, stóð þat á bókinni, at erkibiskup skyldi hafa með[3] sèr, er hann færi í sýslu, XXX manna, ok XII skjöldu, [ok alla[4] hvíta. Þá beiddist Sverrir konúngr hèr laga á þessu máli, ok segir svâ: erkibiskup þarf enga hirð at hafa[5] eða hermenn, eða alskjaldat[6] skip[7]; ok hefir hann eigi minna yfirburð [um þat er lögin segja, en[8] hann ferr með snekkju[9] [tvítugsessu, ok hefir þar[10] á níutigu[11] manna eða meirr, ok allt skjaldat; ok munu vèr Birkibeinar rekja minni til, at oss þótti [hölztí harðskipat þat sama skip, er erkibiskup[12] lèt leggja at oss undir Hattarhamri. Svâ var ok í Björgyn, þá er vèr sóttum skipin, þá var erkibiskups [skip ok hans[13] sveit skjótari til vâpna at berjast ímót oss, heldr en konúngssveitin. [Þætti mèr erkibiskupi guðrèttligra[14] at hafa enga hirð, [svâ at aflaga væri, fyrir því at engi mun herja á hann eðr staðinn; hafa heldr til þess kostnaðinn, at láta menn vera í grjótbergi

1) sín, *G.* 2) forráð, *F.* 3) við, *G.* 4) *v. G.* 5) halda, *B.* 6) *b. G*; skjaldat, *F.* 7) herskip, *B.* 8) *v. G.* 9) alskipaða, *b, G.* 10) *frá* [ ok, *G.* 11) X, (*líklega fyrí* tíu X) *eðr* tugi, *G.* 12) erkibiskups skip ærit harðskipat er hann, *G.* 13) *v. G.* 14) væri erkib. betra, *G.*

ok[1] grjótflutníngu eða steintálgu, (ok) veita upphald[2] musterinu, svâ sem áðr er tilefnat[3]. Erkibiskup svarar svâ: pávinn í Rúmaborg[4] setti mik [forráðanda- yfir þenna stað ok staðarins fè, má ek fyri því vel ráða fènu; er þat ok[5] guðs fè ok heilagra manna. En satt er þat, herra, at [flestum dugandum[6] mönnum man þikkja betra at vera með mèr í friði, heldr en vera með yðr í [úfriði ok[7] illgerðum; þvíat fáir ná nú kyrrsæti[8]. En þóat mínir menn hafi vâpn [eða góð klæði[9], þá er þat þeirra eigin[10], ok engum peníngi rænt til; fara þeir með spekð, hvar sem þeir koma. Nú mun þat þikkja [eigi sæmiligt at spyrja í önnur lönd[11], at erkibiskup skyli eigi [sjálfr ráða[12], hverjum hann skal gefa mat sinn [eða klæði[13]; en sýslumenn yðrir, þeir er þèr hafit tekit af stafkarlsstig[14], skulu hafa svâ[15] stórar sveitir sem þeir vilja, ok fara á hendr búondum, ok taka þá[16] aflaga [bæði mat ok mungát; skal[17] þó sá er á vera[18] því feginn at hann [sè eigi meira ræntr[19]. Sverrir konúngr krafði þá laga, ok þess at bændr [skyldu leggja dóm á ok dæma at landslögum[20], hversu marga húskarla erkibiskup skal hafa. Eptir þat

1) *frá* [ heldr menn í, *G.* 2) *þ. G*; heldr upp, *A.* 3) til stofnat, *G.* 4) Róma, *G.* 5) *frá* [ forráðsmann yfir staðinn; er þat, *G.* 6) fleiri dugandi, *G.* 7) *v. G.* 8) kyrrsetunni, *F.* 9) góð, *G.* 10) eign, *F.* 11) fáheyriligt, *G.* 12) vera sjalfráða, *G.* 13) *v. G.* 14) stafkörlum, *G*; stafkarla stígum, *B.* 15) margar ok, *b. B.* 16) *v. G.* 17) slíkt er hann vill, ok, *G.* 18) *v. G.* 19) þiggi lífit, *G.* 20) dæmði, *G.*

lagði konúngr [fimtarstefnu þeim mönnum[1], er fleiri væri með erkibiskupi en skráin segði[2], at eptir V daga skyldu þeir allir[3] útlaga[4], ok hafa fyrirgert fè sínu[5] ok friði[6], [vera þar drepnir sem þeir væri staddir[7]. En er erkibiskup spurði þetta, þá bjóst hann íbrot or bænum ok mjök [af skyndíngu[8], hafði með sèr alla menn sína [ok lausafè þat er þeir náðu[9]. Fór þá erkibiskup íbrot[10], ok allt suðr til Björgynjar, ok síðan suðr til Danmarkar[11] á fund Absalons erkibiskups; tók hann vel við honum, ok[12] dvaldist hann þar [lánga hríð[13] í góðum fagnaði. Eiríkr erkibiskup fèkk [þat[14] vanheilindi[15], at hann misti sýnar sinnar[16] ok varð blindr.

*Frá Sigurði konúngssyni[17].*

118. Hallkell, son Jóns Hallkellssonar, átti Ragnhildi, dóttur Erlíngs (jarls) ok Kristínar konúngsdóttur. Hafði Hallkell ráð með höndum, ok[18] fleiri menn[19] með honum; hafði Hallkell þá tekit af Sverri konúngi [lèn ok[20] lends manns rètt litlu áðr. Sigurðr (hèt) son Erlíngs jarls, hann var friðluson, [ok var þá fóstrson Sverris konúngs[21], hafði hann þar verit lengi með

---

1) *þ. G;* þ. m. stefnu, *A.* 2) skírði, *G, F, B.* 3) fara, *G, F.* 4) útlagir, *B.* 5) *v. G.* 6) *þ. G, F, B;* fjörvi, *A.* 7) staðnir, *F; frá* [ *v. G.* 8) skyndiliga, *F.* 9) *v. G.* 10) *v. G.* 11) Danmerkr, *G.* 12) *v. G.* 13) lengi, *G.* 14) þau, *G.* 15) *frá* [ vanheilsu mikla, svâ, *B.* 16) með öllu, *b. B.* 17) Frá Hallkeli, *G;* Ráðagerðir Hallkels ok Olafs jarlsmágs; *P.* Hèr hefst þáttr Eyjarskegga, *B.* 18) þat er, *G.* 19) voru samvitandi, *b. G;* samvitendur, *hin.* 20) *v. G.* 21) *v. G.*

honum[1] í [góðu yfirlæti[2], hann vissi ok þetta ráð með þeim[3] Hallkatli [ok Ragnhildi[4]. Ólafr, mágr Haralds jarls, var ok [enn höfuðsmaðr[5] at þessu ráði með þeim. Sigurðr er nefndr son Magnúss konúngs Erlíngssonar ok Gyríðar, [dóttur Ásláks únga; hann var þá kominn á hald ok traust Hallkels ok Ragnhildar[6]. Þat var ráðagerð þeirra, at þau fengu Sigurð konúngsson[7] í hendr Ólafi jarlsmági, [ok hafði Ólafr hann með sèr í Björgyn; var Ólafr jafnan á tali við Sverri konúng; var þá engi grunr ágörr. Ok eitt sinn er skip Ólafs var búit, þá mælti Sverrir konúngr, ok höfðu þeir áðr verit á tali: trúr skyldir þú mèr nú, Ólafr! Hann svarar: hví [mælir þú[8] slíkt, herra? Konúngr hafði kníf í hendi, ok stángaði fyrir sik ok mælti: fylgjur óvina vârra sveima hèr nú í nánd. Ok er Ólafr gekk [or stofunni[9], hljóp þar sveinninn konúngsson. Ólafr mælti: nær hafði okkr[10] nú, fóstri[11]. Ólafr hafði sveininn með sèr úm haustit vestr [til Hjaltlands; hann átti þar eignir miklar[12]. Þá voru liðnir VIII vetr frá falli Magnúss konúngs.

### *Frá Ólafi ok Sigurði*[13].

119. [Um vârit eptir fóru þeir Ólafr ok Sigurðr suðr til Orkneyja á fund Haralds jarls,

---

1) Sverri konúngi, *G.* 2) í góðum velskap, *F.* 3) *v. G.* 4) *v. G.* 5) einn höfðíngi, *B.* 6) *frá* [ Dagsdóttur; Sigurðr var þá með Hallkatli, *G.* 7) *v. G.* 8) mæli þér, *B.* 9) í forstofuna, *B.* 10) okkar, *P.* 11) *frá þriðja* [ *v. G.* 12) um haf, *G.* 13) Upphaf Eyskeggja, *P.*

ok fengu þar góðar viðtökur[1]. Þat sama vâr [bjóst Hallkell Jónsson, ok kvaðst skyldu fara vestr í víkíng; hann hafði lángskip vel skipat, sigldi síðan vestr til Orkneyja. En er þeir hittust, Ólafr jarlsmágr, þá var þetta mál kært [fyrir Haraldi jarli[2], at þar var kominn son Magnúss konúngs, ok báðu at jarlinn veitti honum nokkurn styrk[3]. Jarl stóð vel undir hans mál, ok gaf honum gott lángskip[4]; Magnús konúngr hafði verit hinn mesti vin[5] þeirra (Haralds jarls), ok lofaði jarl hverjum manni er vildi, at fara [til þeirra Hallkels ok Ólafs ok þeirra förunauta[6]; gáfu [þá Hallkell ok Ólafr[7] Sigurði konúngsnafn; gerðust þá margir menn honum handgengnir, ok svörðu honum trúnaðareiða, dreif til hans [fjölði manna[8], Orkneyíngar ok Hjaltar; rèðu þeir[9] síðan til skipa, ok bjuggust vestan um sumarit. En er þeir komu [við Noreg[10], sigldu þeir þegar[11] austr með landi til Víkrinnar, ok [fóru ákafliga[12], komu á úvart til Túnsbergs; þar var fyrir Jón, systrúngr Sverris konúngs. Þeir drápu þar[13] Jón ok Helga bríng, er fyrr hafði borit merki Sverris konúngs; þar fèll mart Birkibeina. Eptir

1) *frá* [ Haraldr jarl tók vel við Sigurði konúngssyni, *G.* 2) *b. P.* 3) *frá fyrra* [ fór Hallkell vestr um haf á fund Haralds jarls; báru þeir þá upp fyri jarl, ef hann vildi nokkurn styrk veita syni Magnúss konúngs, er þar var kominn, *G.* 4) þvíat, *b. G.* 5) *v. hin.* 6) með þeim af öllu ríki sínu, *G*; *v. F, G.* 7) *þ. G*; þeir þá, *A*; ok þeirra föruneyti, *b. F.* 8) múgr manns, *G.* 9) sèr, *b. G.* 10) *þ. G*; til Noregs, *A.* 11) *v. G.* 12) *v. G.* 13) *b. G.*

þat áttu þeir þíng, var þá Sigurðr til konúngs tekinn; [þessi flokkr var kallaðr Eyjarskeggjar[1]. Síðan fóru þeir inn til Oslúar, gekk þá undir þá allt landsfólk, [ok svâ í Víkinni, hvar sem þeir komu[2]. þeir fóru spakliga, ok lètu hvern sínu ráða; en með því at þeir höfðu lið mikit, [en höfðu enn lítit af landi, þá varð þeim fèfátt; tóku þeir þat ráð, at venda[3] öllu liðinu suðr til Danmarkar, ok komu allt suðr til Trafnar; unnu þar kaupskip, ok tóku úgrynni fjár, [var þat mest í klæðum ok mikit í gulli ok silfri[4]; snerust[5] aptr til Noregs er haustaði. En er Sverrir konúngr spyrr [um þenna flokk[6], [var hann í þrándheimi[7]; [þá gerði hann lið mikit[8] hit efra til Víkrinnar, en sumir höfðíngjar voru[9] áðr fyrir [í Víkinni[10]. Ok er þeir spurðu at Eyjarskeggjar sóttu sunnan í Víkina, þá sömnuðust Birkibeinar saman í Borg; voru þessir þar höfðíngjar: Sigurðr lávarðr konúngsson[11], Philippus son Birgis jarls, Hákon galinn, systurson (Sverris) konúngs, Petr steypir[12], Hjarrandi hviða, [ok enn fleiri sveitarhöfðíngjar[13]; þeir höfðu [á hinu [þriðja hundraði[14] manna. Eyjarskeggjar spurðu þetta, ok lögðu upp[15]

1) Eyskeggjar, *F. G*; *(jafnan)*, *frá* [ þenna flokk kölluðu menn Eyjarskeggja eða Gullbeina, *B.* 2) nær um alla Víkina, *G.* 3) þá fóru þeir með, *G.* 4) *v. G.* 5) síðan, *b, G.* 6) þetta, *G.* 7) *b. G.* 8) hann sendi þá lið, *G.* 9) þar, *b. G.* 10) *v. G.* 11) *v. G.* 12) styggr, *B.* 13) *v. G.* 14) *þ. G*; CCC, *A*; *frá fyrra* [ III hundruð, *B.* 15) *þ. G*; út, *A.*

1194

eptir elfinni, [ok at við Borgarvöllu, gengu þar upp[1] ok fylktu[2] liði sínu. [En er Birkibeinar sá, hversu mikit lið Eyjarskeggjar höfðu, þá flýðu þeir[3], [en Eyjarskeggjar sóttu[4] eptir, ok drápu af þeim nokkura menn. Birkibeinar flýðu á land upp[5]; fengu Eyjarskeggjar enga [mótstöðu hèðan í frá[6] í Víkinni. Ok [er áleið haustit, fóru þeir[7] norðr til Björgynjar, ok voru þar um vetrinn, [ok lögðu undir sik land allt at sköttum ok skyldum fyrir sunnan Stað[8]. Þeir vildu láta kalla sik Gullbeina.

*Bardagi Sverris konúngs við Eyjarskeggja*[9].

120. Sverrir konúngr hafði látit gera borg í Björgyn á berginu upp frá biskupsgarði[10], ok höfðu Birkibeinar þar um vetrinn [mikla sveit[11]; rèð þar fyrir Sigurðr borgarklettr. Veittu Eyjarskeggjar borgarmönnum jafnan atsókn, [ok komust lítt við annat en skjóta á þá; borgarmenn skutu í mót[12], [fengu Eyjarskeggjar optast verra af[13]. Mart dreif lið um vetrinn til Eyjarskeggja, ok gerðust handgengnir. Sigurðr jarlsson hafði laupit um haustit í Víkinni frá Birkibeinum til Eyjarskeggja, ok var hann þá [einn forstjóri fyrir þeim[14]; var [hann kallaðr[15]

---

1) gánga á land, *G.* 2) fylkja, *G.* 3) Birkibeinar þykkjast eigi lið hafa til viðtöku ok flýja, *G.* 4) skutu eptir, *B.* 5) *frá fyrra* [ *v. G.* 6) viðtöku, *G.* 7) fóru um haustit, *G.* 8) Staði, *B; frá* [ *v. G.* 9) *þ. P*, Frá borgargerð, *G.* 10) konúngsgarði, *B.* 11) miklar sveitir, *G.* 12) *v. G.* 13) ok fengu þeir jafnan inn lægra lut, *G.* 14) sveitarhöfðingi, *G.* 15) *v. G.*

1194.

vitr maðr. Þat [bar at[1] einn helgan dag [at öndverðri[2] lángaföstu, at Ólafr jarlsmágr [hlýddi messu at Ólafskirkju á Bökkum, ok stóð úti um messuna hjá kirkjunni[3], ok hafði lagt höndina upp á kirkj stoðina, ok einn maðr í borginni dró at lásboga, ok setti[4] í höndina, svâ at broddrinn stóð fastr í stoðinni; [var þat mikit sár[5]. Eyjarskeggjar gerðu[6] frá sèr lið sitt í sýslur, ok[7] í ymsa staði, [fyrir því at þeir væntu Sverris konúngs ekki fyrr en á liði vârit[8]. Sverrir konúngr sat um vetrinn í Þrándheimi, ok hafði [nefnt lið með sèr af[9] hèruðum, bjóst æ þannig[10] við, sem þeir Eyjarskeggjar myndu [brátt sunnan[11] koma; [lá liðit[12] um vetrinn út í Gildaskála[13], allt til þess er[14] konúngr fór norðan um vârit um lángaföstu[15]; hann hafði ekki stærri skip en tvítugsessur, ok þaðan af smærri. Konúngr fór mjök af skyndíngu suðr til Björgynjar; fengu Eyjarskeggjar enga njósn [af ferð konúngs[16], áðr[17] [hann kom nær bænum[18]; þeir áttu þíng Þvâttdaginn[19] fyrir pálmadag. Ólafr jarlsmágr talaði þá [fyrir liðinu[20] ok mælti: nú höfum vèr spurt [hit sanna[21]

1) þat varð um vârit, *G.* 2) á, *G.* 3) stóð úti hjá Ol. k. á Bökkum, *G.* 4) skaut, *F.* 5) *v. G.* 6) sendu, *G.* 7) *v. G.* 8) *v. G.* 9) nefndir or, *G*; nefndarlið af, *F.* 10) æ svâ, *G.* 11) þá ok þá þángat, *B.* 12) hann drjúgast, *F.* 13) Gildisskála, *B*, *F.* 14) *frá* [ *v. G.* 15) or kaupángi, *b. F.* 16) *v. G.* 17) *b. G.* 18) höndum, *F*; *frá* [ *b. G*, *F.* 19) laugardaginn, *G*; laugardaginn næstan, *B.* 20) *b. G.* 21) *b. F.*

1194. um ferðir Sverris konúngs, at hann mun brátt[1] koma á fund vårn; skulum vèr nú gera ráð vårt, hvårt yèr skulum bíða hans hèr[2], ok berjast með því liði sem vèr höfum nu, eða [vili þèr gera[3] annat ráð, [fyrir því at lið vårt er mart í brottu[4]. Sigurðr jarlsson er með VI[5] skipum suðr í Stafángri, ok er sá til at sigla[6] undan [ok leita[7] á þeirra fund. Eysteinn korpr er inn í Sogni með III skipum, ok mun oss þat lið koma lítt at haldi. Þá svarar Hallkell Jónsson: þess [er mèr[8] vân, segir hann, at oss skorti ekki lið þetta sinn við Sverri konúng[9], ef oss verðr[10] eigi meirr ráðfátt, eða [vili eigi meirr óauðna[11] falla til[12] með oss um vâr skipti, en til sè stefnt: ráðin sýnast mèr flestum bilat hafa við Sverri konúng[13], ok þess væntir[14] mik at vèr sigrimst á honum, nema vèr rasim fyri ráð fram, ok er þat at varast, fyrir[15] því at vèr erum til þess eigi óvænni, en þeir menn[16] er þat hefir hent. [Þess voru ok fleiri fúsari at berjast[17]; gengu þeir þá[18] til skipanna ok [bjöggust við[19], [ok víggyrðluðu skipin[20], ok lögðu [um kveldit[21] [er á leið[22] út í Flóruvoga, ok lágu[23] þar um nóttina. En

1) skjótt, *G.* 2) *v. G.* 3) at vèr takim, *G.* 4) *v. G.* 5) VII, *B.* 6) sækja, *B.* 7) *v. B.* 8) eigum vèr, *G.* 9) *v. G.* 10) *þ. G*; er, *A.* 11) *þ. G*; auðna, *A.* 12) *frá* [ ekki auðna tilfalli, *B.* 13) *v. G.* 14) varir, *G.* 15) af, *G.* 16) *v. G.* 17) *v. G.* 18) *b. G.* 19) *þ. F*; um, *G.* 20) *b. F.* 21) *b. G, F.* 22) *b. F, B.* 23) *b. G*; *frá þriðja* [ bjöggu, *A.*

Sverrir konúngr kom þann sama aptan [nær bænum[1] í Björgyn [eptir sólarfall[2]; steig hann þá á skútu, ok rèri inn til bæjarins, en annat liðit rèri suðr til Grafdals hit ytra. Konúngrinn [hafði þá alla[3] sanna njósn, [hvat Eyjarskeggjar höfðust at[4]; hann gekk upp [útí Hólmi ok[5] til Kristskirkju. Þat var þar til[6] tíðinda, at Páll biskup hafði andazt [áðr um daginn[7], stóð þá uppi[8] lík hans þar í kirkju. Síðan fór konúngr upp til Borgar, ok sagði borgarmönnum at þeir skyldu fá honum lið til orrostu. Konúngr dvaldist litla hríð í bænum, ok rèri [suðr eptir liði sínu; eptir þat[9] lögðu þeir skipunum[10] suðr til Hvarfsness. Síðan fór konúngr út á báti í Flóruvâga, at skynja vörð Eyjarskeggja, heyrði konúngr þar [tal þeirra[11], ok alla[12] ætlan þeirra Hallkels, at þeir skyldu berjast [þann tíma er lýsa tæki[13]; er þat ráð mitt, sagði Hallkell, at tengja skip vâr saman, mun þá lið vârt bezt fylgjast; gerum þeim fyrst grjóthríð [meðan þat vinnst[14], en því næst [skulum vèr láta[15] gánga skotvâpnin, [ok eptir þat skulum vèr veita þeim þá atsókn[16], at þeim verði minnisöm; man þá skjótt um skipta[17], ok dugi [hverr sem má[18]; gæti þá[19] guð til. Eptir þat fór

1) *b. G.* 2) *v. G.* 3) fèkk þá, *G.* 4) af Eyjarskeggum, *G.* 5) *v. G.* 6) *v. G.* 7) um kveldit ok, *G.* 8) *b. G.* 9) til liðs sína; þá, *G.* 10) liðinu, *G.* 11) viðræður manna, *G.* 12) *v. G.* 13) þegar um myrgininn, *G.* 14) *v. G.* 15) látum, *G.* 16) höggorrostu, *B.* 17) *frá* [ *v. G.* 18) þá hverr sem mannligast, *G*; hverr öðrum, *F.* 19) síðan, *b. A.*

Sverrir konúngr til liðs síns, ok sagði þeim alla[1] fyrirætlan Eyjarskeggja [ok tilskipan[2]: myndi mèr sýnast [þat ráð[3], at leggja nú[4] at þeim, ok yrði þeir vanbúnir við oss, [heldr en þeir verði skjótari[5]. Nú skulum vèr, segir hann, marka skip vâr öll, ok knýta líndregli[6] um fremra stafn [á skipum vârum[7], ef vèr leggjum svâ at þeim, at eigi sè ljóst. Svâ skulum vèr ok vara oss í atlögunni, sem vèr munum við borðmun eiga at deila, höfum skip vâr laus við fyrst, meðan þeir eru óðastir; gætit yðar vel ok hlífit yðr[8] fyrst, látit þá bera vâpn sín fyrir borð; gæti menn vel vâpna sinna ok ára, þvíat þeirra munum vèr þurfa, hvârir sem sigrast. Sverrir konúngr hafði XX skip ok [heldr smá[9], en Eyjarskeggjar höfðu XIIII[10] skip ok flest stór. Ok um morguninn í dagan lágu Eyjarskeggjar [í Flóruvâgum[11] tjaldlausir, ok því næst slógu þeir landfestum, ok rèru út or vâginum; þeir lögðu strengi milli skipa sinna bæði fram ok aptr; rèru öllum jafnfram, ætluðu þá at leita Sverris konúngs; en fyrir því at myrkt var, þá sá þeir eigi fyrr, en skip Sverris konúngs rendu at þeim; lustu hvârirtveggju þegar upp herópi. Þá gripu Eyjarskeggjar [sem ákafast[12] til strengjanna, ok drógu saman skipin, en skipin rendu at viðum fram[13];

1) *v. G.* 2) *b. F, B.* 3) *b. F.* 4) *frá fyrra* [ munum vèr S. k. brátt leggja, *G.* 5) *v. G.* 6) líndregla, *G*; líndreglum, *B, F.* 7) *b. F.* 8) *b. G.* 9) smá flest, *B.* 10) XIII, *B.* 11) *v. G.* 12) *v. G.* 13) *v. G.*

þá rendi hvert á árar annars, ok [braut í sundr[1]. Síðan[2] drógu þeir öll skipin í tengsl, rendu þá ok at skip Birkibeina; tókst þá þegar orrosta, sóttu Eyjarskeggjar í ákafa, en Birkibeinar skutu skjöldum yfir sik[3] svâ þykt, at hvergi sá þá bera. þeir lètu vakka við skipin, ok höfðu [nokkut svâ[4] í glett; [var þat auðsætt[5], at þeir voru vanir þessu starfi; svâ fóru þeir kænliga. En er Eyjarskeggjar tóku at mæðast, ok heldr [mínkaðist hin harðasta skothríðin[6], þá eggjaði Sverrir konúngr Birkibeina, ok mælti: standit upp ok [rèttit vâpn[7] yður; verit nú Birkibeinar, ok látit sjá, hversu [þèr kunnit beita vâpnunum. Eptir þetta risu Birkibeinar[8] upp undir skjöldunum, ok gerðu aðra[9] hríð; sumir grýttu, en sumir skutu, lögðu [nú fast at[10]. Eyjarskeggjar tóku við [þeim allhraustliga[11]; nutu þeir þá borðmunarins. þeir komu stafnljám á konúngsskipit, ok drápu stafnbúana[12], en tóku merkit; ok allt ruddu[13] þeir skipit mjök svâ framan til siglu. En er þeir tóku uppgönguna at greiða, þá eggjaði konúngr sína menn; sóttu Birkibeinar fram at þeim svâ frækniliga[14], at þá hrukku Eyjarskeggjar undan; voru sumir

1) brotnuðu, *F.* 2) *v. G.* 3) *v. G.* 4) *v. G.* 5) svâ v. þ. auðsýnt, *G, B, F.* 6) rènaði hin snarpasta hríðin, *G.* 7) takit vâpn, *B*; rèttit nöfn, *F*; sannit nöfn, *G.* 8) hversu yðr bíta vâpnin; þá rísa þeir, *G, B.* 9) harða, *B.* 10) þeir skipin sín svâ fast at sumir lögðu, en sumir hjuggu, *G.* 11) hreystimannliga, *G.* 12) stafnbúann, *G.* 13) hruð *G.* 14) frekliga, *G*; frækliga, *B.*

drepnir, en sumir komust aptr á skip sín. Fengu Birkibeinar þá skip sín frá leyst, [ok höfðu eina ferð allir þeir, er svå nær höfðu lagt stórskipunum, ok Eyjarskeggjar[1] [festust við[2]; [at þeir hruðu[3] sum skipin Birkibeina; varð þessi[4] hríð allmannskæð, ok fèll miklu fleira af konúngi[5]; síðan lögðu Birkibeinar frá skipin. Þá mælti Sverrir konúngr: hafizt vel við, góðir bræðr[6]; eigi[7] munu þeir margar[8] slíkar hríðir gera oss; [verðum vel við[9], þeir munu eigi síðr tannsárir en vèr. En er Eyjarskeggjar sá þat, at Birkibeinar lögðu frá, þá hugðu þeir at þeir vildi flýja. Þá mælti Ólafr jarlsmágr: dugum vèr nú vel, þvíat nú bleyðast þeir, ok sè ek svå [fara flestum[10] þá er í ofreflit koma; fylgjum nú sigrinum, ok höggit[11] tengslin, rekum þá nú karlmannliga. Allir våru þess fúsir, var nú svå gert. En er skipin losnuðu í sundr, ok þeir skyldu greiða atróðrinn, þá mistu þeir áranna; rak þá skipin fyrir straumi [sèr hvert[12]. Birkibeinar rèru þá at, ok lögðu II skip eða III at einu; ok í því bili komu menn[13] innan or bænum[14]; höfðu þeir lángskip, voru þar á níutígir[15] manna, ok höfðu allir hríngabrynjur; kom þetta lið [vel at haldi[16], ok hruðust þá skipin Eyjarskeggja, ok hvert sem hroðit var,

1) *b*, *G*. 2) *b*. *B*; fengu við fest, *b*. *G*. 3) *þ*. *G*; h. Eyjarskeggjar, *A*. 4) sjá, *G*. 5) *þ*. *G*; Birkibeinum, *A*. 6) hálsar, *G*. 7) fár, *G*. 8) *v*. *G*. 9) því at, *G*. 10) *þ*. *B*; flesta, *A*, *G*, *F*. 11) *þ*. *G*; höggi, *A*. 12) *v*. *G*. 13) þeir, *G*. 14) borgarmenn, *b*, *G*. 15) X tígir, *G*. 16) þá vel í þarfar, *G*.

þá gengu Birkibeinar af smáskútunum, ok á þau hin stærri skipin. Eyjarskeggjar höfðu sett upp Sigrfluguna, merki Sverris konúngs, í stafnin á höfðíngjaskipinu[1]; sá Birkibeinar þá fullvel[2], hvar eptir henni var at leita; sóttu Birkibeinar [þar fast at, ok lèttu eigi fyrr en[3] þeir náðu merkinu; ok því næst [gengu þeir upp á skipit ok hruðu[4] með stöfnum; en Sigurðr konúngsson hljóp fyrir borð, ok var drepinn á sundi. [þá rèru í brot á II skipum Loðinn, son Páls smáttauga, ok Hallvarðr bratti[5]. Ólafr jarlsmágr hljóp ok fyrir borð, [þá er skip hans var hroðit[6], ok svam til lands; Birkibeinar óðu út í mót honum, ok drápu hann, [fyrr en hann kæmi á land. Skip Hallkels var síðarst hroðit, fyrir því at þat var bezt skipat ok mest borði[7]. Hallkell fèll á skipi sínu ok flestöll sveit[8] hans. þar fèll [nær allt lið[9] Eyjarskeggja, nema þat[10] er grið váru gefin. Konúngr hafði þat mælt, at eigi skyldi syngja fyrr messur[11] í bænum en hann kæmi [frá orrostunni[12], [ef eigi gengi mjök or lagi[13]. Konúngrinn rèri nú inn til bæjarins, [ok lèt flytja öll skipin með sèr[14]: [endist svâ til, at þá var hámessumálit[15], er konúngr kom frá orrostunni[16]; voru þá þegar

1) þ. G; höfðaskipinu, A; sínu, b. G. 2) fullgerla, G. 3) þá þar til er, G. 4) hruðu þeir skipit, G. 5) b. G. 6) v. G. 7) v. G. 8) skipshöfn, B. 9) mestr luti liðs, G. 10) þeir, G. 11) hámessur, G. 12) b. G. 13) v. G. 14) b. G. 15) var þá ok messumál, G; hátt m. m., B; hátt mál, F. 16) bardaganum, ok, G.

súngnar [messur er hann kom[1]. Litlu eptir orrostuna andaðist Bárðr Guthormsson ok Benedict litli, ok enn fleiri liðsmenn. Litlu síðarr fundust líkin Sigurðar ok Ólafs; þá lèt Sverrir konúngr sýna líkit Sigurðar í fjölmenni[2], at þar var lík þess höfðíngja, er sá[3] flokkr hafði haft fyrir sèr, [ok bað líkit jarða[4] fyrir sunnan saunghúsit í Maríukirkjugarði; [var þar gör mikil gröf, ok lögð í lík Eyjarskeggja[5], ok efst lík Ólafs jarlsmágs. Þat er mál manna at eigi hafi sú orrosta verit, er menn hafi sigrazt við jafnmikinn borðamun, sem var í Flóruvâgum; gerði þar mikinn kænleiksmun með þeim um atlöguna, [ok voldi[6] [þat[7] mest[8] [at Birkibeinar voru[9] vanari bardagum[10]; en djarfir voru Eyjarskeggjar við vâpn, en heldr úgætnir at hlífa sèr. En er Sigurðr jarlsson spurði þessi tíðindi, þá [vendi hann suðr með landi, ok allt[11] [í Vík austr, ok svâ[12] suðr[13] til Danmarkar; fylgði honum sumt liðit, en sumt dreifðist á ymsa vega, [ok margir gengu[14] til griða. Eysteinn korpr sigldi vestr um haf.

### *Frá brèfsendíngum erkibiskupa til páva*[15].

121. Eiríkr erkibiskup ok Absalon erkibisk-

---

1) *v. G.* 2) ok sagði, *b. F.* 3) þessi, *G.* 4) var líkit jarðat, *G.* 5) Lík Hallkels var jarðat í Krists kirkjugarði; í Maríu kirkjugarði var ger gröf mikil; voru þar mörg lík Eyjarskeggja í lögð, *G.* 6) *v. G.* 7) því, *F, B*; *v. G.* 8) *frá* [ auðna konúngsins ok atlága, sakir þess, *b. F, B.* 9) kænni ok, *b. F, B.* 10) *frá þriðja* [ *v. G.* 11) siglir hann, *G.* 12) *b. B.* 13) *b. G.* 14) sumt gekk, *G, F.* 15) *þ. P*; Stórmæli páfa við Sverri, *G.*

up sendu menn með brèfum suðr til Rúms, 1194.
á fund pávans; var þar ritat allt frá Sverri konúngi eptir vitnisburð Eiríks erkibiskups ok hans manna, [svâ ok um öll þeirra viðrskipti, þau er verit höfðu, áðr en erkibiskup fór[1] frá stólinum. Af pávanum fengust þau andsvör, sem erkibiskupar höfðu orð til sent, at pávinn lýsti stórmælum yfir [Sverri konúngi[2], ef hann lèti eigi erkibiskup [hafa allt slíkt er hann vildi[3], ok hann kallaði til. Þessi sömu brèf lèt erkibiskup upplesa[4] í Danmörku, ok lýsti hvern sunnudag á kór uppi banni yfir[5] Sverri konúngi. En er Sverrir konúngr spyrr þetta[6], þá talaði hann opt á þíngum um þetta mál, ok sagði svâ: at þat var upplöst eitt[7] Dana, en eigi páva orð, ok kveðst ætla at Eiríkr blindi myndi ekki fyrljúga konúngdómi hans; ok þat sama[8] [bann ok blótan, segir hann, er hann nefnir mik til[9], þat hefir nú [dreifzt í augu hans[10], ok er hann nú fyrir því blindr; munu þeir í banni vera, er bannsverk gera[11]; en ek em konúngsson ok rètt kominn[12] til [þessa lands ok ríkis; hefi ek ok mörg vâlk ok vandkvæði þolat, áðr en ek næði þessu ríki, ok eigi

1) um öll þeirra mál, áðr erkibiskup stökk, *G*, 2) konúnginum, *G*. 3) ná því öllu sem hann beiddist, *G*; er hann kallaði til með rèttu, *B*. 4) upp ráða, *F*. 5) á hendr, *F*. 6) þessi tíðindi, *F*. 7) *v*. *G*. 8) *v*. *G*, *F*. 9) mannblót ok bann er hann hefir mik tilnefnt, *F*. 10) drifit í augu honum, *G*, *B*, *F*. 11) gerðu, *F*. 12) kosinn, *B*.

1194 vil ek láta þat fyrir þessar sakar[1]. Fari Eiríkr enn[2] til stóls síns, þóat hann sè blindr, ef hann vill halda landslög, [svâ sem hèr eigu at standa í þessu[3] landi; en þó at hann hefði þar bæði augu heil, er nú er hann báðum blindr, ok [þar með sjálfu[4] hugskotinu at sjá hitt rètta, þá mun ek eigi brjóta lög hins helga Ólafs konúngs fyrir hans sakir, þó at hann bannist jafnan[5] um eða blótist.

*Frá [legáta páva ok[6] Sverri konúngi.*

122. [Sverrir konúngr fór austr eptir Sigurði jarlssyni litlu eptir páskana, ok vildi dreifa flokkinum þeim er saman hèlst. Hann fór [um vârit[7] allt austr í Konúngahellu[8]; þá kom þar pávans sendimaðr, legatus, ok hans förunautar; [bauð Sverrir konúngr þeim til sín, ok hafði[9] legátann [nokkora daga[10] í boði sínu; ræddu þeir marga hluti í milli sín, ok leitaði konúngr þess við legátann, at hann myndi gefa [honum konúngsvígslu ok kórónа hann; en legátinn lèt við því líkliga, ok tók því öllu vel[11]. En er aðrir[12] kennimenn urðu varir við þessa ráðagerð, þá segja þeir legátanum, at konúngr var úsáttr[13] við erkibiskup, ok hann[14] var frá

---

1) lands þessa, ok haft áðr marga nauð, fyrr en ek næða, *G, F*, 2) heim, *B; v. G.* 3) hèr í, *G.* 4) svâ, *G,* 5) *v. G, F.* 6) *b. G.* 7) *ok ennfremr:* eptir Sigurði jarlssyni, ok vildi dreifa flokkinum, *b. F.* 8) *frá byrjun kapítulans:* þegar eptir páska fór Sv. k. austr með landi, hann fór allt austr í Konúngahellu, *G.* 9) hafði konúngr þá, *G.* 10) *b. G.* 11) konúngi vígslu ok vígja hann kórónu; legáti tók því líkliga, *G.* 12) *v. F.* 13) í missætti, *G.* 14) *v. F.*

stólinum; [ok segja at legátinn skyldi þessu eigi játa; fundu þat til saka við konúng, at hann hafði verit vígðr áðr[1] til prests; ok þat annat, at hann hafði tekit eiginkonu, ok hefði[2] áðr aðra[3], [þá er hann hafði lögfengit[4], ok lifðu þá báðar; marga hluti aðra fengu þeir til rægslu[5] við konúng. En hit næsta sinn er Sverrir konúngr kom á þetta tal við legátann, þá synjaði hann konúngi vígslunnar, ok bað hann sættast við erkibiskup, ok sagði [at hann átti[6] þá at[7] vígja hann. Þá svarar konúngr: ek sè hvert þitt örindi mun vera híngat í land; þat sama sem margir falsarar gera aðrir: þeir [hlaupa higat[8] utan or löndum, ok vilja fá sèr fè[9], en gera vårt ríki at spotti[10] þann tíma er þeir koma í braut. Nú vil ek at þú farir íbrot [or þessu landi[11], ok vil ek eigi at þú falsir fè af mínum þegnum hèr í mínu landi. Eptir þetta fór legátinn[12] íbrot.

*Frá Sverri konúngi ok Nikolási biskupi*[13].

123. Sverrir konúngr snerist[14] aptr norðr í Víkina; [síðan gerði hann[15] menn eptir Nikolási biskupi, ok er biskup kom [til konúngs[16], þá heimti konúngr hann á eintal[17], ok sagði

1) þeir sögðu ok Sverri hafa verit vígðan fyrrum, *G.* 2) átt, *G, F.* 3) konu, *B, F.* 4) lögfengna, *G*; *v, F.* 5) rógs, *G, B, F.* 6) ætti, *F.* 7) *frá* [ hann eiga, *G.* 8) er laupa, *G.* 9) penínga, *B.* 10) ok háði, *b. G, F.* 11) hèðan þinnar leiðar, *G, F.* 12) *þ. G*; hann, *A.* 13) *þ. G.* 14) nú, *b. G.* 15) hann sendi, *G.* 16) á konúngs fund, *G.* 17) *þ. G*; einmæli, *F*; tal, *A.*

1194 at hann var þess varr[1] orðinn, at öll þau svikræði, er þeir Hallkell höfðu haft við [Sverri konúng[2], þá höfðu fyrst komit[3] undan túngurótum biskups[4]; bar konúngr þat á hendr honum með jartegnum[5]. Biskup synjaði ok mælti ímóti; en konúngr sagði at þetta myndi ekki stoða[6], lèzt hann allt vita hit sanna áðr; hèt konúngr biskupi hörðum afarkostum, ok kallaði hann [drottinssvika ok[7] landráðamann. Biskup bað konúng vægðar[8], [hèt honum trúnaði, ok bauð at binda þat eiðum ok svardögum[9]; lèzt ok [allt þat skyldu vel bæta, er hann hafði afgert, sem konúngr beiddist sjálfr; ok[10] var hann[11] þá hinn mjúkasti; Sverrir konúngr hafði biskup norðr til Björgynjar með sèr. Konúngr sendi orð Þóri biskupi af Hamri[12], at hann skyldi koma til Björgynjar [sem fyrst[13]; hann gerði svâ. Þar kom ok Njáll biskup or Stafángri; var þar talat um kosníng, hvern kjósa skyldi í stað Páls biskups [til stólsins[14] í Björgyn. Þá var til kosinn sá maðr er Marteinn hèt, ok var hirðprestr Sverris konúngs; hann var enskr at öllu kyni, ok forkunnar[15] góðr klerkr; þeir vígðu hann til biskups at ráði Sverris konúngs; voru þessir biskupar at: Nikolas biskup, Þórir biskup, Njáll biskup. Nikolás

1) vís, G. 2) konúnginn, G. 3) þ. G; uppkomit, A. 4) biskupi, G, F. 5) jarteinum, G. 6) tjóa, G. 7) v. G. 8) á sínu máli, b. G. 9) v. G. 10) bæta vildu með öllu því sem konúngr vildi, G. 11) biskup, G. 12) Hamarkaupángi, G, F. 13) v. G. 14) b. B. 15) v. G.

biskup var þá í miklum kærleikum við Sverri konúng; var hann þá ok fyrirmaðr[1] með konúngi at öllum ráðum, þeim er konúngr vildi fram láta fara. Þá var gör mikil veizla í konúngs garði, ok var þat ráðit[2], at þessir biskupar mundu [gefa Sverri konúngi vígslu[3] ok kóróna hann. Fór þat ok fram, at þeir vígðu hann [til konúngs[4] á degi [postulanna Petrs ok Páls[5]; tók hann kórónu, ok var Nikolás biskup höfuðsmaðr at vígslunni. Konúngr gaf þeim öllum góðar gjafar, ok skilðust þeir [við miklum kærleik[6].

*Frá biskupafundi ok brèfsendíngum til páva[7].*

124. Um vetrinn áðr hafði andazt [á Íslandi[8] Þorlákr[9] biskup hinn helgi[10]; ok [þat sama sumar[11] kom utan af Íslandi Páll Jónsson Loptssonar, var hann um vetrinn í [Noregi norðr í Niðarósi[12]. [Um vârit eptir fór hann hit efra til Víkr austr: hitti hann Sverri konúng í Oslu; hafði konúngr þar setit[13] um vetrinn. Páll fór þá[14] suðr til Danmarkar, ok tók biskupsvígslu af Absalon erkibiskupi, ok fór aptr um sumarit til Noregs, ok svâ norðr til Björgynjar. Sverrir konúngr fór um vârit norðr til Björgynjar; var

1) formaðr, *G*; höfuðsmaðr, *B*, *F*. 2) í ráði, *F*. 3) vígja Sv. konúng, *G*; gefa Sv.konúngsvígslu, *B*. 4) *v*. *G*. 5) *þ*. *G*, *F*; Petri ok Pauli, *A*. 6) með kærleikum, *G*. 7) *þ*. *G*; Vígðr Páll bp. til Skálaholts, *G*. 8) *v*. *G*. 9) *þ*. *G*; Thorlákr, *A*. 10) *frá* [ hinn blessaði þorlákr í Skálholti á Íslandi, *F*. 11) en þat sumar eptir, *B*. 12) þrándheimi, *G*. 13) verit, *F*. 14) *frá* [ en fór um vârit, *G*.

þar lögð stefna[1], at allir biskupar skyldu þar koma, þeir er í Noregi voru, til umráða með konúngi; fyrir því at Eiríkr erkibiskup hafði þá sent brèf sín norðr[2] í Noreg, ok stefnt [or landi[3] öllum biskupum á sinn fund; komu þá allir biskupar til Björgynjar; þá kom ok þar Páll biskup[4]. Hit fyrra sumarit hafði Sverrir konúngr þat[5] í ætlan, at gera[6] lið vestr í Orkneyjar, ok gjalda Orkneyíngum svikræði. En er þetta spurðist vestr í eyjarnar, þá [gerði Haraldr jarl[7] ok Bjarni biskup ráð fyrir þeim; bjóst jarl[8] vestan, ok með honum Bjarni biskup, ok allir hinir beztu menn af Orkneyjum; komu þeir at þessum biskupafundi til Noregs. Áttu þá höfðíngjar stefnur sín í milli [ok ráðagerðir[9]; var þat [ráð tekit[10], at gera[11] menn með brèfum á pávans fund; var fyrir [þessi brèf sett[12] innsigli Sverris konúngs ok allra biskupa þeirra er þar voru, [ok fyrri voru nefndir[13]. [Rèðst til þeirrar ferðar[14] þórir biskup, ok með honum Ríkarðr[15] svartameistari; þeir fóru með þessum örindum[16] á fund Celestini páva.

### *Frá sættum Haralds jarls ok Sverris konúngs*[17].

125. Eptir þat kærðu þeir Sverrir konúngr

1) biskupa stefna, *F.* 2) *b. G.* 3) *v. G.* 4) Jónsson, *b B.* 5) mjök, *b. G.* 6) senda, *G.* 7) *b. F.* 8) *frá* [ býst jarl at fara, *G.* 9) *v. G.* 10) af ráðit, *G, F.* 11) senda, *G.* 12) *þ. G*; þeirri brèfsetníngu, *A.* 13) *v. G.* 14) rèðust með þessum erindum til ferðarinnar, *B.* 15) Ríkgarðr, *B.* 16) boðskap, *B*; brèfum, *F.* 17) *þ. B*; Tala Haralds jarls, *G.*

ok Haraldr jarl sitt[1] mál; var þá stefnt[2] þíng 1195 út í Kristskirkjugarði, stóð hirðin allt um konúngssætit, en [sumt sat þar fram í frá[3]; [þá stóð enn mart manna[4] utan at, ok[5] var þar jarl. Hann[6] tók til orða ok mælti: hèr er nú [saman kominn[7] mikill fjölði góðra manna; þyrfta ek at mínu máli góðan róm alþýðu; ek em nú[8] svâ gamall sem á grönum má sjá; hefi ek ok komit mörgum konúngum fyrir knè, stundum með miklum[9] kærleik, en jafnan[10] með vandamálum. Nú er nýr vandi til handa borinn, reiði míns herra Sverris konúngs; en ek em þar[11] minna afvaldr því máli, en svâ[12] sem mèr er kent; eigi rèð ek uppreist flokksins; en þat er[13] satt, at eigi börðumst ek í móti honum[14]; ok eigi mátta ek hatast við allan lýð þar í landi, [meðan er ek skal þar jarl yfir vera[15]. Ok eigi gera[16] Orkneyíngar allt [eptir mínum vilja[17], margir hlaupa [út or Orkneyjum[18], ok herja á Írland eða Skotland, eða ræna kaupmenn, ok allir at úvilja mínum; ok er þat þó mælt, at ek sjá [ekki órefsíngasamr[19]. En ekki er hèr [lángt um at tala[20]; svâ gört sem nú er[21], þá legg ek allt á guðs vald ok yðart, herra! [Eptir þetta tal gekk

1) sín, *B.* 2) *v. G.* 3) en hirðmenn frammi fyri, *G.* 4) *v. G.* 5) *frá* [ þá gekk fram jarlinn ok, *F.* 6) *v. G.* 7) *v. G.* 8) *b. G.* 9) *v. G.* 10) opt, *G.* 11) þó, *G.* 12) *v. G.* 13) var, *G.* 14) þeim, *G.* 15) *v. G.* 16) láta, *G.* 17) at mèr, *G.* 18) *v. G.* 19) refsíngasamr, *G.* 20) um lángt, *G.* 21) ok svâ mælt, *b. G.*

1195 jarl[1] fram [í milli manna[2], ok fèll til fóta konúngi. Konúngrinn litaðist úm, ok tók seint til orða ok mælti: mikit hervígi[3] gerðu þèr í Noreg, er svâ styrkan flokk efldut híngat í land, sem Eyjarskeggjar voru; [var þat mjök gert móti mínu skapi ok minna manna[4]. En nú er jarl hèr kominn, sem þèr meguð sjá, ok iðrast nú þess sama, er hann hefir afgert[5] [við oss[6], biðr nú miskunnar, ok hana vil ek veita honum, þvíat ek mun þess þurfa af allzvaldanda guði, at hann miskunni mèr framarr en ek hefi tilgert; ok statt upp, herra jarl, ok ver í guðs griðum ok mínum, en ek mun sætt okkra uppsegja í meira tómi. Sverrir konúngr lèt rita alla þá sætt, er hann gerði [Haraldi jarli[7]; hann lèt ok skrá allar þær jarðir ok eignir í Orkneyjum ok Hjalltlandi, er fallit höfðu í konúngsgarð, ok þeir menn höfðu átt, er lètust[8] í Flóruvâgum. Hann lagði[9] III vetra lausn, at[10] frændr þeirra hinna dauðu skyldu leyst hafa með lausafè jarðirnar[11]; en [með því at þá væri eigi[12] leyst[13], þá fèll allt at aldareðli í konúngsgarð. Sverrir konúngr tók undir sik Hjaltland allt [at sköttum ok[14] skyldum; hann setti Harald jarl yfir Orkneyjar með þeim skil-

1) gekk hann þá, *G.* 2) millum mannanna, *G.* 3) hervirki, *F;* herlaup, *G.* 4) ok þótti mèr ok mínum mönnum þat mjök móti skapi, *G.* 5) illa gert, *B, F.* 6) til vor, *B, F;* ok, *G.* 7) við Harald jarl, *G.* 8) fallit höfðu, *G.* 9) á, *b. G.* 10) er, *G.* 11) *v. G.* 12) ef eigi væri, *G.* 13) innan þriggja vetra, *b. G.* 14) með öllum, *F.*





daga[1], at konúngr skyldi hafa hálfan allan sakeyri, ok setti þár sýslumenn yfir; svárði Haraldr jarl konúngi eiða at skilnaði þeirra.

*Tal Sverris konúngs [við biskupa*[2].

126. Síðan tók[3] Sverrir konúngr[4] tal við biskupa, áðr en þeir skildist; þá mælti konúngr: þat er mitt ráð við yðr, góðir höfðíngjar, at þèr gætit með vizku ríkis þess, er guð hefir yðr tilsett; látit yðr jafnan[5] þat í hug koma, at þat er ekki yður föðurleyfð [nè arfr; ok svâ þat[6], ef Eiríkr blindi flæmir yðr af ríkinu, [at hann mun lítit gott[7] fá yðr í staðinn, [ok mest fyrir því at hann fær ekki[8] sjálfum sèr; hann hefir nú [eigi meirr en IX menn eða X[9], ok þó alla á annars kostnaði; en ef þèr haldit fast[10] sambandi[11] [við mik[12], þá skalek vera forstjóri fyrir allra vâr máli. Þeir hètu allir[13] góðu um, at skiljast eigi við [konúng eða hans mál[14].

*Frá Hreiðari sendimanni.*

127. Hreiðarr hèt maðr víkverskr, er lengi hafði þá verit af landi íbrot, ok víða farit. Hann kom [þat sumar í Noreg[15] með brèfum ok innsigli því, er kallat var Gullbóluskrá[16]; þat innsigli hafði sent Kirialax Grikkja[17] konúngr Sverri konúngi; en þat stóð á brèfum, at Sverrir

[1]) skilmála, *F*, *B*. [2]) *b*. *B*, *P*. [3]) gekk, *G*. [4]) á, *b*. *G*. [5]) *v*. *G*. [6]) svâ ok, *G*. [7]) ætla, *F*. [8]) er hann má eigi, *G*. [9]) X sveina við sèr, *G*. [10]) gott, *B*. [11]) samband, *G*, *B*. [12]) með mèr, *B*. [13]) *v*. *G*. [14]) konúngsins mál, *G*. [15]) þetta sama sumar, *G*. [16]) *þ*. *G*, *B*, *F*; Gullbúluskrá, *A*. [17]) *þ*. *G*, *F*; Girkja, (*hèr ok framvegis*) *A*, *B*.

konúngr skyldi senda Grikkjakonúngi X C [góðra hermanna[1]. Sent hafði hann ok [í Danmörk[2] [til Knúts konúngs[3] þann mann er Petr hèt, ok vár kallaðr Petr[4] ilska, ok [með þvílíkum orðsendíngum[5]. Hinn III mann [hafði hann sent[6] til Svíakonúngs. [Hreiðarr sendimaðr taláði optliga fyrir konúngi sitt örindi, ok tók konúngr fyrst líkliga, lèzt hug skyldu á leggja[7]; var Hreiðarr við konúngi um vetrinn eptir[8]. Þat haust andaðist Knútr konúngr í Svíþjóðu, [en þar kom til ríkis ok konúngdóms[9] Sörkvir Karlsson eptir hann.

### *Frá Nikolási biskupi*[10].

128. Þat sama haust fór Nikolás biskup suðr til Danmarkar á fund erkibiskupa, Absalons ok Eiríks, ok sættist við þá. [En um vetrinn eptir[11] komu sunnan frá Rúmi til Danmarkar Þórir biskup ok Rikarðr meistari[12], ok með þeim Cardinali af Rúmaborg[13]; en allir fengu þeir þar bráðasótt ok önduðust; komu engi vísindi[14] bráðliga til Noregs af þeirra örindi hvert orðit var. En [nokkorri stundu[15] síðarr komu danskir menn, ok fluttu Sverri konúngi brèf ok innsigli pávans, [ok segja svâ: at Þórir biskup ok Rikarðr meistari hefði sett

1) manna til stríðs, *F.* 2) til Danmarkar, *G.* 3) Knúti konúngi, *G*; til Valdimars, *B.* 4) *v. G.* 5) meðr þessum eyrindum, *F.* 6) *v. G.* 7) *v. G.* 8) *v. G.* 9) ok tók þar konúngdóm, *G.* 10) Sverrir k. leystr af páva, *G, P.* 11) vetr þann, *G.* 12) svartameistari, *B.* 13) Róma, *G.* 14) tíðindi, *B.* 15) nokkuru, *G.*

þessi brèf at veði, en þeir kölluðust hafa fengit þeim biskupi fè at láni; fluttu þeir konúngi brèfin, en hann fèkk þeim fè slíkt sem hann rèð[1]. Sverrir konúngr lèt brèf þessi lesa á kór uppi[2], ok sýna þar pávans innsigli [ok brèf[3]. Stóð þat á brèfum, at þegar er pávinn vissi hit sanna, at konúngr mælti rèttara[4] en erkibiskup, þá leysti pávinn hann ok allt ríki hans frá öllum stórmælum. Konúngr sagði, at [hann hefði spurt með sannindum at Cardinali ok[5] þeir[6] þórir biskup hefði verit[7] í boði með presti nokkorum, ok um kveldit var kastat eitri í drykk þeirra, ok [dó þeir þar allir[8].

### Upphaf Bagla[9].

129. Um vârit eptir leitaði Hreiðarr við konúng, hvert hans örindi skyldi þángat[10] verða. Konúngr svarar svâ: ekki lízt mèr mjök[11] friðvænligt hèr í landi; spyr ek þat frá, at Danir myni enn ala oss úlfa, ef þeir megu svâ við komast, sitja ok þeir sumir innanlands, er ek trúi ekki vel, [þegar ef[12] nokkorr flokkr hefst[13] vil ek ekki senda [lið mitt[14] íbrot at svâ búnu. þá spurði Hreiðarr [orlofs, ef konúngr myndi gefa leyfi til[15] búandasonum eða kaupmönnum[16], [ef þeir vildi fara[17]; en konúngr lèzt

1) vildi, *B*, *F*; *frá* [ *v. G.* 2) *v. G.* 3) *v. G.* 4) sannara, *B.* 5) *b. G.* 6) *v. G.* 7) ok allir þeir, *b. G.* 8) ok af því myndu þeir hafa dáit, *G*, *F.* 9) Um eyrindi Hreiðars, *G.* 10) *v. G.* 11) *v. G.* 12) er, *B.* 13) *frá* [ *v. G.* 14) mína menn, *G.* 15) ef k. gefi orlof til, *G.* 16) kaupmannasonum, *B.* 17) at fara e. þ. v., *G.*

þat gera mundu; fèkk Hreiðarr sèr sveitar, ok fór or landi um sumarit, ok suðr til Haleyrar[1], þá er þar var[2] markaðr[3] [ok kaupstaðr[4]. Þar kom Nikolás biskup, ok [mikill fjölði Norðmanna með honum, ok flest Víkverjar[5]. Þeir Nikolás biskup höfðu þar með sèr svein þann[6], er þeir kölluðu Ínga[7], son Magnúss konúngs Erlíngssonar; þann kölluðu Birkibeinar danskan, ok heita Þorgils þúfuskít; ok þar á eyrinni reistu[8] þeir flokk; rèðst [til þessa flokks mikill fjölði manna[9]; ok til þeirrar[10] ferðar [rèðst ok[11] Eiríkr erkibiskup; [fóru síðan með þann flokk norðr í Noreg[12]; þar var [þá Sigurðr, son Erlíngs jarls[13], ok margir aðrir ríkismenn[14]. Þessi flokkr var kallaðr Baglar.

### *Frá Sverri konúngi ok Böglum.*

130. Sverrir konúngr var þá í Vík austr [er þetta var tíðinda; en[15] þeir Baglar [fóru þar til er þeir[16] komu í Salteyjarsund. [Sverrir konúngr spurði til þeirra í Seimsfirði[17], ok [gerði brátt[18] á fund þeirra[19]. Konúngr hèlt sjálfr njósn, ok Nikolás af Vestnesi; [varð konúngr nú varr, hvat er þeir Baglar höfðu liðs[20] ok sýndist[21] afli þeirra mikill. [Konúngr mælti

---

1) *þ. B*; Halæyjar, *A, F;* á Halaeyri, *G.* 2) *b. G, F.* 3) marknaðr, *F.* 4) *v. G.* 5) fjöldi Víkverja, *G.* 6) einn, *G.* 7) *v. G.* 8) reisa, *G.* 9) þar til mikit fjölmenni, *G.* 10) þessarar, *G.* 11) rèð, *G.* 12) *v. G.* 13) ok kominn Sigurðr jarlsson, *G.* 14) *v. G.* 15) *b. F.* 16) *v. G.* 17) *þ. F*; Sæmsfirði, *A.* 18) fór, *B.* 19) *frá fyrra* [ *v. G.* 20) *v. G.* 21) konúngi, *b. G.*

við Nikolás ok Sigurð lávarð, at þeir skyldu 1194
leggja skipunum til bæjar þess er [Sónaberg heitir[1]; bað þá, ef þeir fengi [nokkur svig á[2], at þeir glettist við þá Bagla[3]; en konúngr rèri til Hásteins, ok fann þar varðmenn Bagla, ok elti þá. Eptir þat rèri hann inn til liðs síns, ok áttust þeir þá við nokkora skothríð; þó varð þat lítit manntjón, ok lá sú skúta næst innlandi[4], er konúngr stýrði[5]. Baglar voru á landi, þar sem nú heita Múgavellir, höfðu þeir skip sín dregit upp hjá sèr; þeir höfðu V lángskip[6] ok C[7] smáskipa; Sverrir konúngr hafði XXX[8] skipa, ok flest smá. En er konúngr sá, at þeir [fengu þar ekki atgört við múg manns er fyrir var, þá bað hann sína menn fara varliga, ok láta eigi skipin draga upp undir sèr. Konúngr lagði þá or skotmáli, ok yfir sundit út við[9] eyna, ok lá þar um hríð. Hann lèt reisa valslöngu á bergi nokkoru gegnt skipum þeirra Bagla, ok um kveldit er valslöngan var búin, þá slöngðu Birkibeinar um hríð, ok brutu skipin fyrir Böglum. En um kveldit er dimma[10] tók, setti konúngr þar at gæta valslöngunnar Lávarð son sinn, ok Eylíf rauða; [þeir stýrðu einu skipi báðir, ok var þar á [nær

1) Sónaborgir heita, *B.* 2) nokkurt færi, *B*; nokkut svig unnit á þeim, *F.* 3) *b. B.* 4) landi, *B, F.* 5) *frá þriðja [ v. G.* 6) stórskip, *F.* 7) hundrað, *F.* 8) XX, *B.* 9) höfðu múg manns, þá lagði konúngr sínum skipum undir, *G.* 10) myrkva, *B.*

LXXX[1] manna[2]. Konúngr [mælti við þá: varit yðr svâ, at hèr koma þeir Baglar í nótt; síðan gekk konúngr[3] til skipanna. Veðr var á[4] geysikallt, ok [höfðust[5] margir á fótum, [ok lètu orna sèr[6]; sumir[7] lögðust í kös undir[8] valslöngunni, ok var á niðamyrkr sem mest. Rif nokkut gekk milli lands ok eyjar, [ok gengu Baglar þar út um nóttina at fjöru, ok upp í eyna; þeir höfðu C[9] manna, ok allt brynjat[10]; fundu Birkibeinar eigi fyrr, þeir sem undir valslöngunni voru, en kesjur[11] stóðu á þeim; ok hljópu [þeir þá[12] upp. Þá mælti Eylífr rauði: rekum þá af oss; þeir hafa[13] hönd fulla manna. [Eptir þat snerist hann til varnar, ok fátt manna[14] með honum, ok fèllu þeir flestir. Sigurðr lávarðr konúngsson steyptist ofan um[15] kleif nokkora, ok svâ fóru þeir fleiri; stefndu þeir til skipanna, ok svâ þeir er áðr höfðu brotgengit[16]. Baglar fylgðu þeim, ok fóru allir saman, ok hjálp[17] þeim þat mjök Birkibeinum, at svâ var myrkt at þeir kendust eigi, en þó lètu

1) XXX, *B*; LXXX, *F*. 2) *frá fyrra* [ ok LXXX manna með þeim, *G*. 3) *frá* [ bað þá svâ við varast, at Baglar mundu koma þar um nóttina; gekk k. þá, *G*. 4) *v. G.* 5) voru, *G*; meiddust, *B*. 6) fóru sumir til elda, *B*. 7) *frá fyrra* [ ok niðamyrkr á sem mest; þeir Sigurðr lávarðr, *G*. 8) garðinum ok, *b. F.* 9) hundrað, *F*. 10) *frá* [ Baglar gengu um nóttina at fjöru út eptir lifinu (ɔ: *rifinu*), C, *G*. 11) spjótin, *G*. 12) *bætir við G*. 13) ekki um, *b. G*. 14) snerist hann þá við, ok fáir menn með honum, *G*. 15) fyri, *G*. 16) brott komizt, *B*, *F*. 17) barg, *B*; hjálpaði, *F*.

þeir meirr en XX menn, Birkibeinar[1]. Baglar brutu ísundr[2] valslönguna. [Ok er vart varð við til skipanna þessará tíðinda, þá lètu Birkibeinar blása, ok rèðu til landgöngu, ok var Nikolás af Vestnesi skjótastr á land; lètu þá Baglar undan drífa[3] ok aptr til liðs síns[4]. Sverrir konúngr veitti [mörg ill[5] orð Lávarði, syni sínum, ok sagði þat sem satt var: at annan veg hèlt ek vörðinn, [segir hann[6], þá er ek gekk til landsins[7] móti Magnúsi konúngi: vei verði þeim konúngssyni, er svâ [illa gætir[8] sinnar sveitar[9], sem þú hefir gætt; [ok dragstu nú upp á land, ok kom eigi í augsýn mèr fyrr en dagar. Gengu þá margir menn upp á land, ok vökðu til dags[10]. 1196

*Frá Nikolási biskupi ok Birkibeinum*[11].

131. Þat var einhvern[12] dag þá er Sverrir konúngr lá í Seimsfirði[13], at hann [var á skútu, ok rèru þeir[14] inn undir landit; en Baglar gengu fram á berg nokkut, ok kölluðu á þá. Þá mælti Sigurðr jarlsson[15]: er Sverrir matgjafi minn á skútunni? Þá svaraði Ljótr Haraldsson: hèr er Sverrir konúngr á skipinu; ok [satt er þat[16], at hann hefir eigi[17] verra manni mat gefit en þèr, ok muntu nú sýna þat. Þá

---

1) *frá* [ þar lètust af Birkibeinum á þriðja tígi manna, *G.* 2) alla, *b. G.* 3) svífa, *B.* 4) *frá* [ *v. G.* 5) hörð, *G.* 6) *v. G.* 7) lands, *G.* 8) gætti, *G.* 9) fylgðar, *B.* 10) *v. G.* 11) Frá k. ok N. b., *G.* 12) einn, *G.* 13) *þ. G, F*; Sæmsfirði, *A.* 14) reyri á skútu, *G.* 15) hvârt, *b. G.* 16) hitt er satt, *B, F.* 17) *frá fyrra* [ mun hann eigi hafa, *G.*

1196 mælti Nikolás biskup: fyrir hví gengr þú eigi á land, Sverrir? viltu eigi berjast nú, guðníðíngrinn? þèr þikkir ekki jafngott lífi, sem at ræna ok herja. -[Nú skal ek hèr[1] bíða þín[2]; sè hèr nú handlín mitt; hann[3] hèlt upp skildinum: nú hefi ek mítr ok þann[4] staf, er ek skal bera [á móti þèr[5] at pávans boðorði[6]; en þat er stálhúfa ok sverð; þessi sömu vâpn skal ek bera þar til er[7] þú er drepinn, eðr rekinn [af þínu ríki[8]. Birkibeinar skutu æ orðum í [töluna hans[9]; ok mæltu svâ: eigi þætti oss vandi á[10] um landgönguna, ef slíkir einir væri[11] fyrir, sem þú ert[12], níðíngrinn; ok þessi vâpn mantu frambera á dómsdegi. En sumir mæltu svâ: illa muntu bera þín vâpn; svâ hefir þú fyrr borit. Konúngr [mælti: bað þá ekki meíðast[13] í orðum við hann. Enn mælti biskup: jafnan frýi þèr mèr hugar, Birkibeinar. Nú gakk þú, Sverrir, einn á land, en ek [skal koma[14] móti þèr; ok skal þá reyna, hvârt meira má veita mèr Petr postuli ok hinn helgi Hallvarðr, eðr hon kýflan[15] gauzka man veita þèr, er þú trúir á. Þá svaraði Sverrir konúngr, svâ at hans menn heyrðu: þat mundi mælt, ef við Nikolás[16] berðimst, at þat væri greyja ágángr[17], er í hvârigum er

1) *b. F.* 2) *frá* [ *v. G.* 3) *b. G.* 4) *v. G.* 5) *b. B.* 6) boði, *G.* 7) *þ. G*; at, *A.* 8) eðr af landi, *ofaukið*, *A*; rekinn or landi, *G, B, F.* 9) *v. G.* 10) *v. G.* 11) stæði, *F.* 12) *v. G.* 13) bað þá hætta ok mæðast eigi, *B, F*; ok jafnast ekki orðum við hann, *b. F.* 14) mun einn gánga, *G.* 15) gylfra hin, *F.* 16) biskup, *b. G.* 17) atgángr, *B*; mót, *G, F.*

1196

hugrinn. [Lèt þá konúngr róa í brot ok til liðs síns[1].

*Frá ráðagerðum Sverris konúngs, ok ferð norðr til þrándheims[2].*

132. Ok[3] [um morgininn eptir[4] hafði konúngr húsþíng, ok spurði menn ráða[5], hvat er til skyldi taka. Nikolás af Vestnesi svarar: íllt þikkir oss at liggja hèr við matleysi; viljum vèr [nú leggja[6] at [þeim ok berjast[7], [en at öðrum kosti[8] [fara íbrot, ok[9] þángat er vèr fám oss mat. Konúngr svarar: [svâ er nú, Nikolás, at þèr segit margra huga, ok veit ek at leiðángrsmenn eru heimfúsir[10]; en svâ íllt sem þeim[11] þikkir hèr at liggja, þá þikkir þeim[12] engum mun betra, er hèr liggja fyrir innan sundit[13], [ok munu þeir rjúfa samnaðinn, ef vèr [bíðum þess[14]. En með því at þèr vilit nú íbrot, þá skal þat vera: bað konúngr nú leggja íbrot skipunum, ok var svâ gört, var þat drottinsdag[15]; [lèt konúngr[16] flytja lík sinna manna til kirkju í Salteyjarsundi. Eptir þat hèlt[17] konúngr[18] öllu liðinu norðr, [ok gaf honum góðan byr[19] til Björgynjar; [lofaði hann þá

1) fór þá k. íbraut ok til sinna manna, *G*. 2) Um húsþíng, *G*. 3) *v. G*. 4) eptir slagit, *B*, *F*. 5) ráðs, *G*. 6) ekki at undanberi, at vèr leggim, *F*. 7) berjast, sigrast, eðr falla, *G*; falla með drengskap, *B*. 8) eðr, *B*. 9) viljum vèr á braut, *G*. 10) hèr segir þú nú mjök vilja allra liðsmanna, *G*. 11) yðr, *G*. 12) hinum, *B*. 13) sundin, *F*; hjá oss, *G*. 14) lægim lengr, *B*; værim þráir, *F*. 15) *frá fyrra* [ *v. G*. 16) konúngr lèt þá, *G*. 17) fór, *G*. 18) með, *b. G*. 19) *v. G*.

öllum leiðángrsmönnum brot at fara[1], [en hann hèlt norðr, ok sat[2] í þrándheimi[3] um vetrinn; en[4] Baglar sóttu norðr í Víkina, ok lètu stefna Borgarþíng, [tóku þar til konúngs Ínga, son Magnúss konúngs[5]; lögðu þeir þá undir sik Víkina alla ok[6] Upplönd, ok settu menn í allar sýslur. Nikolás biskup var um vetrinn í Oslu at stóli sínum, en stundum suðr í Danmörku; þá var vígðr til biskups í Hamarkaupángi Ívarr skjálgi. þá kom til flokksins Hallvarðr af Sástöðum, [Kolbeinn strínefr[7] ok margir aðrir. þann vetr tóku þeir Nikolás biskup ok Sigurðr jarlsson mikit fè [Sverris konúngs[8] or Maríukirkju vegg í Höfuðey, ok höfðu þat með sèr.

### *Frá útboði Sverris konúngs, ok tala hans fyrir liðinu[9].*

133. Um vârit eptir fóru þeir Nikolás biskup [ok Sigurðr jarlsson[10] upp á Heiðmörk, ok[11] gerðu [lið frá sèr norðr um fjall[12]; kom þat ofan[13] í þeim firði er heitir Aldi[14] inn frá Rúgsundi[15], ok drápu þar sýslumenn[16] Sverris konúngs, þóri dara[17] ok Einar lygru, ok sveit

1) ok gaf þá mörgum heimleyfi, *G.* 2) drakk jólin, *F.* 3) *frá* [ konúngr fór norðr um haustit til þrándheims, ok sat þar, *G.* 4) *v. G*; *sem byrjar hèt kapítula með yfirskrift*: Frá Beglíngum. 5) var þar Ingi til konúngs tekinn, *G.* 6) um, *b. G.* 7) stránefr, *G*; *frá* [ *v. A, B.* 8) er Sv. k. átti, *G.* 9) *þ. B*; *v. G.* 10) *v. G.* 11) þá, *G.* 12) þeir lið um fjall norðr, *G, F.* 13) fram, *B.* 14) Haldi, *B.* 15) Rogalandi, *F.* 16) *þ. G*; sýslumann. *A, F.* 17) dama, *B.*

með[1] þeim; en þeir[2] þórir krákr ok þorgils, [sýslumenn Sverris konúngs[3], flýðu undan til hans[4]; en Baglar fóru aptr á[5] Upplönd[6]. Um vetrinn eptir jól átti Sverrir konúngr þíng við bændr, ok bauð út leiðángri um þrændalög[7], Hálogaland ok um hvâratveggju Mæri [ok[8] Raumsdal[9]; [stefndi at sèr öllu liðinu snemma um vârit[10]. Ok at Hallvarðs messudegi[11] var hann kominn við[12] öllu liðinu suðr[13] til Björgynjar; [hann hafði þá[14] [XXX C manna[15], [ok allt á skipum[16]. Konúngr sat lengi[17] í Björgyn um sumarit (fram) til Margrètar messudags[18], [ok beið þar leiðángrs, er út var boðinn allt fyrir sunnan Stað almenníngr[19]; dreif þá lið til hans, [svâ at skoraðir voru LX[20] hundraða, áðr en hann fór or Björgyn[21]. Hann sigldi suðr í Græníngasund öllu liðinu, ok þótti [þat undarligt[22], hví konúngr fór eigi [leið sína[23]; (en) ekki gaf hann því gaum, hvat um var rætt. Konúngr [átti þíng við bændr, ok talaði mart fyrir liði sínu, svâ at hvârirtveggju heyrðu, bændr

1) við, *G.* 2) sýslumenn er þar voru næstir (nærr), *b. B, F.* 3) *v. F, B.* 4) Sverris konúngs, *F.* 5) um, *F.* 6) *frá fyrra* [ fóru Baglar aptr síðan til Upplanda, ok þóttust hafa vel gengit, *G.* 7) allan þrándheim, *G.* 8) einnveg or, *b. B.* 9) *frá* [ *v. G.* 10) hann stefndi snemma saman öllu liðinu, *G.* 11) messu, *G.* 12) *b. G*; með, *F.* 13) *b. G.* 14) mundi hann þá hafa, *B, F.* 15) nær XXX hundraða, *G*; nær XXX C, *F.* 16) *v. G.* 17) *v. G.* 18) messu, *G.* 19) *frá* [ *v. G.* 20) sex tigir, *F.* 21) *frá* [ mikit, mundi hann þá hafa á fimta tigi hundraða, *G.* 22) mörgum kynligt, *G.* 23) leiðar sinnar, *F.*

1197 ok liðsmenn[1]. Hann hafði [mikinn fjölða leiðángrsmanna[2], ok var þat lið [at mörgu[3] úspakt ok stillt lítt. Konúngr talaði fyrir þeim[4] á þessu[5] þíngi, ok sagði svâ: úfallit er þat[6] góðum búandasonum, at fara til þess or Þrándheimi, eðr af Hálogalandi [eðr af Mæri, ok þó at[7] skemra sè atkomnir, at berjast við búgögn búanda [eðr keröld, eðr við aðra[8] bús[9] búhluti, [höggva þat eða meiða, þóat fyrir yðr standi[10]; er yðr þat engi snild [eðr framkvæmð[11], en hinum úgagn[12] er eigu; bið[13] ek yðr, [sagði hann[14], at þèr gerit eigi svâ lengr; [væri slíkt ekki konúngligt örindi[15], ef eigi bæri[16] nauðsyn til[17]. Nú má ek eigi heita [stjórnarmaðr þessa lands[18], nema ek [gera svâ, at úsiðrinn lægðist, þar sem ek hefi forráð fyrir, en eigi gángi fram[19]; bið ek yðr með[20] vinsamligum orðum, at þèr [leggit þessa úspekt niðr, þvíat[21] mèr þikkir mikit fyrir at refsa yðr; [ok þat sama[22] verðr þó at gera, ef eigi betrast[23] við þetta[24]. Ek þikkjumst ok fullkominn vera til [ríkis ok stjórnar þessa lands[25], þóat Nikolás

1) konúngr hafði jafnan þíng við lið sitt, *G.* 2) leiðángrsfólks, *G.* 3) *v. G.* 4) fólkinu, *G.* 5) einu, *B.* 6) *b. G.* 7) eðr þótt, *G.* 8) keröld eðr, *G.* 9) búrs, *B; v. F.* 10) *v. G.* 11) *v. G.* 12) mein, *G*; úgagn ok mein, *B.* 13) ræð, *G.* 14) *v. G.* 15) at tala, *b. B.* 16) heldi, *F.* 17) *frá* [ *v. G.* 18) stjórnari, *B, F, G.* 19) taka af þessa úsiðu eðr aðra, *G.* 20) til, *G.* 21) látit af þessum uspektum, fyri því, *G.* 22) en þat, *G.* 23) batnar, *G.* 24) svâ, *b. G.* 25) ríkisstjórnar l. þ., *G.*

biskup segi þat eigi, [at ek þykkjumst eigi þurfa 1197
til hins sama at tala tysvarsinnum eða þrisvar, er eigi liggr meira við en nú hefir ek um rætt[1]. En þat þikkjumst ek eigi vita, hvat Nikolás biskup finnr [til þess[2], er hann segir svâ[3], at ek mega eigi konúngr vera yfir Noregi. Þeir hafa konúnganöfn borit margir, er verit hafa ambáttar synir; en ek em[4] sannr sonr Sigurðar konúngs ok Gunnhildar. Er nú[5] þat mörgum[6] mönnum kunnigt, hver ætt hennar er; en [ef þeir eru hèr sumir, sem mik væntir[7], at eigi sè þat í kunnleika, þá kann ek nú nokkut af því segja[8]. Þá talði hann[9] allar kynkvíslir hennar fyrir[10] öllum þíngmönnum[11]; ok könnuðust þá margir menn[12] við sína frændr [til hans[13], [bæði í föður ætt ok móður[14], þeir er áðr vissu eigi skyn[15] á. Lauk konúngr svâ sínu örindi[16], at hann kvaðst engan vita betr tilfallinn þann tíma í Noregi, hvârtki fyrir guði nè mönnum, at bera konúngs nafn en sik. En þóat Nikolás biskup vildi annan heldr hafa, þá munu vèr Birkibeinar lítt at því fara nú heldr en fyrr. Konúngrinn, sá er ríkinu stýrir, þarf bæði at vera harðr ok ráðvandr; en oss sýnist svâ, þóat Nikolás sè

1) *frá* [ *b. F.* 2) mèr, *G.* 3) þat, *G.* 4) *þ. G*; er, *B*; þikkjumst, *A.* 5) *v. G.* 6) nokkurum, *G.* 7) varir, *B*, *F.* 8) *frá* [ek má þat þó gera enn kunnugra alþýðunni, *G.* 9) konúngr *G.* 10) *v. G.* 11) heyranda, *b. G*; í allar kvíslir (*ofaukit*), *A.* 12) *b. G.* 13) *v. hin.* 14) *v. G.* 15) skil, *G*, *F.* 16) máli, *G*; sinni ræðu ok eyrindi, *F.*

túngusnjallr[1] maðr, sem hann hafi hèra hjarta, en útrygð[2] sem refrinn, [þvíat jafnan hefir oss nú svå reynzt[3]; ok þóat vèr [skylim upptelja[4] allan afspríng Ingiríðar, þá mun fárr vera tryggr; eigi var Magnús trúr[5] [ok eigi var[6] Búriz[7] trúr[8], sem [síðan[9] hafa merki á borit[10]. Nú [er þat bezt at láta slíkt[11] vera kyrt, fyrir því at allt mun reynast um síðir, hverr hvergi er; [en ek vænti nú, at skamt sè til þess, er vèr Birkibeinar munum[12] sækja á fund þeirra Bagla, ok man þá vita, hversu [dyggr eða traustr hann skaufhalinn[13] er þeim í ráðunum[14] fyrir oss Birkibeinum.

*Skipan Sverris konúngs[15] til atlögu[16].*

134. Eptir [þetta örindi raufst þíngit; fóru bændr heim, en Birkibeinar ok leiðángrsmenn fóru aptr ofan til skipa[17]. [Skamt var þess í milli ok[18] byrr rann á; [lèt konúngr blása til brautlögu, ok var til segls tekit, ok sigldu [austr fyrir land[19]; lèttu eigi fyrr en þeir [sigldu inn til Oslúar[20]; [þar voru Baglar fyrir með allan her sinn[21]. Jakobs messudags aptan lagðist

1) túngumjúkr, *G.* 2) trygð, *G, F, B.* 3) *v. G.* 4) telim upp, *G.* 5) konúngr tryggr, *F.* 6) eigi, *G.* 7) Búrizlafr, *F.* 8) *v. G.* 9) *v. F.* 10) *frá* [ merki hafa á orðit, *G.* 11) látum þat, *G.* 12) munum vèr nú fyrst, *G.* 13) *þ. B*; skaufalinn, *hin.* 14) *frá* [ hvatr hvergi er, eða hversu fast skaufali stendr, *G.* 15) Sverrir k. skipaði, *G.* 16) *v. A.* 17) þat var slitit þínginu, *G.* 18) var þá skamt at bíða þess er, *G.* 19) *b. B, F*; *frá fyrra* [ tóku þeir þá til segls ok, *G.* 20) s. i. í Oslóarfjorð, *F*; komu austr til Oslóar, *G.* 21) var þar fyri Bagla herr mikill í bænum, *G.*

Sverrir konúngr við Höfuðey, gekk upp um morguninn ok hlýddi tíðum; [en er hann kom til skipanna, þá átti hann húsþíng við liðit[1], ok mælti: Baglar eru í bænum með allmikit lið, ok ætla at taka við oss; [hlýðit nú vendiliga[2], hvernig ek skipa [til atlögunnar[3]. Hákon son minn með allar smáskúturnar[4] skal róa at[5] á leiruna fyrir innan Nunnusetr, gánga þar upp ok svâ í bæinn, veita þá bakslettu þeim er á bryggjunum eru; en lendir menn mínir, Gregoríus Jónsson, Sigurðr af Móðastöðum ok Eysteinn Rögnvaldsson, ok með þeim Mærirnir[6], skulu leggja at út á Eyrum við Maríukirkjugarð, ok gánga þar upp um hit[7] syðra stræti; en allt annat skal fara liðit með mínu[8] merki utan at bryggjum; þar mun vera fyrir[9] meginlið þeirra; [gaungum nú til skipanna, ok leggjum inn at þeim[10]. Var þá [blásinn herblástr; rèru þá inn öllum herinum[11]; greindust svâ[12] skipin, [sem konúngr hafði fyrir sagt at vera skyldi[13].

*Bardagi Sverris konúngs ok Bagla*[14].

135. Nikolás biskup talaði fyrir [þeim Böglum, ok skipaði öllum fylkíngum, ok sagði[15]

---

1) eptir messu átti konúngr húsþíng, *G*. 2) hugsit þèr nú um vandliga, *G*. 3) *v. G.* 4) sínar skútur, *B*; skúturnar, *F*. 5) út, *G*. 6) mikit lið, *B*. 7) Maríukirkjugarð hjá, *b. G*. 8) *b. G*. 9) *v. G*. 10) *v. G*. 11) blásit þegar liðinu til brautlögu, *G*. 12) þá, *G*. 13) hver, þannin sem konúngrinn hafði fyri mælt, *G*. 14) *þ. B*; Tala Nicolás biskups, *A*; fyri Böglum, *b. G*. 15) her þeirra Bagla ok mælti, *G*; fyrir hönd Bagla, *B*.

svâ: Sigurðr jarlsson með sína sveit ok Hallvarðr af Sástöðum með Upplendínga skulu hafa eina fylkíng fyrir innan Nunnusetr, ok gæta [þar til[1] at þeir komist eigi þar upp; en þeir synir Önundar hlunns[2] ok Kolbeinn strínefr, [ok sú sveitin er einna er hörðust, skulu vera úti á Eyrunum[3], ok verja þar[4] bryggjurnar. Hefir Sverrir konúngr [ekki svâ mikit lið sem þèr ætlit[5]; er [þunnskipat, svâ at einn maðr er í hálfrými, þar er mest er; eða sèð[6] þèr eigi at[7] þeir hafa sett upp húðföt sín[8] í rúmunum; [eðr hyggi þèr at þat' sè menn[9]: eru Birkibeinar svâ bannsettir, at sverðin þeirra munu ekki bíta, ok eigi munu þeir þora [at at leggja[10]; verði þèr nú vel við; feigr mun hann nú, Sverrir, ef hann leggr at; kann vera at hann [leggi enn illa at[11], sem í Seimsfirði[12]. Biskup var á hesti ok klerkar nokkorir með honum, ok var hann uppi á strætinu hjá[13] garði sínum, þá er atlagan tókst; æptu hvârirtveggju heróp. Sverrir konúngr lagði svâ fast at, at þeir byrðíngar er fyrir lágu brotnuðu. Baglar höfðu sökt nokkorum skipum fyrir bryggjum, ok máttu Birk-

1) *v. G.* 2) lyns, *G, B*; syns, *F.* 3) *þ. G*; Eyrarnar, *A.* 4) *frá* [ skulu gæta til brúarinnar, at þeir komist eigi þar í bæinn, *b. F, G;* (þó at þeir leggi at út við þrælaberg, *b. F*;) en konúngsmerkit ok mitt lið ok bæjarmenn skulum verja, *b. F, G*; (skulu verja úteyrarnar ok bryggjurnar, *B*). 5) miklu minna her en þèr hyggit, *G.* 6) sjái, *hin.* 7) *frá* [ er víða einn maðr í hverju hálfrými, *G.* 8) víða, *b. G.* 9) *v. G.* 10) at leggja til orrostu, *B.* 11) fari hèr, *G.* 12) *þ. hin*; Semsfirði, *A.* 13) frá, *G.*

ibeinar fyrir því eigi vel ná atlögunni; skutu þá hvârirtveggju [bæði bogaskoti ok handskoti[1]; sóttu Birkibeinar[2] [síðan upp[3] yfir byrðíngana. Bengeirr lángi ok Bótúlfr Hafursson[4] komust fyrstir uppá bryggjurnar; en[5] enskr maðr hjó þegar til Bengeirs, ok sagði at eigi skyldu þeir þar uppgánga. Bengeirr skelfði sverðit; hann kunni allra[6] manna bezt við sverð ok buklara[7]; hann sló undir skjöldinn [þann enska mann[8], ok kom á fyrir neðan nefit, ok [í sundr kjálkana, ok af þat er tók[9]. Birkibeinar sóttu þá margir upp á bryggjurnar, en Baglar tóku vel ímóti þeim, ok varð þar hörð svipan. Einn maðr mælti til biskups: herra, ríðit nú fram hart, þvíat vârir menn þurfu nú at þèr treystit þá; lízt oss svâ sem Birkibeinum bíti nú sverðin. Þá mælti biskup: ríðum undan nú[10]; laus er djöfullinn nú orðinn. Eptir þetta hleyptu þeir upp or bænum, ok námu eigi fyrr stað, en þeir komu upp á Gjöllurás, ok þar biðu þeir liðsins. Þeir Gregoríus Jónsson[11] lögðu at [á Eyrunum[12] við árósinn, ok var þar útgrunt; en er skipin kendu niðr, hljópu þeir fyrir borð, ok óðu til lands, (ok) gengu síðan upp[13]. [Sveitin Bagla hafði

1197

1) v. G. 2) b. G. 3) þá, G. 4) þ. P; Avfursson, A, B; Áfursson, F; v. G. 5) einn, G. 6) v. G. 7) skjöld, B. 8) þvers hins enska, B; v. G. 9) ok tók þat í sundr andlitit, G. 10) v. G; sem harðast, b. B. 11) v. G. 12) v. G. 13) allhraustliga, b. G; allröskliga, B; röskliga, G.

1197. verit[1] uppi við Geitabrú; [en er þeir sá at Birkibeinar voru uppkomnir, þá veita þeir þeim árás svâ harða, at Birkibeinar lúta[2] fyrir ok snúa[3] út aptr[4] til skipanna; fèllu sumir, en sumir hljópu á kaf. Ok er þeir komu á skipin, þá lögðu þeir út til Þrælabergs, ok gánga þar á land; sóttu síðan inn eptir völlunum [til bæjarins[5]. En er Baglar sá þat, [þá sóttu þeir út ímóti þeim um Geitabrú[6], ok varð þar hörð orrosta með þeim í annat sinn. Hákon konúngsson lagði at inn á leirunni[7], ok svâ [í fyrstunni[8], at allar skúturnar rendu upp á þurt land; hljópu[9] þegar [fyrir borð ok skutu á fylkíng, ok gengu at þeim Böglum upp; skutu þeir fyrst, ok því næst lögðu þeir kesjum. Baglar biðu eigi högganna or stað, ok[10] flýðu þeir upp fyrir norðan bæinn; Birkibeinar fylgðu þeim[11], ok drápu af þeim [allt þat er þeir náðu[12]; en sumir slógust[13] í bæinn, ok veittu þeim hálshögg[14], er á bryggjunum stóðu[15]. Þá var ok Sigrflugan, merki Sverris konúngs, [komit upp[16] á bryggjurnar, ok í því bili flýðu Baglar ok bæjarmenn, sumir[17] upp or bænum, en sumir í garðana. Sverrir konúngr gekk

1) Baglar voru, *G.* 2) láta, *B.* 3) *b. G.* 4) *frá* [ ok veita þeir svâ harða árás Birkibeinum, at þeir snúa undan, *G.* 5) *v. G.* 6) sækja þeir á móti, *G.* 7) leiruna, *G.* 8) fast, *G, F.* 9) þeir, *b. G.* 10) *frá* [ á fylkíng Bagla; þeir höfðu sik skamma stund, *G.* 11) *b. G;* fast fram, *b. B.* 12) slíkt er þeir máttu, *G.* 13) sneru, *G.* 14) bakslettu, *G;* hálsslög, *B, F.* 15) vóru, *G.* 16) upp komin, *G.* 17) *v. G.*

1177

upp [eptir lángstræti[1], ok er hann kom upp í göturnar, þá sá hann út á völluna, hvar þeir börðust; [snýr þá [yfir ána fyrir ofan[2] bæinn, ok út eptir völlunum; veittu þá Böglum bakslag[3], ok[4] drápu þar flestallt lið þat, er þar hafði verit[5]. Birkibeinar rannsökuðu[6] bæinn, ok brutu hús til Bagla, ok drápu [marga; en margir hljópu undan, ok stefndu upp or bænum. Sveitir þeirra Birkibeina voru sumar uppi á völlunum, en sumar uppi á Mörtustokkum, ok gegndu Böglum æ, svâ sem þeir komust við; var þar allmikit mannfall, ok þó miklu meira af Böglum; en undan komust þetta sinn flestir allir höfðíngjar þeirra[7].

*Frá Sverri konúngi ok leiðángrsmönnum*[8].

136. Eptir þetta lèt Sverrir konúngr blása öllu liðinu uppá Mörtustokka[9], ok átti þar tal við [þá, ok mælti[10]: guð [hafi þess þökk, at Kristr[11] hefir eigi gerzt horfinn heilla[12] við oss Birkibeina um sigrinn, nú heldr en fyrr; ok er mèr þess vân, at varla mun Nikolás skaufali hafa með úhræddu hjarta nú undan sótt. En ek vil þó segja yðr[13], at [ek vil skipum láta

1) upp um lánga stræti, *B.* 2) fyrir ána ofan ok svâ bæinn, *B.* 3) bagslög, *F;* bakslög, *P;* úhagliga bak-slettu, *B.* 4) heldr úhaglig, *b. F.* 5) *frá fyrra* |[ sneri hann þá ût þannig, fengu Baglar þá hart slag; fèllu þeir nær allir, *G.* 6) þá, *b. G.* 7) *frá* [ þá enn mart manna, èn þó drógust undan þessu sinni flestir höfðíngjar Bagla, en fjöldi fèll, *G.* 8) *þ. P;* Tala Sverris konúngs, *A.* 9) Martustokka, *G.* 10) lið sitt, ok hóf svà mál sitt, *F.* 11) sè þess lofaðr at hann, *G, F.* 12) hælla, *G.* 13) öllum saman, *b. G.*

1197 leggja út[1] til Höfuðeyjar; vil ek at vèr fáim enga flaugu af þeim [eðr hlaupum[2] þeirra[3], [ef nokkorir eru þeir, er nenna aptr at hverfa til bæjarins, þegar er þeim þikkir þess vân, at menn liggi[4] í[5] drykkju[6] í bænum[7]. Þá fóru menn til skipa, ok gerðu svâ sem konúngr bauð. Upp var tekit í bænum þá[8] fè allt[9], áðr en þeir færi íbrot, fyrir því at bændr ok kaupmenn höfðu barizt ímót konúngi. Lángskip, þaù er til voru, tóku þeir ok brendu flest, en höfðu með sèr Bókaskreppuna, er Nikolás biskup hafði haft[10], [ok Görsúðina[11] er Híði hafði fyrr gera látit[12]; tók Híði[13] við Bókaskreppunni, en brendi Viðrsjána[14], er hann hafði haft áðr; [hirði saum ok segl; [þar áttu bændr[15] allan reiðann[16]; [þá lá konúngr[17] við Höfuðey; lèt hann[18] bera upp hlutskipti á völl sunnan á eyna; síðan lèt[19] hann skipta í [fjóra staði[20] herfánginu. Eptir þat var blásit til húsþíngs, ok átti hann þá tal við lið sitt. Þá lèt hann menn gánga undir stöng; var lið[21] skorat, [hversu mikit hann hafði[22]; ok [var þá

1) skipum skal leggja öllum, *G.* 2) skræmilaupum, *G.* 3) *frá* [ ok sjáum við áhlaupum þeirra, *B.* 4) leggist, *F.* 5) ógá eða, *b. F.* 6) ofdrykkju, *B.* 7) *frá* [ því at eigi er úvænna, at nokkurir víki aptr til bæarins er náttar; ann ek þeim ekki þess, at þeir komist þegar á veðr mínu liði, *G.* 8) *v. G.* 9) fyri mönnum, *b. B.* 10) átt, *F.* 11) *þ. A, F*; Gullsúðina, *B.* 12) *frá* [ *v. G.* 13) þá, *b. G.* 14) Viðsjána, *G.* 15) því at b. a., *B.* 16) *frá fyrra* [ *v. G.* 17) ok er k. l., *G.* 18) *þ. G*; þar, *A.* 19) bað, *B.* 20) fjórðúnga, *F.* 21) liðit, *G.* 22) *v. G.*

á fimta tigi C[1]. Þá kom maðr [frá Nikolási biskupi, prestr nokkurr, ok hafði brèf með at fara til handa Sverri konúngi, er biskup hafði gera látit. Þat stóð á þessu brèfi, at biskup sagði at hann[2] vildi sættast við konúng. [Konúngr svarar svâ, at gert hafði hann þat fyrr[3], [ok efnt þó lítit af[4]: ok eigi veit ek, [segir hann[5], hvernig þessi sætt veitir[6]; [en unna mynda ek Nikolási griða, ef hann kæmi sjálfr á minn fund, ok máttu svâ segja honum, at mart þikki mèr meira til frægðar at vinna, en drepa hann, ef hann kemr á mitt vald; hann ræðr[7], kemr, ef honum sýnist. Þá beiddi konúngr liðsmenn ok leiðángrsmenn[8]; at hann vill hafa skip ok skipreiða allan saman, þann er fenginn er[9], at kaupi fyrir XV merkr gulls. En mönnum[10] hugðist svâ at, [at eigi myndi þriðjúngr verðs[11] uppi, ef hann hefði svâ; ok[12] gengu þeir til, Sigvaldi karl ok Sigurðr af Móðastöðum, Eysteinn Rögnvaldsson ok margir aðrir, drógu í sundr reiðann ok seglin [í fjórðúnga[13] sem annat fè. Ok er konúngr vissi þat, hljóp hann [af

1) voru þá fimtán tígir hundraða, *G.* 2) með brèfi frá Niculási biskupi til konúngs, ok var þat á, at biskup, *G.* 3) hann kvað hafa hann þat gört fyrr, *G.* 4) *b. G.* 5) *b. B.* 6) eða hvârt hann heldr nú betr en fyrr, *b. B.* 7) *frá* [ en engi kveðst konúngi þikkja fremd í at láta drepa Nikulás, ok unna mun ek Niculási griða, ef hann sjálfr kemr á minn fund, en hann, *G.* 8) lið, *G.* 9) var, *G.* 10) liðsmönnum, *B.* 11) *þ. hin*; vera, *A.* 12) *frá* [ sem þetta mundi eigi vera þriðjúngr til verðs þess, sem til mundi koma, *G.* 13) *v. G.*

1197 skipinu; hann hafði sviga í hendi[1], ok lèt gánga; flestir [stukku undan, ok[2] köstuðu niðr því er á hèldu, fyrir því at þeir sá at konúngr var reiðr. Sigvaldi beið ok gekk eigi undan; konúngr laust hann II höggum herðarnar þverar; Sigvaldi vildi[3] eigi í mót[4] taka. Konúngr hætti, ok kvað þá illa gera, er þeir[5] brutu ráð[6] hans; kvaðst sjálfr vilja hafa landvarnir; ok svâ var; [lagði konúngr verð eptir, slíkt er hann vildi. Á þriðja degi var uppblásit liðinu til skiptis; [voru þá lagðir hlutir[7] á fjórðúnga; eptir þat skipta hverir sínum hlut ok fjórðúngi í tylptir; ok var svâ skipt fènu, til þess er í hluti kom um síðir[8]. Þat var eigi minna fè, en hverr maðr hlaut[9] til II marka veginna. Konúngr lá þar[10] hálfan mánuð.

### *Frá Böglum.*

137. Nú er at segja frá Böglum, er þeir höfðu flýit, at [höfðíngjar ok meginliðit[11] vendu[12] hit efra um Upplönd, ok svâ norðr til Þrándheims ok[13] til Niðaróss. Ok er þeir komu til [borgar á Steinbjörg[14], settu þeir lið sitt umhverfis[15] borgina, [ok lètust þar skyldu tjalda[16]. Þar var fyrir í borginni Þorsteinn

---

1) með sviga, *G.* 2) *v. G.* 3) gerði, *B, F.* 4) at, *b. F, B.* 5) *b. G.* 6) boð, *B.* 7) ok lagðr lutr, *F.* 8) *frá fyrra* [ var þá skipt síðan fènu með mönnum, sem tala rennr til, *G.* 9) þar, *b. G.* 10) skort, *b. F;* lítit skort, *b. G.* 11) meginherinn, *F;* meginflokkrinn, *B.* 12) *frá* [ þeir fara, *G.* 13) svá, *b. G.* 14) Steinborgar, *B.* 15) umhverfum, *G.* 16) ok búða, *b. F; frá* [ *v. G.*

kúgaðr ok Bjálfi skinnstakkr[1] ok Ásgautr; þeir höfðu LXXX[2] manna, [skorti þá hvártki vápn nè vistir, ok eigi drykk; gátu Baglar ekki at gert. Síðan áttu þeir stefnur við bæjarmenn[3] ok þíng uppi í Kristskirkjugarði[4], lögðu[5] vista-gjald á bæinn, ok kröfðu bændr leiðángrs[6] í[7] hèraði; [höfðu[8] nú venju Birkibeina, ok[9] lètu (menn) sverja sèr[10] trúnaðareiða, [at þeir skyldu eigi vera í gagnstaðarflokki[11] þeirra eða konúngs þeirra. Eptir þetta fóru þeir upp til borgar, ok gerðu þeim lánga skothríð; ok eptir þat kölluðust þeir á. Nikolás biskup mælti til þorsteins[12]: úráðligt er þèr[13] at halda borgina, ok vera í banni; láta muntu meira í öðrum stað; vèr skulum[14] gera lið til [Goðreksstaða, bús þíns[15], ok láta þar ræna öllu því sem til er, en leggja eld í húsin ok brenna bæinn. Eptir þetta kallaði þorsteinn til sín Bjálfa skinnstakk, ok sagði honum at úráðligt var at halda lengi borginni, ef þeir vildi umsitja[16]; lauk

1) skinstakr, *G.* 2) vel XXXX, *G*; betr en LXXX, *B.* 3) þ. *F*; bæjar, *A.* 4) *frá* [ Baglar, *G.* 5) á, (*ofaukit*), *A.* 6) leiðángra, *G.* 7) or, *B.* 8) hèldu, *F.* 9) *frá* [ þeir, *G.* 10) *b. G.* 11) gagnstöðuflokki, *B*; mótstöðuflokki, *F.* 12) *frá* [ ok konúngi sínum, at menn skyldu eigi vera mótstöðumenn þeirra; þeir gerðu ok jafnan harða skothríð borgarmönnum. Einn dag kallar Nikulás biskup á þorstein, í borgina, ok mælti, *G.* 13) þorsteinn í, *b G.* 14) munum, *G.* 15) Steigs ok Guðrekstaða, *B*; Steins ok Guðrekst., *F.* 16) *frá* [ búa þinna, ok ræna þar hvívetna, en brenna bæina. þorsteinn kallar Bjálfa til sín, ok sagði, at óráðligt mundi at halda borgina lengr, ef þeir sæti þráliga um, *G.*

1197 svå þeirra tali[1], at þeir urðu á þat sáttir, at upp skyldi gefa borgina; ekki vissu[2] aðrir borgarmenn[3] [þessa ráðagerð[4]. Laundyr voru á borginni; gekk Þorsteinn þar til, ok mátti hann þá tala við Bagla. Guðbrandr úngi gekk til móts við hann, ok gerðu þeir ráð sín á milli: bað Þorsteinn [Bagla fara fyrst ofan í bæinn, en koma upp um kveldit, þá er borgarmenn[5] varði minnst: man ek þá opnar láta þessar sömu dyrr[6]. Hèr ímót hèt Guðbrandr fyrir hönd Bagla öllum borgarmönnum lífsgriðum ok vâpna ok klæða. [Síðan fóru Baglar ofan í bæinn, ok um kveldit til borgar upp; Þorsteinn lèt þá opnar laundyrnar, gengu Baglar þar inn; þat var í þann tíma er borgarmenn sátu um[7] mat[8], funnu þeir eigi fyrr en [borgin var full af Böglum[9]; fengu borgarmenn lífsgrið, ok höfðu ígángsklæði sín, en fáir[10] vâpn, en ekki[11] fè; snerist [Ásgautr ok[12] Bjálfi út til hèraðs, en Þorsteinn[13] kúgaðr gerðist handgenginn Böglum, ok fór með þeim. Baglar tóku allt fè, þat er í var borginni, ok síðan brendu þeir hvert hús, þat er þàr var; þeir tóku einn mann dauð-

1) viðrtali, *G*; viðræðu, *B*. 2) voru, *F*. 3) *þ*. *G*; menn, *A*. 4) til þessa, *G*; í þessu ráði, *F*. 5) *þ*. *G*; borgar, *A*. 6) *frá* [ þá gánga inn um nóttina þær sömu dyr, *G*. 7) yfir, *B*, *F*. 8) *frá* [ um nóttina gengu Baglar í borgina um þær sömu dyr, sem Þorsteinn hafði þeim heitit at opnar skyldu vera, *G*. 9) Baglar höfðu fyllt borgina af mönnum, *G*. 10) einir, *b*, *G*. 11) aungir, *F*, *G*. 12) *b*. *G*, *F*. 13) *v*. *G*.

an, [er þar var[1] ok steyptu í brunninn, báru síðan [þar á ofan[2] grjót, þar til er fullr var. Þeir stefndu til bæjarmönnum[3] at brjóta alla steinveggina [til jarðar[4], áðr en þeir skildist við; þeir brendu öll lángskip konúngs, áðr þeir fóru[5] íbrot. Eptir þetta snerust þeir aptr til Upplanda, ok þóttust hafa [vel ráðit[6] til fjár [í þessi ferð[7].

*[Sverrir konúngr átti þing við bændr[8].*

138. Þat er at segja frá Sverri konúngi, at hann [fór or Oslúarfirði, ok vendi suðr[9] til Goðmars, ok [lagði inn í fjörðinn á[10] suðrlandit, þar sem heitir Fyrileif[11], stefndi þar þíng við bændr, ok bar konúngr þar sakir á hendr þeim, at þeir hefði verit [í samnaði móti[12] honum í Seimsfirði[13], ok hefði tekit konúng annan í höfuð honum. Helgi hèt maðr, er svaraði ræðu konúngs, ok mælti svâ: [eigi voru margir menn or[14] vârum hèruðum[15] í þeima flokki, ok þó með litlu ráði þeir er voru: [kennum vèr, herra, ekki vârt mark á þessu[16]; eru vèr ok svâ gamlir[17], at fyrr kunnum vèr við at sjá, en[18] vèr komim í úfæruna; svâ voru[19] oss ok lögin kunnig í Noregi ok ríkra manna

---

1) *b. G.* 2) í, *G.* 3) borgarmönnum, *G.* 4) *v. G.* 5) færi, *G.* 6) unnit vel, *G.* 7) *v. G.* 8) *þ. B*; Frá Sv. k., *A, G.* 9) sneri, *G.* 10) lagðist við, *G.* 11) Fyrirleif, *G*; Þyrileif, *F.* 12) móti, *G.* 13) *þ. hin*; Sæmsfirði, *A.* 14) fár menn í, *G, B.* 15) voru, *b. G, B.* 16) *v. G.* 17) ok runnir hjart upp, *b. G*; ok svâ bitar uppkomnir, *B, F.* 18) *þ. G*; er, *A.* 19) eru, *G.*

rèttr, at vèr vissum[1] vár lög, [hvar konúng átti[2] [at taka[3] [í Noregi[4]; en vèr ætlum engan (með fullu) rètt tekinn til lands, nema á Eyraþíngi í Noregi, í Þrándheimi. Nú megu þèr, herra, þat sjá [með yðru viti[5], at vèr munum[6] eigi svâ heimskir menn[7] vera, at fylla með álitaleysi þann flokk, er eigi var [við meira mætti[8] tilkominn, ok þó gagnstaðligr yðr, herra; [fór hann svâ orðum um, at konúngi hugnaði vel[9]. [Mörg örindi[10] voru þar töluð á þínginu, ok fóru öll líkliga til sættar[11].

[*Frá Sverri konúngi ok bændum*[12].

139. [Eptir þat fór konúngr íbrot, ok lagðist í Nautasundi; hann gerði menn sína at örindum fram yfir skóg nokkorn, (en) þar voru fyrir Baglar, ok veittu þeim árás, drápu af þeim XII menn. Eptir þat lagði konúngr til Svansháls[13]; þaðan sigldi hann[14] austr til Elfar, ok lá þar allr landsmúgr úti á skógum[15]. Konúngr gerði búöndum orð, at þeir skyldu koma til hans í[16] griðum, [ok vill hann gera sætt við þá, ok stefndi þeim[17] þíng; en er[18] þeir vissu sik sakafulla[19] við konúng, þá frest-

1) vitum, *G.* 2) hvar lög konúng á, *G*; hversu konúng á, *B*; hvat lögligr konúngr á at hafa, *F.* 3) at rèttu, *F.* 4) *v. G.* 5) *v. G.* 6) mundum, *G.* 7) *v. G.* 8) móti, *F*; *frá* [ rèttligar, *G.* 9) *b. G.* 10) *þ, F*; tíðindi, *A.* 11) *frá* [ *v. G.* 12) *þ. B*; Frá Böglum, *A*; *v. G.* 13) Svanhals, *B*; Svanhóls, *F.* 14) *frá byrjum kapitulans*: Konúngr fór þaðan allt, *G.* 15) skipum eðr, *b. B.* 16) *b. G.* 17) stefndi við þá, *G.* 18) *b. G.* 19) *þ. G*; sakkfulla, *A*; sakaða, *B*; sakbitna, *F.*

veita honum atsókn[1]. Konúngr [ talaði þá fyrir liðinu ok[2] mælti: enn væntir mik at fundr vârr Bagla verði; göngum nú upp í brekkuna, ok [veitum þeim þaðan áhlaup sem harðast[3], ok vænti ek at þeir vikni við. [Birkibeinar gerðu [at vanda, runnu[4] at djarfliga[5], [ok hljópu svâ fast uppá Bagla, at þegar fèllu margir af Böglum, þeir er fremstir voru[6]. Eindriði ljoxa[7] hèt marðr, hann bar höfðíngja[8] merki Bagla; hann var þrænzkr at ætt, [allra manna hraustastr ok djarfastr[9]; hann bar merkit vel fram, svâ at ímoti honum kom Bergsveinn lángi, merkismaðr Sverris konúngs; gengust þeir svâ nær, at þeir skiptust höggum við, ok [varð þat at lyktum[10], át Bergsveinn varð sárr, en Eindriði fèll, [þá fèll ok niðr merki Bagla; en er Baglar sá þat, þá flýðu þeir. Birkibeinar ráku þá, ok fylgðu þeim allt til skipa[11]; [mart fèll af Böglum í hvârritveggju þessi hríð[12], ok þó mest af leiðángrsmönnum. Sverrir konúngr fór þá til borgar sinnar með[13] búit, ok þakkaði guði sigr sinn; var nú ok vel ráðit til búðar-

---

1) þeir voru enn eigi afhorfnir, *G*; horfnir, *B*, *F*. 2) *v.* *G*. 3) hlaupum þaðan á þá, *G*. 4) gerðu svâ at þeir renna (*o. s. f.*), *F*. 5) *frá fyrra* [ mun enn sem fyrr, at þeir munu vikna fyrir oss Birkibeinum; gerum enn at vanda, rennum á djarfliga, *G*. 6) *v.* *G*. 7) Ljaxa, *B*; Laxa, *G*; Baxa, *F*. 8) *v.* *G*. 9) mikill ok sterkr, *G*. 10) lauk svâ, *G*. 11) *þ.* *B*; skips, *A*; *frá* [ Baglar flýðu þá, en Birkibeinar fylgðu, *G*. 12) þá í þeirri svipan fèll mart af Böglum, *G*. 13) svâ, *b.* *F*.

varðar[1]; skorti nú eigi vist[2], enda[3] var drengiliga eptir sótt.

*Frá brögðum Birkibeina*[4].

149. Baglar firðust heldr[5] borgina ok bæinn; þótti eigi svâ laust fyrir liggja, sem þeir ætluðu[6]. Opt var þat er Baglar gengu á land L manna eða [LX, at skemta sèr[7], ok sæi þeir Birkibeina X eða XV[8], ok væri konúngr sjálfr í liðinu[9], þá flýðu þeir [á skipin[10]; þat var ok stundum at Birkibeinar komu at þeim óvörum, ok fengu Baglar þá íllt slag[11], fóru þá hrapalliga til skipa sinna með engarri[12] virðíngu [nè frama[13]. Jónsvökudags nótt[14] fór Sverrir konúngr með C manna ofan í bæinn; þeir tóku kórkápur or kirkjum ok fóru í, gengu saman [V eða VI, eða enn færri[15], ok heimtust svâ allir[16] saman yfir til múnklífis. Síðan fóru þeir í hlöðu nokkura, ok heldr leyniliga, þvíat konúngr vænti[17], at Nikolás biskup ok aðrir höfðíngjar [Bagla myndu sækja[18] til messu um daginn. Nokkurir menn tóku múnka kápur[19], þeir er á njósn voru, ok höfðust þeir við úti í kirkjugarðinum[20], [gengu saman, II ok II, ok sá til ef Baglar gengi á land; en Baglar

---

1) búðar, *F.* 2) vistir, *B.* 3) ok, *G.* 4) *þ. G.* 5) nú, *G*; mjök, *F.* 6) hugðu, *G.* 7) fleiri, *G.* 8) XII, *B*; XX, *G.* 9) ferðinni, *F.* 10) til skipanna, *G.* 11) af, *G.* 12) lítilli, *G.* 13) eðr orðstír af mönnum, *G.* 14) Jónsvökunótt, *G.* 15) III eðr enn fleiri, *B.* 16) *v. G.* 17) vætti, *G.* 18) m. gánga á land, *G.* 19) múnkakufla, *B.* 20) kirkjugörðunum, *G*; verðinum, *B.*

voru á skipum, nema sveinar þeirra[1] fóru til lands á bátum, ok gengu upp at taka sèr eldivið[2]. Birkibeinar tóku hvern er upp kom, ok drápu suma, en suma hömluðu þeir, [svâ at enga njósn máttu-bera til skipanna[3]. Prestr nokkurr gekk ok á land; Birkibeinar spenntu hann; þeir spurðu ef biskup myndi nokkut upp til messu. Prestrinn sagði, [at biskup ætlaði at landi[4], þá er hann væri búinn. [En er áleið stundina[5], gekk upp maðr vel búinn, [ok fór skamt í frá þeim[6]; þeir reðust í móti honum, [ok er hann sá þá, þótti honum[7] undarligt, er múnkar höfðu lága skúa ok rauðar hosur, [ok þveraðist við, [ok gekk ekki nær þeim[8]. Múnkar spurðu, hversu brátt biskup myndi koma[9] til messu. Beglíngrinn svaraði: hann gengr, þá er hann er búinn; eða fyrir[10] hví hafa múnkar lága[11] skúa [ok rauðar hosur? þeir svöruðu: ýmist tíðist nú[12]. þeir hljópu at honum ok [fengu hann höndum[13]; hann brást[14] við sem harðast, ok skaut fótum undir sik, ok hljóp til skipanna, sem hann væri ærr [ok óðr[15]; segir hann biskupi þá sögu, at hann var af tíðaförinni; hafði þessi maðr þat til jartegna [at hann

1) *frá* [ sveinar Bagla, *G.* 2) eldibrand, *F.* 3) *v. G.* 4) hann fara, *G.* 5) litlu síðarr; *G.* 6) *v. G.* 7) þessum manni þótti, *G.* 8) *v. G.* 9) gánga, *G.* 10) *v. G.* 11) spèz (spès?) *G*; spetz, *F.* 12) *frá þriðja* [ en er þeir undirstóðu hans íhugan, *B.* 13) grípa hann, *G*; fá höndum, *F.* 14) ok fletta hann af kyrtli góðum ok vildu eigi spilla honum í blóði, en er ermarnar skruppu af höndunum fram, *b. G*; (varð hann lauss, *b. B*;) *G, B.* 16) *v. G.*

laug[1] eigi[2], at hann hafði broddskot í læri, ok sagði, at honum þótti þetta líkara sendíng Birkibeina en múnkanna. Biskup [ok Hreiðarr ok mart annat ríkismanna voru þá búnir á land at fara, en sumir voru komnir á báta, áðr en þessi njósn kom[3]. Sverrir konúngr sneri aptr til borgar, þegar er hann vissi[4] at Böglum var njósn komin; voru Baglar nú varari um sik hèðan ífrá. Margar [atlögur [ok skot[5] ok uppgöngur voru þær, er [frásögn myndi í þikkja[6]; en þat fær[7] eigi allt[8] [ritat á einni bók[9]; [tóku hvârir menn af[10] öðrum, ok drápu æ sem við komust[11]. Fjölði [var þat Birkibeina, er í hèruðum höfðu verit, ok hljópu til Bagla[12]; sumir at vilja sínum, en margir voru teknir nauðgir ífbrot[13]. þetta kölluðu þeir Björgynjarsumar.

[*Baglar brendu bæinn*[14] *í Björgyn*[15].

150. Lafranzvöku nótt varð þat ráð at framkvæmð, er áðr [hafði hótat[16] verit af höfðíngjum Bagla[17]. þeir [kölluðu Björgynjarmenn vera stoð ok styrk um þat[18], at Sverrir kon-

1) ló, B. 2) v. G. 3) var þá áðr búinn til landgaungu ok margir aðrir, G. 4) fann, G, F. 5) tilræði, B; *frá* [ v. F. 6) frásagnar voru verðar, F. 7) verðr, F; *frá þriðja* [ árásir höfðu þar hvârir à öðrum, en þó fær þat, G. 8) v. F. 9) ritað í eina bók, F; á eina bók sett, B. 10) fyrir, F. 11) *frá* [ v. B. 12) manna hljóp til Bagla úr hèruðum, þeirra sem áðr höfðu verit með Birkibeinum, G. 13) v. G. 14) b. B; kaupstaðinn, G. 15) þ. G. 16) þ. P; heitazt, A, F; heitat, B. 17) *frá* [ höfðu Baglar heitazt, G. 18) kendu þar Björgynjar mönnum um, F.

úngr mætti haldast i borginni; var þat ráð kennt at upphafi Nikolási biskupi, ok kom þat ásamt með þeim, at eyða skyldi kaupstaðinn í Björgyn, ok setja nokkurannarstaðar á Hörðalandi, ok sjá þá fyrir, hvat[1] Sverri konúngi[2] kæmi borgin. Biskup [sagði svâ, at Birkibeinar hefði saurgat kirkjur allar, ok bannsettir menn verit inni[3], svâ at eigi væri þær helgari en porthús[4] önnur. Baglar rèru um nóttina inn fyrir bryggjur[5] með II skútur hlaðnar af viði; þeir lögðu eld í hús í einum stað inn við Krosskirkju[6]; en í öðrum stað gegnt Föskabryggjum[7], [við garð Finns forræðis[8]; (í) III stað við Maríukirkju[9]: [engi varð vörn af bæjarmönnum[10], [varð þeim úhægt við at komast[11], því at allar bryggjur voru uppteknar. Birkibeinar urðu eigi varir við, fyrr en bærinn tők at loga, ok sá þeir at þá mátti ekki at gera at hjálpa bænum; hræddust þeir um borgina at hún myndi brenna; báru þá út segl ok vættu ímót eldinum. Bærinn brann allt[12] inn[13] frá Krosskirkju ok [til Sandbrúar[14], allt fyrir neðan stræti[15]; en fyrir ofan stræti[16] [ok út allt frá[17] Sandbrú, ok inn[18] til Nikoláskirkju.

1) hvaðan, *F.* 2) *v. G.* 3) kallaði Birkibeina hafa saurgat kirkjur, *G.* 4) portus, *G*; forhús, *B.* 5) bæinn, *B.* 6) kross kross, *F.* 7) Fiskabryggjum, *G*; Fiskabryggju, *F*; Fauskabryggjum, *B.* 8) forræðismanns, *B*, *F*; *frá* [ *v. G.* 9) Maríubryggju, *G.* 10) *b. G.* 11) *b. F.* 12) allr, *F.* 13) innan, *G.* 14) *skrifast* Sannbrúar *í A*; ok Sandbrúar ok út, *F*; til S. út, *G.* 15) utan, *F*, *b.* 16) *v. G*; allt utan frá Krosskirkju, *b. B.* 17) *frá* [ *v. G*; utan frá, *F*, 18) *v. F.*

þá var róðan helga borin í móti eldinum frá Steinkirkju, ok staðnaði þá eldrinn. Sunnefu skrín var borit utan til Sandbrúar, ok sett þar; gekk eldrinn eigi þar lengra, ok var þat allbjört[1] jartegn[2]. Baglar lágu með skúturnar á vâginum út, ok skutu upp í eldinn at þeim mönnum, ef nokkurir vildi bjarga húsunum, ok slökva eldinn. Björgynjarmenn margir höfðu [áðr braut flutt[3] [allt fè sitt, þat er þeir máttu við komast[4], þá er þeir heyrðu[5] [at Baglar ætluðust þetta ráð[6] fyrir; [fluttust sumir í hèruð, en sumir upp til borgar[7]. Nikolás biskup var á skútu þeirri, er með eldinn fór til bæjarins, ok sagði æ[8] (fyrir), hvar eldinn skyldi upp bera ok í skjóta; [ok var hann allmjök úþokkaðr af þessu ráði. þetta var margra manna mein ok skaði, svâ at sá margr, er áðr var fullsæll, gekk snauðr íbrot[9]; minntust Björgynjarmenn þessa opt[10] við Nikolás biskup. þar brann Maríukirkja ok V aðrar.

### *Frá viðskiptum Birkibeina og Bagla*[11].

151. Litlu síðarr fór Sverrir konúngr or bænum með C manna, þannig sem hann vissi at hans menn höfðu samnat honum[12] stórflokkum nauta. Ok er Baglar [vissu þat,

---

1) fögur, *F*; ágæt, *B*. 2) jartein, *G*; jarteign, *F*. 3) brott flúit áðr með, *B*, *F*. 4) fè sín öll í ymsa staði, *G*. 5) vissu, *F*. 6) áðr Bagla berast þetta úráð, *G*. 7) sem nú kom fram, *G*. 8) *v.* *G*. 9) varð hann af þessu verki a. ú., ok var þess vân; gekk sá margr snauðr á braut, er áðr var fúllríkr, *G*. 10) jafnan, *G*. 11) *þ*. *P*. 12) saman, *G*.

at[1] konúngr var íbrotu, þá gengu þeir á land með liði sínu [ok upp hit efra[2]; komu ofan at Ólafskirkju á Bökkum. Birkibeinar hljópu or borginni ímóti þeim með sínu liði, nema XXX manna voru út [í Hólmi[3], at [gæta, at[4] engi legði skip þar at; þá fylkðu Baglar liði sínu. Birkibeinar [hugðu enn sem fyrr at fylkja ekki, alls þeir höfðu frítt lið, ok ætluðu (at) hlaupa þegar at þeim, ok rjúfa svâ fylking þeirra[5]. Birkibeinar hljópu svâ[6] á annan fylkíngararminn í fyrstu, at Baglar viku undan; en annarr fylkíngararmr þeirra veik eptir[7], ok urðu Birkibeinar í hrínginum; var nú mikill liðsmunrinn, [ok áttust þeir skamma stund við, áðr en[8] Birkibeinar sá eigi föng [eða efni til viðrtökunnar[9], ok leita þá undan til borgar; Baglar sóttu hart eptir. Þar fèllu margir góðir drengir [ok vaskir[10], Sigurðr borgarklettr, Finnr færeyski, Þórðr loki[11] ok Bita-Kári[12], Einarr[13] Bjarnason[14], Bengeirr lángi, Eindriði peini[15], [bróðir Eysteins ræðismanns, son Hallkels[16] af Lói, merkismaðr Philippus jarls; hann rèð fyrir liði jarlsins, ok var svâ mikill hreystimaðr, (at) þá er hann var [mjök sárr stórum sárum, ok[17]

1) spurðu, *G*; frágu, *F*. 2) *v. G*. 3) *b. G*. 4) *v. G*. 5) runnu á riðlum, sem þeir voru vanir, *G*. 6) fast, *b. G*. 7) þeim, *b. F*. 8) *v. G*. 9) sín til varnar lengr at sinni, *G*. 10) *v. G*. 11) lokkr, *B, F*. 12) Rita-Kári, *G, F*. 13) *þ. hin*; Eindriði, *A*. 14) Bjarnarson, *F*. 15) *þ. G*; penni, *B, F*; *v. A*. 16) *frá* [ Hallkell, *G*. 17) svâ sárr orðinn at, *G*.

hann vænti sèr engarrar brotkomu, þá stakk hann niðr merkinu í jörðina, en spenti sverðit báðum höndum, ok hjó þá á tvær hendr, ok fèll þar með [góðan orðstír; allir vörðust þeir vel. Baglar sóttu eptir þeim[1] allt undir borgina; ok [er Birkibeinar komu í borgina, [þá varð sá atburðr[2], at Baglar fengu einn manninn at fótunum, er hann[3] vildi í borgina, en Birkibeinar [vildu hlífa honum, ok þrifu í axlirnar[4], toguðust um, [ok [þann mann[5] tvískiptu þeir í sundr milli sín, ok skilðust við þat[6]; þetta var Maríumessu aptan. Baglar höfðu ok atlagt skúturnar í hólminum, ok [fèllu Birkibeinar, þeir er þar skyldu verit hafa til varnar[7]. Baglar gengu undir borgina, þar er skipin voru, ok lögðu í eld, [ok brendu upp öll[8]. Eptir þetta fóru þeir aptr til skipa sinna, [ok þóttust nú[9] [allvel hafa tilráðit[10]. Þá [ortu Baglar[11] vísu þessa:

Mánadag kvaddi mildíngr sína,
menn drifu hart til vâpna sennu,
Ínga hirð enn[12] upp rèð gánga
ár morgin til Sverris borgar;
ítar reistu merki at[13] móti

1) hreysti mikilli; Baglar fylgðu þeim, *G.* 2) nam svâ nær með þeim, *B*, 3) *frá fyrra* [ einn mann fengu Baglar at fótum, *G.* 4) tóku í hendrnar, ok vildu hjálpa honum, *G.* 5) þeim manni, *F*; honum, *B.* 6) *frá fyrra* [ þenna mann tvískiptu Baglar í sundr í miðju, *G.* 7) felldu þá Birkibeina alla er þar voru, *G.* 8) *v. G.* 9) *b. G.* 10) *v. A*; hafa vel árnat, *G*; leikit, *F.* 11) kváðu þeir, *G.* 12) er, *F.* 13) á, *G, F.*

margar stengr ok börðust lengi;
[Baglar stóðu í brodda hagli,
brunnu skip þá er kappar runnu.

En Birkibeinar kváðu þessa vísu:

Mánadag kvaddi níðíngr[1] sína,
menn drifu hart til vâpna sennu,
þúfuskítr þrífist eigi,
þann morgin til Sverris borgar;
ítar reistu merki at móti
margar stengr ok börðust lengi[2]
Baglar standa í banni allir
brunnu skip þá er kappar runnu.

En er konúngr kom aptr [í bæinn[3], þótti honum þetta orðit [íllt[4] slag, ok [kallaði þetta vangæzlu ok[5] forsjáleysi[6].

*Dráp herra Karls*[7].

152. Litlu síðarr fór Sverrir konúngr [brot or Björgyn[8], en setti lið [til gæzlu[9] í borginni; fór konúngr þaðan upp á Vors, [ok svâ til Rauðafjalls[10]; ok þá[11] annat sinni gekk konúngr yfir[12] Rauðafjall, ok enn með miklu erfiði; komu ofan í Sogn, [ok dvölðust í Aurlandsfirði[13], þvíat liðit var sárt, fóru síðan alla leið norðr til Þrándheims; var þar vel tekit

1) mildíngr, *B*; (*fyrri útgjafarar Sverrissögu hafa giskað á at hèr egi at standa* miðjúngr. 2) *frá* [ *v. G.* 3) *b. B.* 4) þúngt, *G.* 5) *frá fyrra* [ allmikit, *G.* 6) *frá síðara* [ ok kvað vorðit hafa af vangeymslu, *B.* 7) Konúngr fór norðr um Rauðafjall, *G*; Frá ferðum Sverris konúngs til Þrándheims, *P.* 8) uppá Vavrs, *G.* 9) mikit, *G*; eptir, *b. F.* 10) *v. G.* 11) *b. G.* 12) um, *G.* 13) Arlandsfirði, *F.*

við konúngi. Sverrir konúngr spurði[1] þar þau tíðindi, er litlu áðr höfðu gerzt, at Baglar höfðu þar komit til bæjarins með III skútum[; var fyrir því liði [Kinnaðr Eldríðarson[2], þorsteinn kúgaðr, Eiríkr[3] þrænzki. þar í bænum hafði áðr verit Karl, [son Sörkvis konúngs[4], er þá átti Íngibjörgu, dóttur Sverris konúngs. Herra Karl hafði fengit nokkurn [spraka af Böglum[5], ok farit brot or bænum [um kveldit[6], ok upp um brú, ok var hann á þeim bæ er at Borg[7] heitir. Baglar komu um nóttina í bæinn; [var herra Karl þá íbrot, en þeim var sagt hvar hann[8] myndi vera[9], komu þar um nóttina, [ok var herra Karl drepinn, ok öll[10] sveit hans; síðan fóru þeir íbrot or bænum[11]. Eptir þat höfðu þeir þíng út á Eyrum; talaði þorsteinn kúgaðr, [ok mælti svâ: þat skulu þèr vita, bæjarmenn, at Sverrir konúngr man yðr nú verða seinn til landvarna hèr í þrándheimi[12]; sagði [síðan[13] [frá viðskiptum Bagla ok Sverris konúngs, hvernig orðit höfðu um sumarit, sagði flest frá þeim atburðum sem síðarst [voru í þeim stórtíðindum[14], at konúngr hafði látit lið sitt undir borginni; lauk með því (talinu), at hann kvað konúng gengit hafa or borg-

1) *frá* [ ok svâ í kaupáng; spurði hann þar, *G.* 2) *b. G.* 3) *þ. hin*; Einriði, *A.* 4) Sörkvisson, *G.* 5) pata um ferð Bagla, *B.* 6) *b. G.* 7) Berg *eðr* Borg, *G*; á Bergi, *F.* 8) *B*; herra Karl, *A.* 9) *frá* [ ok fengu þar njósn af ferðum herra Karls, *G.* 10) flestöll, *B F.* 11) drepa Karl ok alla hans menn, *G.* 12) *frá* [ *b. G.* 13) *þ. B*; ok sagði, *A.* 14) *frá* [ urðu, *hin.*

inni, ok þángat vân til bæjarins hít efra um land, þvíat hann kvað eigi konúnginn[1] eiga svâ mikit í skipum at hann ætti einn bát; [hafa Baglar[2] skipin, ok mart annat, þat er [konúngr hafði áðr haft fyrir at ráða. Svâ lètu Birkibeinar ok, sem ekki myndi [við þeim hafa[3], ok eigi mætti einn þeirra minna en VI[4] Baglar[5]: þat skulu þèr ok vita, at svâ hefir umskipt í sumar, at litlu höfum vèr nú færri Birkibeina fengit, en þeir hafa sjálfir eptir, [ok munu þeir nú eigi veita yðr hjálp, (er) nú eru sumir með oss staddir, ok eigi verr[6] komnir en með Birkibeinum[7]; [þvíat nú þikkjast þeir sjá kunna[8], með [hversu miklu[9] falsi Sverrir prestr hefir [lengi farit[10].

### *Frá þorsteini kúgaði*[11].

153. Baglar [höfðu á braut flýit[12] ok út[13] or firðinum, áðr en konúngr kæmi. Sverrir konúngr spurði vandliga allar þessar ræður; [líkaði honum illa[14] um fall herra Karls mágs síns[15]. Baglar fóru sunnan með allan her sinn, [ok höfðu stór skip: í þeirri ferð komu

1) *frá fyrra* [ hann eigi, *G.* 2) höfum vèr, *G.* 3) fyri þeim standa, *B*; þeim móti standa, *F.* 4) III, *B.* 5) *frá fyrra* [ Birkibeinar hafa um hríð með farit; þeir hafa nú ok svà látit um hríð, at eigi væri ógildari einn Birkibeinn en VI Baglar, *G.* 6) at landsvist, *b. F.* 7) *frá* [ eru þeir nú aungum mun verr staddir, *G.* 8) *v. G*; *frá* [ fyri því at nú eru þèr sannfróðir at orðnir, *F.* 9) hverju, *G.* 10) farit um hríð, *G.* 11) *þ. P.* 12) flwith (ɔ: *flúit*), *F.* 13) *frá* [ voru á braut or, *G.* 14) þótti honum stórilla, *B, F.* 15) *frá* [ honum þótti mikill skaði at um Karl mág sinn, *G.*

þeir við Fólsn, ok lágu þar[1] [um hríð[2], [þvíat þeir vildu eigi fara inn í fjörðinn, er þeir spurðu at Sverrir konúngr var þar fyrir[3]. Böglum varð fángafátt[4], þvíat þeir höfðu lið mikit; dreifðu þeir þá flokkinum í bygðir, fór sumt liðit suðr á Mæri, [ok allt til Borgundar[5]; en er þeir sigldu fyrir Hefnarmynni[6], þá sigldi Þorsteinn kúgaðr skipi sínu á sker[7] fyrir annkost[8], ok vildi brjóta, sem var; fluttist hann þar[9] inn til lands, [ok urðu hans skiparar eigi fyrr varir við, en hann hljóp[10] íbrot frá þeim um nótt með III mann[11] ok yfir fjallit, ok kom fram út[12] í Orkadal. Margir menn aðrir hljópu frá Böglum, þeir er í Þrándheimi áttu heima, ok [þeim höfðu fylgt um sumarit[13]. Þorsteinn (kúgaðr) var heima at búi sínu, ok á laun; hann gerði mann inn til bæjar til Gunnars grjónbaks, ok bað at hann skyldi [leita honum griða[14] við konúng. Gunnarr talaði eitt sinni við konúng ok mælti: herra, sagði hann, allsnjallan[15] mann höfum vèr þar látit, er Þorsteinn kúgaðr er með Böglum, ok gjarna vildim vèr enn lokka hann til vâr. Konúngr sagði: ekki ætla ek Þorstein þess minna [nú,

1) þeir lágu við Fólksn, *G*; Fólkn, *B. F.* 2) *b. G.* 3) *v. G.* 4) íllt til matkaupa, *G;* matfánga, *B*, *F.* 5) *v. G.* 6) Hernarmynni, *G*; Hafnarmynni, *F*; Hamarmynni, *B.* 7) steinsker eitt, *G* 8) andkost, *B*; avndkost, *G;* aunkost, *F.* 9) *v. G.* 10) ljópst, *A, F.* 11) *frá* [ hljóp hann á brott frá Böglum, við III mann, um nótt, *G.* 12) *v. G.* 13) eigi vildu vera með þeim, *G.* 14) friða fyrir honum, *B.* 15) snjallan, *F.*

at hann hafi verit vårr maðr ok vin[1]; ok ætla ek oss þat vera [lítinn skaða[2]. þá mælti Gunnarr: herra, sagði hann, veit ek at þorsteinn man grið hafa af yðr, ef vèr [fám lokkat hann frá Böglum[3]. þá mælti konúngr, ok hló við: hvat er nú, Gunnarr, er þorsteinn nú á þínum varnaði; grið man hann hafa af mèr, en ek veit eigi ef Birkibeinar mæta honum á strætum úti; hvern veg þá ferr hans mál. [Litlu síðarr gerði Gunnarr þorsteini orð, at hann skyldi koma til bæjar. Eptir þat fór þorsteinn þángat, ok[4] mjök á launúngu. Eptir um daginn gengu þeir Gunnarr ok þorsteinn til konúngs, var konúngr þá á stefnu nokkurri. þorsteinn hafði djúpan hött[5] á höfði, ok kendu menn hann ekki, fyrr en hann kom fyrir konúng; [hann kastaði af sèr yfirhöfninni, ok fèll á gólfit sem hann væri högginn[6], greip[7] um [fótinn konúngi[8], kysti á, ok mælti: sæll em ek[9], herra minn, at ek em svâ nær þèr[10] kominn, at ek má taka á þèr[11], ok þess[12], at ek em brot kominn or höndum þeim djöfulsmönum Böglum, er bannsettir eru, ok [þess eru þeir sannliga verðir[13]; þeir eru[14] ránsmenn

1) at hann hafi oss þjónat, *G.* 2) lítill skaði, *G.* 3) nám honum, *G.* 4) Gunnar lætr nú segja þorsteini, hvar komit var hans máli. þorsteinn kom til bæarins ok þó, *G.* 5) hatt, *hin.* 6) *frá* [ hann fèll fram fyri konúnginn ok, *G.* 7) þreif, *B*; spenti, *F.* 8) fót honum, *G.* 9) þess, *b. B.* 10) yðr, *G.* 11) yðr, *G.* 12) annars, *b. G.* 13) þó at verðugu, *B*; því at, *G.* 14) bæði, *b. G.*

menn ok illgerðamenn[1], [en engir höfðíngjar [vilja hatast[3] við þann manninn er beztr er, þar[4] sem þèr erut, herra; [þvíat þú ert[5] kórónaðr konúngr, [ok allir eigu[6] til at lúta, ef rètt gerði. Herra minn, tak við mèr nú, ok lát mik aldri við þik[7] skiljast; ek veit eigi, hví sá [hinn vândi[8] villubiskup [gerði mik svâ æran ok blindan[9], at ek skyldi eigi þat sjá, með hverju falsi þeir [fara, níðíngarnir, eiðsvarar yðrir[10]; hví myndu þeir vându falsarar[11] mèr góðir[12], er níddust á konúngi sínum. [Tilstúngu Birkibeinar orðum tölunnar hans, ok engum hagligum; sögðu at engi var meiri níðíngr[13] en hann; sumir [báðu færa hann[14] út á Eyrar, ok hengja upp. Þá mælti konúngr: statt upp, Þorsteinn; grið skaltu hafa; [þú skalt segja mèr[15] frá siðum þeirra Bagla. Þá mælti Þorsteinn: sæll em ek þess, er ek sá [augun þín[16], ok aldri skal ek síðan[17] skjoplast í [yðarri þjónustu[18]; en frá Böglum [kann ek mart at segja, þá[19] er þèr vilit, ok flest úfagrt[20]; voru þá Þorsteini grið gefin.

---

1) *þ. F, G*; illgerða, *A*. 2) *v. G*. 3) hatast þeir ok, *G*. 4) *v. G*. 5) *v. G*. 6) er allir ætti, *G, F*. 7) yðr, *G*. 8) *v. G, F*. 9) hefir mik svâ blindat, *G*. 10) fóru, *G*. 11) *v. G, F*. 12) *frá* [ menn mega góðir kallast, *B*. 13) Birkibeinar kölluðu aungan meiri níðíng, *G*. 14) vildu at hann færi, *G*. 15) ok seg oss, *G*; mantu segja mèr mart, *F*. 16) yðr nú mínum augum, *G, B*. 17) *v. G*. 18) í einurð við yðr, *G*. 19) *þ. B*; þat, *A*. 20) *frá* [ má mart úfagrt segja, ok þó yfrit satt, *G*.

Lèt konúngr Þorstein opt tala á þíngum [ok hirðstefnum[1], ok segja frá[2] siðum Bagla[3].

### *Frá Böglum [ok ráðagerðum Sverris konúngs[4].*

154. Bäglar tóku allar útvinnur ok leiðángra um Mæri hvâratveggju ok Raumsdal, en rænțu í Stöðum, ok dvölðust í [þessi ferð[5] hálfan mánað[6]; þá rákust þeir allt norðr á Hálogaland; fóru þar í hvern[7] fjörð, ok [með margri[8] óspekt, [ok fengu[9] þar úgrynni fjár, ok höfðu í flokk með sèr alla hina beztu menn, þá er þar[10] voru, Þóri knapp[11], Guthorm í[12] Mjólu, Brynjólf, bróður hans, Bjarna Marðarson, Halldór í Hjörleifsvík[13] ok sonu hans, Ívar nef, Gregoríus kík[14], Erlíng í Þjóttu, Guzalín[15] prest, ok fjölða annarra manna. Þat [sama haust var fall Ríkarðar Englakonúngs[16]; þá tók konúngdóm á Englandi Jón bróðir hans, er kallaðr var sine terra[17]. Sverrir konúngr sat í kaupángi; þat var enn eitthvert sinn, er konúngr hafði þíng við bændr [um vetrinn[18] eptir jól, ok beiddi þá þess, at[19] þeir myndi skip

1) *v. G, F.* 2) háttum ok, *b. G.* 3) ok svà talaði hann jafnan á þíngum, *b. G*; önnur erendi, *b. B*; með sama hætti ok fyrr, *F.* 4) *b. P.* 5) útferðinni, *F.* 6) *frá fyrra* [ *v. G.* 7) stað ok, *b. F.* 8) gerðu marga, *G.* 9) ræntu, *G.* 10) til, *G.* 11) Gnapp, *F* 12) or, *F*; *v. G.* 13) *þ. B*; Hörleifsvík, *G*; Hjörláksvík, *A*; Hjörleiksvík, *F.* 14) pík, *F.* 15) Guðalín, *F.* 16) haust fèll Ríkarðr Englakonúngr, *G*; fèkk R. E. k. sótt, *F.* 17) *þannig B*; sina terra, *A, G*; sinus terra, *F.* 18) *v. G.* 19) *þ. G*; ef, *A.*

nokkur gera honum [til fulltíngs, at[1] frelsa[2] landit[3] af hernaði Bagla; [þess er[4] vís vân, sagði hann, þegar [er vârar[5], at Baglar munu stefna híngat í fjörðinn, ok munu þeir gera yðr [mikinn úfagnað[6], [þvíat þessi flokkr rænir yðr jafnan[7]; en vèr Birkibeinar erum nú skiplausir, sem þèr vituð[8], ok ekki vel viðlátnir[9] at verja fè yðart eða[10] fjör; megum vèr ekki svâ skjótt renna um landit hit efra, sem þeir róa[11] hit ytra; en nú þóat yðr þikki þetta vera nokkurr kostnaðr, þá man [hitt meira fèlátit[12], er Baglar[13] gera yðr. Bændr [sögðu, at sú ráðagerð er líklig, herra, at láta skip gera til landvarnar; eða hvert efni skal hèr til vera um fjölða skipa eða stórleik[14]? Konúngr [sagði svâ: ek ætla helzt, at í hverju fylki í Þrændalögum munu bændr gegna kostnaði til búnaðar á[15] eitt skip[16], en bæjarmenn ok vèr Birkibeinar [skulum þá láta gera slíkt at umfram, sem vèr fám viðkomizt[17]; engi skulu þessi skip smærri en hálfþrítug, ok þaðan af

1) ok mættae (*mætti*) hann, *G.* 2) frjálsa, *F* 3) nakqvað land sitt, *G.* 4) þvíat mèr er þess, *F.* 5) varast, *G.* 6) illar refjur, *G, F;* allar únáðir, *B.* 7) fyri því at flokkr yðar stendr jafnan á móti þeim, *B*; *v. G.* 8) *frá* [ *v. G.* 9) viðbúnir, *B.* 10) ok, *G.* 11) sigla, *G.* 12) þat þó meira íllt, *G.* 13) munu, *b. B.* 14) svöruðu hèr vel um, ok spurðu konúng, hversu mörg skip eða stór hann vildi at yrði, *G.* 15) um, *B.* 16) *frá* [ svarar: þat vildi ek at bændr í Þrændalögum í h. f. gegndi búnaði til eins skips, *G.* 17) gerum at hèr um fram slíkt er vèr megum, *G.*

stærri; leiddist mèr fyrir Þórsbjörgum, er brandarnir á skipum Bagla stóðu í augum mèr; mætti svâ verða, at vèr ættim nú þvílíkan borðamun við þá. Um morgininn eptir[1] höfðu bændr stefnu sína[2] í Ólafskirkju, ok [töldu upp[3] kostnað sinn, ok leizt þeim svâ á, [sem ekki mikit myndi koma til manns; rèðu þat af, at gánga undir[4] með blíðu, [ok sögðu svâ, at ekki skal atþrotna[5] í kostnaði af þeirra hendi, þat er konúngr sæi fyrir[6]. Konúngr lèt þá [ráða til skipagerðar[7]; eptir páska voru reist VIII[8] [skip, VI[9] út á Eyrum, ok öll stór, [en II[10], í konúngsgarði [ok biskupsgarði[11], ok var þat XXX rúmum[12] [er í konúngsgarði var gert; var þat kallat Ógnarbrandrinn[13]. Öll voru þessi skip[14] borðmikil[15], at því sem þau voru róin[16] til. Sverrir konúngr lèt ok taka byrðínga nokkura, ok höggva í sundr, ok auka at kili, [ok róa[17] at endilöngum[18] borðum; búin voru þá öll[19] skip, er [herfær-[þóttu vera[20] í bænum[21], ok heldr[22] af skyndíngu.

1) *v. G.* 2) sín í milli, *G.* 3) töluðu um, *B*, *F*; hugsuðu um, *G.* 4) at ekki mikit mundi koma á hvers lut; taka þat ráð at já konúngi, *G.* 5) at skorta, *B. F.* 6) *frá* [ at láta gera skipin, *G.* 7) til ráða, *G.* 8) *v. G.* 9) VI skip, *G.* 10) *b. B*; eitt, *F*; þá var ok reist skip, *G.* 11) *v. G*; tvö í b. g., *F.* 12) rúma, *F*; at rúmatali, *B.* 13) *frá* [ þat skip kölluðu þeir Ó. b. inn, *G.* 14) vel vöndut ok, *b. B.* 15) mikil, *G.* 16) rúmum, *F.* 17) at róa mætti, *F.* 18) endilaungum, *G.* 19) þessi (*ofaukit*) *A.* 20) *þ. G*; voru, *A.* 21) *frá fyrra* [ í bænum voru gör, *B.* 22) mjök, *G.*

### *Frá Böglum*[1].

155. Um vârit eptir[2] bjöggust Baglar norðan af Hálogalandi með[3] öllu liði sínu, ok sóttu suðr til þrándheimsmynnis, viku síðan inní fjörðinn; en þat var á Hvítadögum. þeir sigldu [inn til Hólms[4], ok leizt þar ekki auðsóttligt; fóru síðan inní þrándheim ok herjoðu, fóru allan fjörðinn innan, ok fengu sèr fjár. Bændr lágu fyrir í samnaði, ok [skutu á Bagla, hendu af þeim slíkt allt er þeir [komust við[5]. Nikolás biskup talaði optliga[6] fyrir liðinu, ok sagði svâ: Sverrir prestr hefir nú eigi meira af Noregi en eitt nes, ok væri þá hófliga[7] mikit, ef hann rèði því af Eyrunum er fyrir utan er krakana, ok væri hann þar hengðr á gálga[8]. En alllítt ætla ek at vèr Baglar hirðim um, hvar hann ferr með hafhrúta[9] sína, er hann lætr samanreka þar í bænum; væntir mik at þrændir hafi fyrr kol allra sinna húsa, en þeim komi þat at gagni; munum vèr sveima um fjörðinn sem oss sýnist fyrir[10] þessum sökum, ok hræðast alllítt, þvíat engan hafa þeir liðskost við oss. Baglar [vendu nú innan[11] með herinn or firðinum; þeir lögðu at [fyrir innan[12] Hlaðhamra[13] við Depil. þeir gerðu þat ráð fyrir sèr, at þat lið, er á stórskipunum var,

---

1) ok þrændum, *b. G.* 2) *v. G.* 3) *b. G.* 4) undir Hólm, *G.* 5) gátu, *B*; *frá fyrra* [ hendu af Böglum slíkt e þeir fengu, *G.* 6) jafnan, *G* 7) hæfiliga, *B.* 8) gálganum, *G.* 9) hálfrúta, *G.* 10) *þ. B*; af, *A.* 11) snerust nú undnan (*undan*), *G.* 12) við, *G.* 13) *þ. B, G, F*; Laðhamra, *A.*

1177 skal gánga upp, ok hit efra til brúar, ok [láta þar verða leitat[1] til[2] bæjarins; en skútnaherinn skal fara[3] hit ytra til árinnar, ok leita[4] þar til uppgöngu.

### *Bardagi með Birkibeinum ok Böglum*[5].

156. [Nú munum vèr segja frá Sverri konúngi: hann hafði viðbúnað[6] í bænum. Valslönga var reist[7] útá Eyrum, [en með ánni önnur[8]; ok með endilöngum bænum var umbúizt á húsum uppi, [reistr upp borðviðr á utanverðum þökum, svâ sem víggyrðlat væri, borit þar upp stórt grjót; voru þar til varnar leiðángrsmenn ok bæjarmenn[9]. Konúngr sjálfr var á Eyrunum úti[10], ok hafði (þar) lítit[11] lið; en uppi við brúna var mestr luti hirðarinnar; var fyrir því liði Hákon galinn ok Pètr steypir. Skútur Bagla [rèru uppí ána, ok fyrir bæinn, svâ at þeir lögðu allt upp til[12] Skellíngarhellu; en þeir rèðu eigi til landgöngu [við Bröttueyri[13], [ok þótti þar úhreint[14] fyrir[15], er þeir [kendu at Sigrflugan var[16] á lopti. Þeir skutu á bæjarmenn, en máttu hvergi nær komast[17] fyrir grjóthríð þeirri er ger var af húsunum [ok af bryggjum[18]. Þeir Baglar sóttu hit efra

1) sótt, *B.* 2) *frá* [ leita þar, *G*; leita þaðan, *F.* 3) *b. B,* 4) svâ, *b. G.* 5) *þ. P.* 6) Sverrir k. hafði viðbúnað, *G, F.* 7) *b. B.* 8) *v. F; frá* [ *v. G.* 9) *frá* [ *v. G.* 10) út, *G.* 11) þar ekki mikit, *G.* 12) lögðu át uppi við, *G.* 13) *v. G.* 14) reimt, *F.* 15) *frá* [ þvíat þeim þótti úhreint í höfninni, *G*; þvíat þeim þótti þar tröll fyri dyrum, *B.* 16) sá merkit Sigrfluguna, *G.* 17) koma, *G, F.* 18) *v. G.*

til brúarinnar; voru þeir þar höfðíngjar fyrir[1], Íngi konúngsefni, Nikolás biskup, Hallvarðr af Sástöðum; þeir veittu atgöngu[2] þegar á brúna; [Birkibeinar rèðu þegar[3] í móti þeim, ok mættust á brúnni; varð þar [hit harðasta vâpnaskipti[4], fèllu menn af hvârumtveggjum; viku[5] Birkibeinar undan [ok aptr[6] af brúnni, en Baglar sóttu eptir fast. Birkibeinar nokkurir[7] voru í kastalanum yfir brúarsporðinum; þeir báru ofan stórt grjót á Bagla. [Eptir þat völðust fram af Birkibeinum þeir er hraustastir voru, ok gengu á brúna[8], [lètu þá Baglar undan; (en er) þeir vildu snúast á flótta er fremstir voru, þá stóðu hinir við, er firr voru vâpnum Birkibeina[9]; gerðist þá mikil þröng á brúnni, [svâ at út gengu af handriðin[10]; [fèllu Baglar þá margir á brúnni, en sumir stukku af ut[11]... Baglar rèðu eigi optarr á brúna. Eptir þat gengu Baglar or skotmáli, [ok gerðu ráð sín. Nikolás biskup finnr þat ráð til, at[12] leggja eld í brúna, ok brenna hana upp[13]; [er

---

1) *b. G.* 2) ok (*ofaukit*), *A.* 3) *þ. G*; en Birkibeinar, *A.* 4) hörð skipan, *G*; hörð hríð, *F.* 5) óku, *G.* 6) *v. G.* 7) *v. G.* 8) ok þá völdust enn fram Birkibeinar, *G.* 9) Baglar vildu þá eigi bíða, *G.* 10) *b. G.* 11) *þ. G;* af brúnni bæði upp ok niðr, *F*; en sumir voru drepnir þar á brúnni, *B*; fèllu sumir þar á brúnni; en allir aðrir voru aptr reknir; fèll þar mart manna ok flest (allt, *b. F*); af Böglum. Síðan snerust Birkibeinar aptr yfir ána en, *A, F, B.* 12) Biskup bað þá, *G.* 13) *v. G;* kvað þá svâ hafa gert verit, þá er Magnús k. sat um bæinn, *b. F*; ok svâ var gert, segir hann, (*o. s. fr.*) *G*; var þá svâ gert; þá mælti biskup, *ofaukit í A.*

þeim þá[1] engi utvegr[2] or bænum[3], nema út[4] um borgina, ok skulum vèr þar skjótt fyrir setjast, skulu þeir þá[5] svelta í bænum, en at öðrum kosti gánga út undir vâpn vâr. Svâ var gert[6], at þeir brendu brúna; en Birkibeinar vörðu eldinum ok fengu slökt[7]. Síðan fóru þeir Nikolás biskup til Helgisetrs[8], ok neyddu til prior ok aðra canoca[9] at berjast með sèr, eða hann myndi ella brenna staðinn; síðan fóru þeir brot með honum, ok voru á hans skipi. [Skútnamenninnir komust[10] ekki mjök[11] við orrostu, ok varð þeim bærinn torsóttr; lètu þeir svífa ofan skúturnar fyrir Bakka. Sverrir konúngr gekk upp af Eyrunum [til Smiðjubúða[12], ok gaf Böglum kost á at gánga upp á Bröttueyri, en Baglar [rèðust at um uppgönguna, ok varð þat drjúgara at þeir æðruðust; ok[13] er konúngr fann þat, þá þeysti hann lið sitt [at þeim[14] fram; ok skutu á þá [sem ákafast[15] bæði örum ok spjótum. Baglar brugðu hart við, ok viku þegar undan; var þá fast skip þeirra eitt á grunni, ok var við sjálft[16], at [Birkibeinar myndi því ná; var þar

1) *þ. G;* nú er þeim, *A.* 2) Sverrir k. skal þá vera í bænum, ok er honum þá e. ú., *B.* 3) annarr, *b. G.* 4) *b. G.* 5) *þ. G;* þar, *A.* 6) sem biskup hafði sagt, *b. G.* 7) ok hèlst eitt lag við hit syðra landit, *b. G, F.* 8) *þ. hin;* Helgasetrs, *A.* 9) canúnka, *B.* 10) skútna herinn komst, *B.* 11) *v. G.* 12) *b. G;* Smiðabúða, *F.* 13) æðruðust ok rèðu eigi til, en, *G.* 14) sem harðast, *G.* 15) tíðast, *F;* frá [ *v. G.* 16) því búit, *F.*

mart drepit af,[1] ok mart varð sárt[1]; rèru þeir út [or ánni, ok[2] til stórskipanna; voru [þá þar ok þeirra menn, þeir[3] er til brúarinnar höfðu farit; [lágu þeir allir samt[4] um nóttina. En[5] um morgininn rèru Baglar enn[6] skútunum fram um Hlaðhamra, ok lögðust þaðan undir[7] sem at veit bænum. Nikolás biskup rèri þaðan yfir á[8] Íluvík; hann hafði þá Rauðsúðina[9], er allra skipa var skjótast; hann hugði at, hvar honum þótti bezt at at leggja, ef upp skyldi gánga. Sverrir konúngr [varð varr við þetta, ok[10] kendi ferð hans; tók síðan karfa nokkurn, er Önundr úfriðr[11] átti, ok lèt draga út um Eyrarnar þverar[12], gekk [þar mikill mannfjölði umhverfis svâ þykt[13], at ekki mátti sjá til skipsins, [ok þegar þat kom at sjánum, sá Nikolás biskup skipit[14], bað hann sína menn ljósta í árum sem harðast: ok takit undan sem þèr megut, en[15] ek gef yðr kyrtilsklæðin bæði græn ok rauð[16], ef þèr róit vel; [en ekki rói þèr[17]! eða[18] sèð þèr eigi at [fjandmenn vârir[19] hlaupa galnir eptir oss, ok er[20] sem kyrr

1) þeir mundu eigi af koma; fèll þar mart af Böglum, *G.* 2) *v. G.* 3) þeir þá ok þar komnir, *G.* 4) ok lágu þar, *G.* 5) eptir, *G.* 6) *v. G.* 7) við, *G.* 8) *b. G.* 9) Rauðsíðuna, *G, F.* 10) *v. F,* 11) *v. G.* 12) þvers, *G.* 13) gekk mannfólkit svâ þykt umhverfum, *G.* 14) *b. G*; hrundu nú skjótt fram, o. þ. þ. k. til sjávarins, *F, v. A; sem hefir í þess stað*: ok er Nikolás biskup sá þetta, 15) *frá* [ ok bað sína menn róa undan sem mest, *G.* 16) ok alla vega lit, *b. F.* 17) *b. G*; en ekki vetta gott róit þèr, *F.* 18) *v. G.* 19) fjandrnir, *G.* 20) sýnist mèr, *G.*

standi skútan vâr[1]. [Eptir þat fleygði hann (sèr) or lyptíngunni ok[2] fram eptir skipinu; fauk þá kveifin af höfði honum ok utanborðs. Biskup hèt enn á menn sína, ok mælti: [dugi þèr nú vel[3]; [mik vilja þeir nú finna[4]. Ok í fyrstunni er Baglar [vildu snúa[5] Rauðsúðinni[6], [ok hún hafði eigi tekit fullan skriðinn, þá sótti skjótt[7] saman með þeim; en eigi þurfti biskup svâ mjök at eggja sína menn róðrar, þvíat öllum þeim var yfrinn[8] hugr á undan at róa. En er Baglar sá þetta af öðrum skipunum, þá leyptu[9] þeir til skútunum þángat, ok vildu komast millum[10] lands[11] [ok Önundar[12]. [Önundr sá nú at honum mundi ekki þetta hlýða, ok sneru aptr við svâ búit, ok[13] fengu ekki meira[14] af Nikolási biskupi, en kveif hans höfðu þeir til jartegna.

*Drepnir Baglar af Sverri konúngi ok hans mönnum*[15].

157. Eptir þat rann[16] á hvass landnyrðíngr, ok lágu skipin Bagla öll hin stóru áviðris. Sverrir konungr þóttist vita, at [eigi mun vera[17] gott þar við at haldast; hann lèt flytja

---

1) undir oss, *F*; sk. v. st. k. hjá, *G*. 2) *frá* [ þá hljóp hann upp ok, *F*. 3) auki þèr nú róðrinn, *B*. 4) nú gjarnast fá, *B*; *frá* [ minn fund vilja þeir hafa, *G*. 5) sneru, *G*. 6) Rauðsíðunni, *G*. 7) *frá* [ dró, *G* 8) ærinn, *G*. 9) reyrn, *G*. 10) *þ*. *G*; til, *A*. 11) biskups, *B*. 12) *b*. *G*, *B*, *F*. 13) *frá* [ *b*. *G*, *B*, *F*; en Birkibeinar, *A*. 14) fleira, *G*. 15) *þ*. *P*. 16) kom, *G*. 17) þeim mundi þar eigi, *G*.

yfir ána VIII hesta; síðan fór hann sjálfr þángat, steig hann á bak, ok reið inn [at þeim hit efra[1] fyrir ofan Hlaðir; hann kom svâ þar, at þeir höfðu báta sína gert til lands inn, at slá festum sínum; þeir höfðu akkeri út fyrir skipunum, ok heimtu sik út undir strengina. [Konúngr reið at þeim er festunum slógu[2], ok drápu þar IX menn, en suma ráku þeir á kaf, sumir [fóru á bátum út[3] til skipanna. Baglar hjöggu landfestarnar ok [fluttust út, tóku þá til segla[4], sigldu út undir Rauðabjörg, (ok) lágu þar II nætr. Sverrir konúngr gerði menn íbrot frá sèr út í Orkadal, Eyjólf Aflason[5], Bjálfa skinnstakk, ok sveit með þeim. Baglar sigldu á [hinum þriðja[6] degi[7] yfir[8] til Orkadals, lögðu at[9] við Róaberg[10] ok[11] víða um ströndina; ok jafnskjótt sem bryggjur[12] komu á land, hljópu þeir í [markir upp[13], ok leituðu sèr at mat ok fè, bæði til sætra[14], ok svâ í bygðinni. Birkibeinar gerðu [sát fyrir þeim[15] við bæinn er Holtar[16] heita. Baglar voru drepnir hvârtveggja[17] í túni, ok svâ um[18] leið til árinnar Orknar[19]; margir hljópu[20] þar

---

1) *v. F.* 2) þeir konúngr riðu at, *G.* 3) komust út aptr, *G.* 4) *v. G.* 5) Haflason, *B.* 6) *þ. F*; einum III, *A, B*; einum, *G.* 7) *þ. F, G*; dægrum *A*, (*eða dögum*), *B.* 8) út, *G.* 9) *b. G.* 10) Róabjörg, *B*; Hróaberg, *F.* 11) fóru þeir, *b. F.* 12) þeir, *G.* 13) mörkina, *G.* 14) *þ. hin*; sétra, *A.* 15) þeim fyrisát, *F.* 16) Haltar, *G*; Hollstar, *F*; við Holtarbæ, *B.* 17) *v. G.* 18) á, *B.* 19) *þ. B*; Orkuár, *G*; Orknár, *F*; *v. A.* 20) gengu, *B, F, G.*

á kaf[1], ok svámu sumir[2] yfir ána, en sumir druknuðu; hèldu Baglar aptr til skipanna. [Ok í öðrum stað var þeim sætt[3] við sætr[4] nokkur, voru þar drepnir sumir, en sumir komust undan; voru síðan ekki upprásirnar[5]. Þá höfðu Baglar spurn[6] af, hvar [fyrir voru bú Birkibeina[7], ok gerðu til CCC manna, fóru eptir búinu ok ráku til strandar, ok hjöggu [á skip sín[8] hverja klauf. Þeir tóku einn Birkibein höndum við bæinn Róðar[9]; hann dulðist fyrir þeim, kvaðst[10] vera leiðángrsmaðr einn, [en ekki Birkibeinn[11]; þeir hjöggu af honum fótinn. Baglar lágu þar viku, ok veittu engar upprásir fleiri; þeir fóru þaðan inn til Hólms. Eptir þat gerðu þeir ráð sitt, at fara enn inní hèraðit at fèföngum, heldr en leita til bæjarins; fóru þeir þá inn í Ásfjörð[12] í[13] Hindeyjar[14]; þar lágu þeir nokkurar nætr. Þá leið [hart at skipabúnaðinum[15] Sverris konúngs, voru þá öll skipin búin[16] borði, en eigi våru innan búin. Margir eggjuðu at þegar skyldi flota, er vân þætti, at eigi flotnaði[17] í sundr[18] undir mannfarminum; var þá ok öllu flýtt sem mátti um skipabúnaðinn, ok þegar var flotat[19], [er

1) skip, *B.* 2) *b. G.* 3) mætt, *B.* 4) *þ. B, F;* setr, *A.* 5) *frá* [ *v. G.* 6) frètt, *G.* 7) *þ. G, F*; Birkibeinar voru, *A.* 8) *b. G.* 9) Roðár, *F.* 10) lèzt, *G.* 11) *v. G.* 12) Arfjörð, *G.* 13) ok, *G.* 14) Hundeyjar, *G.* 15) mjök at skipaðbúnaðinum, *G.* 16) borin, *G, F.* 17) losnaði, *B.* 18) *frá* [ eigi flaknaði, *G*; þau þeyldi (mannfarminum), *G,* 19) meðr nokkuru móti, *b. F.*

svâ þótti vera mega, enda var þar[1] ok [búinn allr herinn konúngs, sá er[2] til var[3].

*Frá Sverri konúngi ok Birkibeinum*[4].

158. Þat var á frjádegi næsta eptir[5] Bótólfsmessu[6] snemma um morguninn, at Sverrir konúngr fór út[7] or ánni með her sinn, [fór konúngsskipit fyrst; ok er allt liðit kom [eptir honum[8], lèt hann blása til samlögu skipunum. Síðan[9] stóð konúngr upp á viðuna, ok bað menn gefa at[10] gaum vendiliga hvat hann sagði; konúngr [skaut á örindi ok mælti[11]: hèr er mikill herr saman kominn, ok er þess vân, [ef svâ ferr sem vèr væntum[12], at fund vârn Bagla bæri[13] saman, at[14] eigi munu þessir menn allir með lífi [aptr koma[15], ok er þat nú öllum jafnnær[16], ok vari[17] hverr sjálfan sik. En þat er bæn mín ok vili, at menn gángi til skripta, allir þeir er eigi hafa áðr nýliga þat gert; þat er ok mitt ráð[18], at menn snæði [nokkut, ok drekki[19]; megu menn þó vel skiptast við um róðr. En ef vèr finnum Bagla, ok vili þeir undan oss róa[20], þóat þeir hafi eigi þat látit, þá förum vèr dreift með skip

---

1) *b. G.* 2) búit lið konúngs slíkt sem, *G.* 3) meðr vâpnum, *b. F.* 4) *þ. P*; frá Böglum, *G.* 5) fyri, *G.* 6) Bótólfsvöku, *B, F, G.* 7) *b. G.* 8) öll komu eptir, *F.* 9) *frá* [ saman þá, *G.* 10) *b. F.* 11) mælti svâ, *F.* 12) *v. G.* 13) enn, *b. F.* 14) ok, *G.* 15) braut komast, *F.* 16) jafnvíst, *B.* 17) veri, *G.* 18) þó þat sè at fyrra mâli, *b. B*; í fyrra lagi, *F.* 19) sèr kyrníngs hjarta, *b. B, F*; kyrvíngs hjarta, *G*; *frá* [ kyrníngs hjarta ok drekki, *F.* 20) *v. G.*

vâr, látum milli ördrag eða lengra [hvers skips; látum öll fara jafnfram[1], látum ok [skútur vârar fylgja [æ hverju[2] lángskipi[3]. Þá var sólskin veðrs ok lítit vindgul[4] utan á fjörðinn, svâ at merkit hóf æ[5] frá stönginni; tóku þá Birkibeinar at róa inn á fjörðinn; var þat annan veg en Baglar ætluðu[6], at skip þeirra voru forkunnliga[7] árfljót[8]; voru þau spánósa ok nýbrædd, en ekki [hlaðin nema mannfarmi[9]. Sverrir konúngr steig á skútu, ok hleypti fyrir[10] inn; ok vildi njósna [um, hvar Baglar væri[11]. Þeir sá mann einn upp á land; síðan lögðu þeir at [skútuna, ok kölluðu á hann[12], ok spurðu[13], ef hann vissi [hvar Baglar myndu þá vera[14]? búandi[15] svarar: sè þèr inn til Horna, þar liggr herr þeirra allr við; ok síðan bað hann konúng vel fara, [ok alla þá[16]. Konúngr fór aptr til liðs síns, ok segir, hvern veg stefna skyldi. Ok er þeir höfðu nær hálfróit fjörðinn[17], [sá þeir skip Bagla, at þeir rèru[18] innan undan Horna[19] ok út til Tautru, ok stefndu fyrir norðan [eyna á[20] fjörðinn. En er Baglar sá skip Birkibeina, þá var þat

---

1) *v. G.* 2) *v. F.* 3) *frá fyrra* [ skútu fylgja hverju atlöguskipi, *B;* þetta mundi vera nú dagmálaskeið, *b. G;* nær um d. m. s., *F.* 4) vingol; *G;* vindgol, *F.* 5) *v. F.* 6) hugðu, *G.* 7) stórum, *G;* einkar, *F.* 8) enda, *b. B.* 9) á nema menn, *G.* 10) *v. G.* 11) til Bagla, *G.* 12) *v. G.* 13) bónda, *b. G;* 14) nakkvað til Bagla, *G.* 15) hann, *G.* 16) *v. G.* 17) *v. G.* 18) þá fóru Baglar, *G.* 19) landi, *F.* 20) *v. G.*

ráð ok vili Nikoláss biskups ok Sigurðar jarlssonar ok Hreiðars, at róa út eptir firði, ok eiga ekki við Sverri konúng[1]; ok sögðu at hann myndi ekki mega róa eptir þeim með stórskipin. En Hallvarðr af Sástöðum ok Philippus af Vegenni[2] vildu bíða konúngs; en biskup rèð, at út var róit; þá skiptust menn við stýrihömlurnar[3]; steig Nikolás biskup á Rauðsúðina[4], [en Sigurðr ok Hreiðarr á skúturnar, ok rèru þeir fyrir lángskipunum[5]. Nú sá Birkibeinar[6], hvar [Baglar fóru[7], ok stefndu fyrir þá fyri vestan Tautru á fjörðinn; sótti[8] þá saman skjótt með þeim; var þat fyrir innan Aumburnes[9]. Ok er skamt var í milli þeirra[10], skutu Birkibeinar[11] upp árum[12] sínum, [hljópu síðan[13] í herklæði sín, ok ætluðu[14] at Baglar myndu atleggja[15], en þeir vildu eigi [atleggja[16], ok tóku ok rèru enn[17] undan. Þá mælti Sverrir konúngr: þat óttumst ek[18] at þeir vili í bæinn, ok munu þeir gera illan bakeld bæjarmönnum, áðr en[19] vèr komim inn[20], ef þeir

---

1) *v. G.* 2) Veigini, *G, F*; Vegginni, *B.* 3) róðr ok við stýrihömlur, *F.* 4) Rauðsíðuna, *hin.* 5) *v. G.* 6) Baglar, *G.* 7) Birkibeinar reyru, *G.* 8) ok sækir, *G, F.* 9) Avnburnes, *B.* 10) *frá* [ þá er stund var til þeirra (ej, *F*); meir en örskot, *G, F*; sund var til Bagla, nokkuru meir en eitt ördrag, *B.* 11) Baglar, *F. G.* 12) örum, *F.* 13) *frá* [ ok æptu Baglar upp heróp, ok sneru svâ skipum sínum sem þeir vildi berjast, en Birkibeinar voru ekki herklæddir, en þó skutu þeir upp árum sínum, ok hljópu, *G, F.* 14) hugðu, *G.* 15) berjast, *G.* 16) berjast, *G.* 17) inn, *F*; *frá* [ ok viku, *G.* 18) nú, *b. G.* 19) *v. G.* 20) *v. G.*

1199 taka þat ráð [at halda þángat[1]. Nú spentu þeir árarnar hvârirtveggju, IIII á konúngsskipinu hverja, ok flaug svâ fram sem fugl, ok hver ár var svâ[2] dregin sem menn ætluðu[3] at [halda mætti[4]; en skip Bagla [gengu því minna[5], at þau vâru sollin ok þúng mjök[6], höfðu legit á vatni[7] allan vetrinn [áðr, en hlaðin af vistum ok miklu ránsfe[8].

*Bardagi Sverris konúngs ok Bagla[9].*

159. Hallvarðr af Sástöðum sá þat[10], at Birkibeinar myndu [taka þá öll skip þeirra hin stærstu[11]. [Síðan hèt hann á lið sitt, ok hljóp upp í lyptíng[12], bað víkja aptr [öll skipin hjá[13] þeim Birkibeinum, ok taka þau [er efst[14] færi, [ok hrjóða þau fyrst[15]; en því stýrði Hákon konúngsson [er síðarst fór, þvíat[16] hann hafði lítt skipat, [fór hann því seinst[17]. [Ok er þeir skyldu víkja[18], viku þeir[19] aptr á öllum smáskipum, en hin stóru skipin Bagla urðu ekki mjúkræs hjá þeim er Birkibeinar höfðu. Þá mælti konúngr við Þórð Finngeirsbróður, hann stýrði þá konúngsskipinu: sèr þú skip Hallvarðar? Hví man ek eigi sjá, herra, [segir hann[20]; [þá var svâ nær, at þeir [skutu or

1) v. G. 2) mjök, b. F. 3) hugðu, G. 4) hlýða mundi, G. 5) seinna, B. 6) er, b. G. 7) sjó, G. 8) v. G. 9) þ. P; Frá Birkibeinum, G. 10) nú, G. 11) ná öllum inum stærstum skipum Bagla, G. 12) *frá* [ ok, G. 13) öllum skipunum, F; skipinu, B. 14) fyrst er síðarst, G. 15) v. G. 16) v. G. 17) v. G. 18) v. G. 19) þá, b. G. 20) v. G.

stafnsveit af[1] konúngsskipinu á skip Hallvarðar, 1197. en konúngsskip fór nokkuru[2] fyrr en önnur skip Birkibeina[3], ok eigi skemra frá öðrum en ördrag. Þar skal[4] nú, segir konúngr, [þrifnaðrinn þinn[5] við liggja, at þú hæfir skip Hallvarðar; þar skulum vèr við leggja í dag, þvíat þat er vârt færi. Hann svarar: ekki er [vandi á[6]; svâ svífr, herra, sem vill. [Sverrir konúngr hafði gefit nafn skipi sínu, ok kallaði[7] Hugró. Hallvarðr hafði [þat skip, er þeir kölluðu[8] Skálpinn, Petr steypir ok Eyvindr prestmágr[9], þeir höfðu Ognarbrandinn, Hákon konúngsson hafði[10] Viðsjána, [Philippus jarl Hjálpina[11]. Síðan sveif saman konúngsskipinu ok Hallvarðar, lá konúngsskipit á bakborða, en skúta Eiríks[12] hafði rennt áðr[13] milli skipanna, ok lá því eigi alla [leið síbyrðis Hugróin[14] við[15]; en[16] skip Philippuss jarls kom nokkuru síðarr, ok gat varla vikit svâ brátt[17] at hann gæti á[18] stefnt, [ok rendi skipit fram, ok stefndi á [Hallvarðs skip[19], ok krækðu stafnbúar jarlsins til ljá, ok kom á höfuðit, ok gekk þat af skipi Hallvarðar, [en þeir hèldu á skaptinu, er[20] skipit

1) *frá* [ lustu öru úr stafni á, *F.* 2) sýnu, *F.* 3) *frá fyrra* [ *v. G.* 4) skulu, *F.* 5) þrif þín, *F*; heiðr þinn ok sæmd, *B.* 6) vant um, *B, F.* 7) þetta skip, er konúngr var á, kallaði hann, *G.* 8) *v. G.* 9) prestsmágr, *G.* 10) *v. G.* 11) *b. B.* 12) af Hæ, *b. G, F*; af Há, *B.* 13) aptr, *G.* 14) *v. G.* 15) *frá* [ vega síbyrt við, *F* 16) *v. G.* 17) skjótt, *G.* 18) hjá, *B.* 19) *frá fyrra* [ á skipit Hallvarðar, *G*; *frá síðara* [ á háls skipinu, *F.* 20) *b. B*; en, *F.*

1199 rendi[1] fast; höfuðit var steint[2], ok þótti skipit hrakligt eptir verða. Þá gátu þeir vikit[3] jarlsskipinu, ok lögðu at á stjórnborða aptan til austrúms [frá stafninum[4], lagði þá hvert[5] at[6], svâ sem eptir kom. [Urðu þá VI stórskipin Bagla kríngð innaní, en skip Birkibeina lögðu utan um öll hin[7] stærri[8] skip Bagla; en hin smærri[9] lögðu lítt at skipum Birkibeina, fyrir því at þeir vildu eigi verða inni krækðir[10], en þeir máttu svâ [undan dragast[11] ella sem þeir vildu[12]. Ógnarbrandrinn, er þeir Petr [ok Eyvindr[13] stýrðu, [hann hafði eigi atróit í fyrstunni, en þá er þeir vildu honum tilvíkja[14], þá gátu þeir[15] eigi svâ skjótt[16] vikit, þóat [þeir[17] hamlaði[18] á annat borð, en allir rèri á annat[19]; en skútur Bagla firðust æ Ógnarbrandinn, [hvar sem hann var, ok vildu eigi við hann festast, ok lögðu þar at, sem hann var fjarri, gekk svâ meðan er bardaginn var[20]: var þessi orrosta bæði hörð ok löng, hófst[21] [fyri middegi, ok vannst þar til er var miðr aptan[22]; [þessi orrosta var á Strindssæ[23]. Sverr-

1) at *b. F.* 2) *frá* [ *v. G.* 3) ykvit á, *G;* snúit, *F.* 4) *v. G.* 5) hverr, *G.* 6) *frá* [ þá stafnlagði hvert at öðru, *B.* 7) *frá* [ *b. G.* 8) smærri, *G.* 9) *þ. F*; *frá fyrra* [ stórskipin, *A.* 10) kríngðir, *G, F.* 11) vernda, *F.* 12) *frá* [ *v. G.* 13) steypir, *G.* 14) víkja, *F.* 15) *frá* [ varð eigi við í öndverðum bardaganum, því at þeir gátu honum, *G.* 16) brátt, *G.* 17) *b. B*; allir, *G.* 18) *frá* [ allir reyri, *G.* 19) ok reist svâ rúman krókin, at þeir fengu eigi at vikit, *b. G, F.* 20) *v. G.* 21) *þ. G;* orrostan, *b. A.* 22) at miðjum degi en vanst til miðaptans, *G.* 23) *v. G, F.*

ir konúngr hafði þat sagt liði sínu, áðr orrostan tókst: ef svâ ferr sem mik [varir, sagði hann[1], at vèr sigrimst, þá minnizt þèr nú þess, er Baglar sveltu yðr fyrra sumar í Björgyn í borginni, ok gefit engum manni grið, nema þeim[2] er á minn fund komast[3]; fyrir því at nú er auðsýnt, at með engu öðru fám vèr eytt vârum fjandmönnum, nema oddi ok eggju; margan munu þèr hitta[4] í dag með Bögl-um eiðrofann[5] ok konúngsníðíng; skulu þeir nú [allir sárliga[6] þess gjalda. Skip, [þat er biskup hafði stýrt, var laust við[7], ok gafst því rúm út hjá Birkibeinum, þvíat[8] straumr hafði dregit sundr skipin; rèri biskup[9] íbrot ok inn at landi, hljópu upp af allir menn þeir er færir voru. Sverrir konúngr skaut um daginn af lásboga[10], ok svâ Philippus jarl; varð jarl skot-inn undir brynstúkuna í arminn, ok [kipti hann eigi örinni or[11] fyrr en [um kveldit[12]. Rauðsíðan, er biskup var á ok konúngsefni, lá eigi nærr orrostunni[13] en svâ, at þeir máttu sjá, hvârir sigraðist; [ok þegar þeir [sá at Birk-ibeinum horfði vænna[14], þá reyru þeir út eptir firði sem mest máttu þeir[15]. En er liðit tók

1) væntir, *G.* 2) einum, *b. F.* 3) sækja, *F.* 4) finna, *G.* 5) eiðsvarann, *F.* 6) *v. G.* 7) *b. F.* 8) *frá* [ biskups hafði eigi at lagt; reyru þeir, *G.* 9) þat skip, *B.* 10) af skipi sínu, *b. G.* 11) drö eigi á brott, *B.* 12) at aptni, *B.* 13) bardaganum, *G.* 14) *frá síðara* [ þóttust skilja, at Birkibeinar mundi betr hafa, *F.* 15) *frá fyrra* [ *b. G.*

